# Misskilningur

## Tilfelli úr daglega lífinu.

**Saga eftir**

J. H. Lindal.



WINNIPEG:
The Viking Press Limited
*1919*

# Misskilningur

## Tilfelli úr daglega lífinu.

Saga eftir

J. H. Lindal.



WINNIPEG:
The Viking Press, Limited
1919

# FORMÁLI.

Nokkurt áræði er það fyrir alþýðumann, sem tínt hefir upp þekkingu sína á hlaupum, eins og smalar á Fróni hagalagða, að gefa út undir almenningsdóm ritsmíði sitt. Margir eru svo sinnaðir, að við að sjá nafn alþýðumannsins á framsíðu rits, þykjast þeir vita, að þar sé um fánýtt hjal að ræða. —

Hér er ekki um skáldsögu að ræða í því formi, sem flest söguskáld framsetja efnið. Til dæmis koma ekki fram í riti þessu mjög æsandi ástríður til ásta, afbrýði, fégirndar og fúlmensku; heldur er reynt að skýra tilfellin í sönnu ljósi hversdagslífsins. Ekki heldur koma fram í riti þessu hin jafnvel óeðlilegu ástar 'skot' eða augnablikssnerting, sem títt kemur fram í æsandi ástasögum. Sögukorn þetta ritaði eg fyrir átta árum, fékk þá tíma til þess. En söguatriðin höfðu um mörg ár legið í meðvitund minni.

Eg vona að þeir, sem kaupa og lesa rit þetta, finni við lesturinn tilgang höfundarins, nefnilega að sýna með sönnu dæmi, hvað **misskilningur** veldur oft megnu böli. Vegna fjárskorts á eina hlið, og verðhækkunar á öllu, sem að bókaútgáfu lýtur, hefi eg ekki treyst mér til að kosta prentun á ritinu. En þar sem nú er að dragast að aldurtila, ræðst eg í kostnað þenna í þeirri von, að landar sýni mér þá sanngirni og góðvild, að kaupa þetta verðlitla rit.

Ritað í Apríl 1919.

**J. H. Líndal.**

———x———



# Inngangur.

## 1: Ferðin frá Íslandi til Norður-Ameríku.

Loksins er eg þá kominn hingað til vinar míns, og í bráðina að minsta kosti, kominn á enda þeirrar löngu ferðar, sem eg hafði fyrir framan mig, þegar eg lagði af stað frá Íslandi.

Ekki get eg dulist þess, að mér ægði við að leggja út í þessa svo ákaflega löngu ferð, sem aldrei hafði áður um æfina komist svo langt sem út fyrir landsteinana. Að hugsa til að eiga nú að leggja út yfir þetta ægilega víða veraldarhaf, Atlantshafið, og vita fyrir víst að eg átti ekki aftur kvæmt, hvað svo sem við tæki.

Og það fóru sannarlega misjafnar sögur af því, á Fróninu mínu forna, hvað við tæki hérna megin hafsins fyrir þorranum.

En það styrkti mig þó aftur í öðru veifinu, að hann Sigurður vinur minn var farinn á undan, og eg hafði nokkra von um að honum liði heldur vel; já, eitthvað betur en áður.

Jafnvel þó að svo skyldi nú til takast, að stefnan breyttist á leiðinni, og í staðinn fyrir að sigla í vesturátt, hlyti eg að "beita upp í" og sigla hið ólganda haf

inn á friðarins hafnir, hafði eg þá von að eg hitti þá hana Guðrúnu mína sál., og hann Guðmund son minn, sem einu sinni fyrir dagrenning lagði út frá Selsvík með alla sína háseta, en kom aldrei heim aftur. Nábúi okkar þóttist hafa séð hann um morguninn á siglingu.

Leiðin upp í Selvík var ákaflega hættuleg í öðrum eins blindbyl og þá laust á, svo eg hefi altaf talið sjálfsagt síðan, að hann hafi "beitt upp í" og siglt alla leið inn á friðarins hafnir. Eg lagði því upp með þessa tvöföldu von í veganesti, og hún hefir nú fleytt mér allar götur hingað.

Á þessari löngu ferð minni er eg búinn að sjá svo margt og mikið af því, sem eg áður hafði ákaflega litla hugmynd um að til væri í veröldinni. Þó að eg áður hefði heyrt talað um suma af þessum hlutum, komu þeir mér alt öðruvísi fyrir sjónir, þegar eg sá þá með eigin augum, heldur en áður fyrir hugarsjón minni. Auðvitað var eg stundum svo ringlaður, að eg gat illa áttað mig á hlutunum, sem fyrir augun báru.

Þegar eg lít yfir alt í heild sinni, sem fyrir augu mín hefir borið síðan Íslands fjöll hurfu sjónum mínum, minnist eg ekki að hafa eiginlega séð nokkurn hlut, svipaðan því, sem eg hafði vanist á fósturjörðinni, síðan eg fyrst man til mín fyrir 50 árum. Hlutirnir, landið, húsin, verkfærin, fötin, jafnvel fólkið sjálft, virðist mér svo ólíkt. Já, jafnvel hann vinur minn, Sigurður Magnússon, er orðinn svo ólíkur því, sem hann var áður, og eg náttúrlega bjóst við þegar eg kæmi. Mér finst hann hafa breyzt svo mikið í öllu tilliti. Eg er kominn að raun um það, að vinur minn hefir breyzt; hann er meira að segja orðinn dálítill

æfintýramaður, og af því að hans æfintýri er nokkuð frábrugðið hinum almennu æfintýrum, þeim sem líf einstaklingsins yfirleitt framleiðir, ætla eg með góðfúsu leyfi þeirra hjóna hér, — hennar er eðlilega saman ofið við hans —, að skýra yður frá helztu atriðunum.

## 2. Sigurður Magnússon, ætt hans og uppfóstur.

Eg hefi þekt Sigurð Magnússon síðan hann var ómálga barn. Hann er fæddur 2. dag janúar 1851 í Holti í N. sýslu; foreldrar hans voru Magnús Jónsson og Sigríður Sigurðardóttir, prests að Kirkjubæ.

Magnús faðir Sigurðar bjó allan sinn búskap í Holti. Var hann fjölda mörg ár hreppstjóri og sveitaroddviti eftir að sú breyting komst á. Þau hjón eignuðust tólf börn saman, hvar af fimm komust á aldur, en hin dóu öll í bernsku. Þegar Sigurður var 15 ára gamall, misti hann föður sinn; var hann þá hjá séra Stefáni í Felli, móðurfrænda sínum; nam hann þar: skrift, reikning, dönsku, og helztu fræðigreinar, sem leikmenn lögðu stund á að nema í þann tíma.

Af því hugur hans hneigðist meira til smíða og búsýslu, hélt hann ekki áfram námi, þó að efni væru góð.

Jón bróðir hans tók við búsforráðum með móður þeirra í Holti.

Þegar Sigurður var 20 ára gamall, kvongaðist Jón bróðir hans. Lagði þá móðir þeirra Sigríður niður búsumsýslu og afhenti Jóni jörðina. Skiftu þá erfingjar, sem allir voru lögmyndugir (Sigurður var

þeirra yngstur) búinu, og tók hver sinn arfahluta. Var þá Sigurður talsvert fjáður, því fyrir utan arfhluta, er var mikill, græddist honum fé. Hann var orðinn smiður góður, þó að aldrei hafi lært, öðruvísi en unnið með smiðum. Líka var hann reglumaður, og sýnt um fjárhag.

## 3. Ingibjörg Kristjánsdóttir, ætt hennar og uppfóstur.

En nú koma fleiri til sögunnar, sem sé Ingibjörg Kristjánsdóttir. Þegar hún var fimm ára, misti hún föður sinn. Var hún og yngst systkina sinna, sem alls höfðu fæðst níu, en fjögur voru nú á lífi. Þegar Guðný móðir Ingibjargar misti mann sinn, Kristján, treystist hún lítt til að halda áfram búnaði; og með því að venzlafólk og vinir buðu henni að taka börnin og ala upp fyrir ekkert, þáði hún það.

Þórður á Grund, bróðir Kristjáns sál., var nú orðinn ekkjumaður. Átti hann þrjú börn á lífi, nokkuð vaxin, af fimm, sem þau hjón höfðu eignast saman í hjónabandinu. Tók hann nú ekkju bróður síns með tveimur börnunum, Ingibjörgu og Þórði nafna sínum. Búið var selt við uppboð, og það sem af gekk skuldum, sem lítið mun hafa verið, var lagt á vöxtu sem geymslufé.

Þegar Ingibjörg var tíu ára gömul, missir hún móður sína. Var þá Guðrún Þórðardóttir 18 ára gömul, og tekur við innanhúss-stjórn, sem móðir Ingibjargar hafði áður annast.

Árið eftir að Ingibjörg var kristnuð, fór hún á kvennaskólann í E., sem þá var verið að setja á lagg-

irnar, fyrst með einum kennara og síðar með fleirum. Var þá eins og nýr heimur rynni upp fyrir ungum heimasætum í sýslunni. Það var jafnvel ekki grandvart um, að sumar ungu konurnar hörmuðu forlög sín, að hafa fæðst heldur snemma í heim þennna, eða þá aðrar að taka fyrstu biðlunum á meðan þær voru lítt af æskuskeiði, og láta hann ei hlaupa áfram með bogið bakið. Þá fóru líka ungu piltarnir að hugsa gott til framtíðar sinnar; nú færi þeim að gefast tækifæri á að eignast myndarlegar konur; konur, sem gætu sniðið og saumað fötin utan á mennina sína, og kynnu að laga mat og bera á borð, svo að boðlegt væri þó að heldri menn bæri að garði.

Í þann tíma mændu líka margir ungir sveinar á Möðruvallaskólann, sem þá var nýlega seztur á laggirnar. Þeir sáu sig í anda sem forvígishölda sveitanna — með konum sínum, standa jafnfætis — í það minsta prestinum og prestkonunni, að allri menningu.

Ingibjörg var tvo vetur á skóla þessum, en með fóstra sínum á sumrin.

Nú kom fyrir atvik, sem gerði dálítinn krók á fyrirhugaða leið Ingibjargar, sem sé, að Guðrún Þórðardóttir giftist í burtu frá föður sínum. Varð nú Ingibjörg að taka við starfi hennar. Jafnvel þó að henni væri þetta mjög á móti skapi, gat hún ekki neitað fóstra sínum, sem ætíð hafði reynst henni sem bezti faðir. Líka var í orði, að hann hætti búskap áður langt um liði, og afhenti öðrumhvorum tengdasona sinna jörðina.

Ingibjörg var nú orðin fullþroskuð kona, há og grönn, með ljósgult hár mikið, sem hún hirti vel; enn-

ið hátt en ekki breitt og brúnin skörp. Augun blá, nokkuð ljós á þeim aldri; kinnin slétt, nefið nokkuð hátt, en beint og ekki þykt. Munnurinn nettur, hakan mjó niður, andlitið nokkuð við toginleitt, en hvítt sem mjöll væri. Vinstúlkur Ingibjargar höfðu komist að því að hana fýsti að halda áfram náminu á kvennaskóla. Var hún gáfuð vel og námgjörn; nokkuð ör í lund og einarðleg, þótt lítt væri af æskuskeiði, en siðprúð samt í allri framgöngu.

## 4. Gifting þeirra Sigurðar Magnússonar og Ingibjargar Kristjánsdóttur.

Sigurður Magnússon er nú lausamaður í Holti; hefir hann gangandi fé svo mikið, að honum er lítt hægt að framfleyta því, án þess að taka jörð til ábúðar. En fyrir hann, bráðungan og efnilegan mann, að fara að búa án þess að kvongast, var nokkuð, sem var alveg óhugsandi á Íslandi. Mér er samt sagt, að það sé altítt hér í landi, að ungir og efnilegir menn byrji búskap án þess að gifta sig, og sumir af þeim búi þannig ógiftir í mörg ár. Eg heyri að Vestur-Íslendingar kalli þá "baslara". Í gamla landinu hefði það samt ekki þótt neitt upphefðarnafn, á ungum og efnilegum bónda. Um veturinn þenna hinn næsta heyrðist, að Sigurður Magnússon hefði beðið Ingibjargar á Grund. Ekki vissu menn gjörla hverju hún hefði svarað. Flestir töldu óráð ef að hún hefði ekki tekið svo álitlegum ráðahag. Konur þær, sem kunnugastar þóttust málinu, sögðu að hún mundi hafa verið treg og borið við æsku sinni. Aftur vildi Sigurður ekki hætta við hálfbyrjað verk, og með því að Þórður fóstri Ingibjargar

var þess máls mjög fýsandi, varð því til lykta ráðið.

Þetta hið næsta vor reisti Sigurður bú að Mýrum. Hafði hann tekið hálfa jörðina að erfðum, eins og áður er sagt, móti systur sinni. Um sumarið giftu þau sig, Sigurður og Ingibjörg. Var þar fjölmenni mikið saman komið, og veizla hin ríkmannlegasta. Ingibjörg var þá nítján ára gömul en Sigurður 23 ára.

## 5. Sambúðin á Mýrum.

Nokkru eftir að þau Sigurður og Ingibjörg héldu brúðkaup sitt, varð eg var við, að fleiri en eg höfðu tekið eftir því, að Sigurður var eins og eitthvað þunghugsandi giftingardaginn. Auðvitað er engin ástæða til að hneykslast, þó að menn séu nokkuð alvarlegir þann dag. Því hugsandi menn, eins og Sigurður var, geta varla án nokkurrar alvöru hugsað um hina óráðnu gátu. Hvernig mun nú þetta hjónabandslíf líða áfram? Auðvitað mun það hið almennasta, að vonin kemur til brúðhjónanna þegar þau eru að velta þessu fyrir sér, og reyna að ráða gátuna —, hýr og brosandi er hvíslar að þeim: Ó, það verður indælt, þar verður ástríkur vinur, sem blessar og sykrar alt andstreymi lífsins. Eg vil ekki fullyrða um það, en seinna datt mér í hug, að Sigurður hefði verið að velta þessari gátu fyrir sér og reyna að, ráða hana giftingardaginn. Hann langaði til að vonin segði satt. Og af því að hann langaði svo innilega til þess, gat hann ekki verið annað en hugsi þann dag.

Á öðru búskaparári Sigurðar á Mýrum eignuðust þau hjónin dóttur, sem var vatni ausin og nefnd Sig-

ríður, eftir móður Sigurðar. Hafði hann stórt bú að Mýrum og mörg vinnuhjú.

Ekki liðu mörg ár, þar til fór að kvisast um sveitina, og haft eftir hjúunum á Mýrum, að frekar væri fátt á milli hjónanna þar. Samt bar lítið á því fyrstu tvö árin.

Eg vil ekki þreyta lesarann með að lýsa nákvæmlega, hvernig hjónalífið leið áfram á Mýrum. Aðeins vil eg geta þess, að aldrei heyrðist að rifrildi eða illyrði ætti sér stað á milli hjónanna. En kuldinn, fálætið og þyrkingurinn fór altaf vaxandi. Séra Páll á Stað og Stefán hreppsnefndaroddviti á Vatni, gerðu margar tilraunir til að afstýra hjónaskilnaði, því Ingibjörg vildi fara alfarin burtu frá Mýrum. Þórður gamli fóstri hennar var sá eini, sem vann hana. Hún linaðist ætíð í áformi sínu, þegar hann hafði talað við hana. Óánægja Ingibjargar tók ákaflega mikið á Þórð gamla á Grund, því hann unni henni jafnvel meira heldur en sínum eigin börnum.

Fjórða veturinn, sem Ingibjörg var á Mýrum, misti hún fóstra sinn. Dugðu þá engar fortölur framar við hana, heldur var hún ákvörðuð með að vera þar ekki lengur. Um vorið, eftir að þrjár árangurslausar sáttatilraunir höfðu fram farið, skildu þau Sigurður og Ingibjörg til fulls að samvistum. Var búinu á Mýrum þá skifti á milli þeirra, því Sigurður vildi þar engan hlut í eiga, heldur lét óviðkomandi menn gera það. Var Stefán á Vatni fyrir Ingibjörgu, en eg var fyrir Sigurð. Lausafé öllu var skift til helminga, en hálfri jörðinni á Mýrum var ekki skift, heldur skyldi hún standa óseld og óskift sem arfahluti Sigríðar litlu.

Þá um vorið fluttist Ingibjörg í aðra sveit til hjóna nokkurra, sem áður höfðu búið í sveitinni, þar sem hún fæddist upp, og var því í kunnugleika við þau. Fór hún með dóttur sína, því hún vildi hana eigi við sig skilja. Þótti Sigurði það mein mikið, en lét þó svo vera.

Þetta er nú alt, sem eg get sagt um æfiatriði Sigurðar; en af því ekki er nema hálf sögð sagan, hefi eg beðið hann að segja mér framhaldið, og með hans leyfi er það hér komið.



# Fyrsti Kafli.

## I. KAPÍTULI.

### Kirkjubyggingin á Hofsstöðum.

Þegar eg var 18 ára gamall, var kirkjan á Hofsstöðum bygð. Gamla kirkjan með torfveggjunum og torfþakinu, og gluggunum með litlu rúðunum, sem staðið hafði — eg held frá ómunatíð — rifin niður; og timburkirkja með háum turni og stórum gluggum var reist í staðinn.

Eins og þú manst, var Christensen timburmeistari þar yfirmaður. Var hann gleðimaður mikill og spaugsamur — kanske um of á stundum. Eg man til dæmis vel eftir því stundum um sumarið, — þegar sóknarbændurnir komu að Hofsstöðum með konur

sínar, til að sjá þessa "praktugu nýmóðins byggingu", sem það kallaði; klætt upp í beztu hátíðaföt sín, — hvað Christensen tókst þá undur vel að útmála sem hlægilegast klæðnaðinn, sem fólkið bæri í sveitunum. Þessi svo nauða ósmekklegu, víðu föt, sem karlfólkið var klætt í, sem að tækju sig nokkuð svipað út eins og flíkur væru hengdar á staur í vindgusti. Þessi heitu og þykku föt í sumarhitanum, margbyrgja sig í þeim, og svo til að hafa alt sem fullkomnast, setja þeir margfaldan þykkan ullartrefil um hálsinn. Og konurnar, eftir að hafa klætt sig í þykka ullarkjóla — peysan var samt hið algengasta — fóru þær í þykkar treyjur með stóru útslagi, og seinast, til að gera alt sem myndarlegast, slæddu þær yfir sig þykku ullarsjali, eftir því stærra og þykkra, sem konan var betur efnum búin.

Mjög glettnilsega lagði Christensen fyrir okkur þessa spurningu: "Hverju klæðist þetta fólk á vetrin, þegar öll fold er snævi þakin og Norðri skýtur sínum frostörvum svo ósleitilega á það? Ekki gátum við tilnefnt, að það mundi brúka önnur föt. "Aumingja fólkið, það er þá ver farið en dýrin, þau brúka flest léttari klæði á sumrin."

Eg er viss um að orð og ræður Christensens hafa haft töluverð áhrif, bæði á mig og fleiri, sem með honum unnu um sumarið. Auðvitað var ekki nema eðlilegt, að sveitafólk á Íslandi sýndist nokkuð grófgert í augum Christensens, sem hafði verið 14 ár í Kaupmannahöfn, og þess utan alla sína æfi í kaupstöðum, utan lands og innan. —

Þegar eg fór að athuga þetta með sjálfum mér, og leita eftir röksemdafærslu með og móti, komst

eg að þeirri niðurstöðu, að verklega smekkvísi og praktíska hagsýni vantaði algerlega í fatatilbúningi og matreiðslu hjá íslenzkum konum yfirleitt. Eg fann, að konuefnin þurftu að fá betri skóla, heldur en þær höfðu hingað til fengið hjá mæðrum sínum.

Það leið líka ekki langt um, þangað til þær þarfir mundu uppfyllast, því næsta ár var kvennaskólinn á E. settur á laggirnar, fyrst með einni kenslukonu og annað árið með tveimur.

## II. KAPITULI.

### "Það er ekki gott að maðurinn sé einn".

Svo leið nú tíminn áfram, þar til eg var 22 ára gamall. Alt þangað til hafði eg komist fram hjá Sjöfn gömlu, án þess að hún styngi mig með eldörvum sínum. En nú kom takmarkið: Hingað og ekki lengra.

Eins og þú segir í frásögu þinni, var eg neyddur til að fara að hugsa um búskapinn. Jón gamli var á Mýrum og niðurnýddi jörðina, en eg þurfti hennar með. Að fara að reisa bú án þess að gifta sig, var hlutur óhugsandi.

Um þetta sama leyti var Ingibjörg Kristjánsdóttir komin af kvennaskólanum, og stóð fyrir innanhússstjórn hjá fóstra sínum á Grund. Talsvert orð fór af því, hvað Ingibjörg hefði fengið góðan vitnisburð á skólanum; jafnvel að hún hefði fengið bezta vitnisburð í sumum greinum. Eg hafði oft séð Ingibjörgu á uppvaxtarárum hennar. Holt og Grund voru í sömu sókn. En nú hafði eg ekki séð hana síðan hún var fermd. Eg man, að hún sat fyrir stúlkunum, sem

voru fjórar, fermingardaginn. Ekki man eg vel, hvernig henni gekk að svara spurningunum; eg held eg hafi ekki tekið vel eftir því.

Einhverntíma á jólaföstunni brá eg mér yfir að Grund, og fann til eitthvert erindi við Þórð gamla. Þegar eg kom heim aftur, fór eg að leggja alt niður fyrir sjálfum mér. Tók eg nú skynsemina og tilfinninguna í ráðuneyti um það, hvort eg ætti að kjósa Ingibjörgu Kristjánsdóttur fyrir fylginaut á ókominni æfibraut. Skynsemin sagði hiklaust já, og tilfinningin var heldur með því.

Ekkert lét eg bera á þessum tilfinningum mínum við skylda eða vandalausa — vildi halda þeim duldum, þar til einhver alvara væri orðin úr þeim. Ekki vil eg neita því, að tilfinnngar mínar ,eða hugur, dróg Ingibjörgu eins og ósjálfrátt inn í meðvitundina. Mér fanst eg eitthvað vera að breytast. Af því eg fann að breyting var að koma á tilfinningar mínar, og jafnvel skildi í hvaða átt þær stefndu, fór eg að yfirvega þetta nákvæmlega og leita að hreyfiaflinu. Eg fór svo langt, að spyrja sjálfan mig: Elskar þú Ingibjörgu?

Eg gat ekki sagt já; eg gat ekki lagt neitt ákaflega mikið í sölurnar fyrir hana, svo sem öll lífsþægindi og velsæld, ef að hennar kringumstæður hefðu krafist þess af mér. Hvers vegna? Af því eg hafði enga vissu fyrir að hún elskaði mig, eða vildi nokkuð leggja í sölurnar fyrir mig.

Svo fór eg að reyna að gera mér grein fyrir því, hverju að Ingibjörg mundi svara, ef eg legði upp að biðja hennar. Eg bjóst við að Þórður fóstri henn-

ar yrði þess fýsandi. Um hana var ráðgáta. Þá sjaldan eg hafði séð hana í seinni tíð, hafði mér aldrei hugsast að lesa út tilfinningar hennar. Og síðast þegar eg kom þar, vildi svo óheppilega til, að hún var í einhverju annríki við eldhússtörf, og hafði því litla viðdvöl í stofunni, þegar hún bar okkur kaffið. Reyndar bjóst eg við að hún mundi ekki neita; en hvort hún samþykti það í hjarta sínu með heitum hugfangnum tilfinningum, var mér ráðgáta.

## III. KAPÍTULI.

### Sigríður Stefánsdóttir.

Um þetta tímabil var það eitt kvöld, að eg ligg vakandi í rekkju minni, eftir að allir eru í svefn fallnir. Fer eg þá að hugsa um Ingibjörgu. Mér fanst eg þrá svo mjög að geta með sanni vitað, hvernig tilfinningar hennar væru í minn garð. Nærri þóttist eg fara um það, að hún hefði góðan þokka til mín. Samt fanst mér það ekki nóg, eg vildi eitthvað meira. Svo fór eg að reyna að dreifa þönkunum og spurði loks sjálfan mig: Viltu vera að eiga nokkuð á hættu með Ingibjörgu, er ekki um fleiri efnilegar stúlkur að ræða? Jú, Sigríður á Vatni er efnileg stúlka og af góðum ættum, uppalin á mesta regluheimili. Hún hlýtur að verða góð og reglusöm húsmóðir. Mér fanst eg eiginlega ekkert geta sett út á Sigríði. Hún var frekar fríð ásýndum heldur en hitt; með mikið dökt hár, sem hún hirti vel og fór henni prýðilega. Ennið ekki hátt, en breitt: dökk brá og dökkmóleit augu, hrein og skær. Kringluleit í andliti, með nokkra undirhöku; vottaði fyrir dá-

litlum lautum (spékop í kinnum) þegar hún brosti. Nefið heldur stutt og hafið upp að framan. Svipurinn sí-glaður og varirnar brosandi. Fremur lág og þéttvaxin. Við Sigríður vorum vel kunnug, höfðum oft verið í sama félagslífi; samt var hún nokkru yngri, hér um bil þremur árum. Innilegt vináttuband hafði um langa tíð haldist milli heimilanna Holts og Vatns. Stefán á Vatni var einhver bezti vinur föður míns sál. Þegar hann dó, tók Stefán við oddvitastöðunni. Sama var með móður mína, að hún var aldavinur Guðrúnar, og mun Sigríður hafa borið hennar nafn. Enda var hún hjá Guðrúnu þegar barnið fæddist.

Hér um bil var eg viss um, að ef eg leitaði ráðahags til Sigríðar á Vatni, þá mundi það mál auðsótt.

Fyrir utan það, sem áður er sagt, var mér vel ljóst um, að Stefán áleit mig með efnilegustu mönnum þar um slóðir. Jafnvel þó eg hefði aldrei gefið Sigríði nokkurt tilefni, vissi eg nokkurn veginn vel að hún hafði góðan þokka til mín. Eg hefði ekki þurft að hafa mikið fyrir að vekja heita ást hjá henni.

Loksins hurfu allar þessar hugsanir úr meðvitundinni, með fasta svefni, sem varaði fram á bjartan dag næsta morgun. Allan þann dag og næstu daga á eftir var eg að störfum mínum, og veitti engum kynjahugleiðingum inngöngu í hugarfylgsni mín.

## IV. KAPÍTULI.

### Leitin.

Eins og áður er frá sagt, er Jón gamli á Mýrum og niðurníðir jörðina; og með því að mér líkaði það mjög

illa, sá eg að svo búið mátti ekki standa. Eg sá vel, að eg þurfti að gera alvöru úr því og láta hann víkja burtu af henni. Reit eg því sjálfur útbyggingarbréf, sem eg færði stefnuvottum þar í bygðinni, til birtingar Jóni á Mýrum fyrir jólin. Á heimleið minni til baka gerði eg aðeins lítinn krók á leið mína, til að koma að Grund. Einhver kitlandi tilfinning dró mig þangað.

Eins og ætíð var að venjast, var Þórður gamli hinn vingjarnlegasti. Bauð hann mér strax til stofu, þar sem við fórum að ræða um eitt og annað á lausung.

Alt í einu segir hann: "Þú segist koma frá Þorsteini á Bakka. Þú hefir þó ekki verið að færa honum stefnu?"

"Jú, sama sem, eg sá engann annan kost en byggja Jóni gamla út."

"Já, eg býst við því, það er ofur leiðinlegt að sjá jörð sína níðast svona niður."

"Já, mig langar til að laga þar eitthvað; jörðin er heldur góð, ef henni væri einhver sómi sýndur."

"Ó, já, Mýrar gætu verið góð jörð undir góðri ábúð; þó að túnið sé þýft, þá er það þó heldur grasgefið; með svona ábúð er ekkert að marka jörðina. En svo vill það víða brenna við, þar sem að leiguliðar eru, að jarðirnar eru miður setnar en skyldi. Það er reyndar eðlilegt að leiguliðar hlífist við að leggja mikið í kostnað að bæta jarðir, þar sem þeir mega búast við að víkja á burtu áður en þeir fara að uppskera arð af erfiði sínu."

"Eg veit það vel, og mér dettur ekki í hug að ætlast til að nokkur fari að leggja fram fé, undir óvissum ábúðarrétti."

"Viðvíkjandi Mýrum hefir mér helzt hugsast, að hafa umráð yfir jörðinni sjálfur, og reyna eitthvað að laga þar til á minn kostnað."

"Já, náttúrlega."

Í þessu bili er hurðinni lokið upp, og Ingibjörg gengur inn í stofuna með kaffi, sem hún ber á bakka, handa okkur, sem fyrir erum; setur hún kaffið á borðið og býður okkur velkomna, gengur síðan að legubekk, sem stóð upp við vegg þar í stofunni, og sezt niður (þannig, að hún hvílist upp við bakið). Þórður gamli stendur upp, gengur þar að skáp, sem var hér um bil fimm fet á hæð, haglega gerður og vel málaður. Opnar hann skápinn, sem var með mörgum hillum, tekur þar út kristalsflösku með glertappa og tvö vínglös, sem hann setur á borðið og segir við mig: "Viltu ekki fá þér dálítinn dropa út í kaffið?" og hellir á glösin. Tók eg annað glasið og tæmdi til hálfs út í kaffið. Hann gerði slíkt hið sama og segir: "Það er altaf ofur viðfeldið, að hafa dropa út í bollann sinn."

Eg játaði það satt vera.

Nokkuð var eg lengur en vanalega gerist að drekka úr bollanum; mér var ekki um að Ingibjörg færi úr stofunni án þess að fá hana inn í eitthvert samtal. Að hefja það þóttist eg vera í vanda studdur. Var nú samt um stuttan tíma að gera, svo eg varð að vera ákveðinn.

Eg segi því við Þórð gamla: "Hefir þú heyrt hvernig að séra Páll ætlar að haga til með messur um jólin?"

"Eg hefi heyrt að hann ætli að messa heima hjá

sér á jóladaginn, en hér á annan." Grund er útkirkja frá Stað.

Því næst sný eg mér til Ingibjargar, þar sem hún sat í legubekknum og segi: "Hvernig gengur ykkur stúlkunum að undirbúa fyrir samkomuna?"

Ingibjörg sat, eins og áður er sagt, og hvíldist upp við vegginn; með mjúkum og mjallhvítum fingrum var hún að fitla við dökkleita hárfesti, alsetta marglitum glerperlum, sem hún bar um hálsinn, og hékk lykkjan niður undir mittið. Þetta var sunnudagurinn síðasti í Adventu. Við þetta ávarp reis hún upp í sætinu, og jafnframt færðist eins og eitthvert hreyfiafl í hana.

"Eg veit varla, hvað eg á að segja; von hefi eg samt um, að við getum sýnt lit á okkar hluta. Eg fór út að Stað fyrir stuttu síðan, og ræddum við þá að nokkru leyti um tilhögun á því. Viðvíkjandi prógraminu höfum við dálítið hugsað. Margrét dóttir séra Páls ætlar að lesa upp sögu, sem hún hefir þýtt."

"Það var heppilegt, að hún kom heim af skólanum fyrir jólin," gegndi eg fram í.

"Já, og Þórunn systir hennar ætlar að koma með eitthvert stykki. Það er óákveðið enn.

"Þá verður þú ekki eftir," sagði eg og lagði áherzlu á orðin.

"Nei, eg hefi lofað að koma með eitthvað; það er annars ekki fullráðið enn. Við ætlum að hafa fund á Þorláksdag, og höfum sent boð að Vatni og víðar um sveitina. En, má eg spyrja, hvað gengur á ykkar hlið?"

"Mér þykir leiðinlegt að segja, að eg er hræddur um að okkar hluti verði ver af hendi leystur. Sumir af okkur fundu það vel um daginn, að það hefði verið heppilegra að kjósa nefndina sameiginlega."

"Já, eg held það nú líka; en þú vissir, að Stefán á Vatni áleit sjálfsagt, að karlmennirnir stæðu fyrir samkomunni, og Guðrún var á því líka."

"Ekki er því að neita, að Stefán er ætíð til upplífgunar á samfundum; því fyrir utan hans indæla söng, er hann hinn mesti gleðimaður."

"Satt er það, að Stefán kemur ætíð vel fram, en eg vildi mega segja, að til þess að prógram geti borið það nafn á skemtisamkomu, þarf að koma þar fram ræður og upplestur á skemtilegum smásögum og skrítlum."

"Auðvitað væri það æskilegast, en svo má ekki ætlast til þess af fólki, sem er farið að eldast, og þess utan hefir aldrei vanist samkvæmislífi."

"Eg veit það vel, en svo þarf að lofa unga fólkinu að reyna sig, og heldur hvetja það en letja. Eg býst við að þú leggir einhvern góðan skerf fram á prógraminu?" sagði hún og leit til mín gletnislega.

Eg fékk eins og einhvern ónota í mig við þetta tillit hennar. Samt reyndi eg að átta mig og láta hana ekki sjá að mér brigði, og sagði: "Ekki er það nú ákveðið enn; reyndar hefir mér dottið í hug að koma með einhvern hégóma."

"Við nefndum við séra Pál, að koma á prógramið. Færðist hann reyndar undan og þóttist vera orðinn of aldraður til að taka tilhlíðilegan þátt í skemtunum og skrítlum fyrir unga fólkið. Líka benti hann á það, að aldraða fólkið mætti ekki taka of mikinn tíma frá unga fólkinu við svona tækifæri. Hugsanagangur þess væri oft dálítið á annan veg. Svona lagaðar skemtisamkomur væru aðallega fyrir hina ungu og upp vaxandi

kynslóð, og þyrftu því sem bezt að vera sniðnar við hennar hæfi. Samt mun hann koma með eitthvað."

Þórður gamli, sem altaf hafði setið og hlustað á okkur, gegnir nú fram í og segir: "Já, eg held að það sé sannast, að gamla fólkið hefir lítið til að koma með á prógramm fyrir unga fólkið."

Ingibjörg stendur nú upp og gengur að borðinu til að taka bollapörin og ganga út, í því eg segi: "Þar sem þið segist ætla að halda fund með ykkur á Þorláksdag, myndi það vera á móti ykkar skapi að við karlmennirnir kæmum þangað til að ráða þessu máli til lykta með ykkur, og svo til að tala um dansinn, sem að margir vilja hafa á eftir."

"Nei, alls ekki. Eg fyrir mitt leyti get sagt, að mér er ánægja að hafa ykkur sem mest í ráðum."

Í því stóð eg upp og sagði: "Eg ætla að tala við félaga mína."

Ingibjörg hafði staðið á gólfinu meðan þessi síðustu orð voru töluð. Þórður gamli hafði nú staðið upp líka. Rétti eg Ingibjörgu hendina til að kveðja hana, og bjóst til að ganga út úr stofunni. Varð hún samt fljótari.

Í sama bili bendir Þórður mér að koma nær borðinu, þar sem hann stóð, og sagði: "Ætlar þú ekki að tæma glasið þitt?" Í sama billi tek eg það og drekk það, sem eftir var; því næst rennir hann á glösin aftur, sem við drukkum, og göngum svo út.

Þegar eg var að taka hest minn út og búast til brottreiðar, segir Þórður: "Þú segist ætla sjálfur að nota Mýrar næsta ár, eða var það ekki meiningin?"

"Jú, að einhverju leyti; eg er að hugsa um að

byggja hálfa jörðina, en hafa helminginn sjálfur, og kaupa fæði af þeim sama handa mér og hjúum, sem eg þarf að hafa."

"Ójá, það er nú svo. Þú munt samt reyna að þú þreytist fljótt á því lífi."

"Það er ekki lagt upp fyrir langa tíð; eitt ár til að byrja með."

Ekki varð meira samtalið. Kvaddi eg hann og sté á bak.

## V. KAPÍTULI.

### Samkoman.

Veðrið á gamlársdag leit út fyrir að verða hið indælasta. Um morguninn vaı nokkurt frost, hér um bil 7 til 8 stig á Centigrade, sem minkaði eftir því sem á daginn leið. Loftið var skýrunnið með suðvestan hægum vindi. Við og við sá til sólar, þann stutta tíma, sem bar yfir sjóndeildarhringinn.

Eg held mér sé óhætt að segja, að hvert ungmennishjarta hafi fylst af gleði og fögnuði yfir þessum merkisdegi.

Sannarlegur merkisdagur var nú upp runninn í Staðarsókn og nágrenninu. Ekki aðeins fyrir það, að nú var gamlársdagur, sem ætíð hafði verið einkendur með blysum og eldibröndum, spilum og víndrykkju, logandi ljósum alla hina löngu nótt, því þá voru álfar á kreiki og dönsuðu drjúgum, — heldur fyrir það, að nú átti að halda skemtisamkomu, alveg með nýju fyrirkomulagi, þetta kvöld í þinghúsinu í Holtshreppi.

Þegar kom fram yfir miðjan dag, fór fólkið að

drífa að úr öllum áttum. Það náttúrlega vildi vera komið þangað áður en myrkrið skylli yfir. — Síðan eg kom hingað til lands, hefir mér stundum komið í hug, hvað skamdegisdagurinn er stuttur á Íslandi.

Það var auðséð að fólkið vildi mikið vinna til að koma á þessa samkomu. Mikið fleiri voru gangandi heldur en hinir, sem hesta höfðu; en fólkið var vant við þetta. Það var altítt á þeim árum að sjá fólk, kvenfólk og unglinga, koma að langar leiðar gangandi til að sækja kirkju sína. Má vera að minna kapp sé lagt á þær ferðir nú í seinni tíð.

Þinghúsið í Holtshreppi hefði ekki þótt stór samkomusalur hér í landi; en fólkið hafði ekki haft af betra að segja, og gerði því ekki háar kröfur.

Það kom sér nú mjög vel, sem oftar, að þinghúsið stóð allskamt frá bæjarhúsum. Eftir að dagsbirtan var þrotin og búið var að upplýsa húsið eftir beztu föngum (með olíulömpum og kertaljósum), kom það brátt í ljós, að mannfjöldinn var helzt of mikill fyrir það. Leituðu þá ýmsir til bæjarhúsa, svona í bili. Forstöðunefndin hafði líka verið svo nærgætin og fyrirhyggjusöm, að fá þar stórt skálahús til notkunar. Var þar allskyns góðgæti að fá, svo sem: súkkulaði, kaffi og ýmsar tegundir af brauði.

Ekki munu samt þeir, er þar réðu mestu, hafa haft vín á boðgangi, en sumir gátu þess þó til, að smápitlur eða kannske flöskur hefðu slæðst með í förina, og þá máske dreypt á þeim við og við utan veggja í myrkrinu. Nokkuð var það, að sumar stúlkurnar höfðu orð á því, að vínþefur væri um þinghúsið.

Eg verð að geta þess hér fyrst, að dálítill ágrein-

ingur varð um það, hver skyldi taka forsetastöðuna. Var það eiginlega á milli tveggja manna, prestsins og Stefáns á Vatni. Vildi Stefán að prestur setti hana, en prestur benti honum aftur á, að þar sem að hann væri á prógrammi, ætti ekki eins vel við að hann tæki forsetastöðuna. Og eins hitt, þar sem Stefán væri forvígismaður sveitarinnar, væri hann eins og sjálfkjörinn forseti. Varð það að lyktum, að Stefán setti samkomuna. Hafði hann prógrammið greinilega skrifað og sett niður eftir reglum.

Fyrst var byrjað á að syngja þjóðsönginn, sem allir Íslendingar kunna og elska: "Eldgamla Ísafold o. s. frv."

Af því Stefán á Vatni var bezti söngmaðurinn í bygðinni, varð hann oft að víkja úr forsetasætinu til að prýða söngflokkinn.

Séra Páll var hinn fyrsti, sem kallaður var upp á ræðupallinn. Flutti hann mjög lipra og skemtilega tölu. Brá þar fyrir skrítlum og fyndni. Meðal annars fór hann nokkrum vel völdum orðum um það, hvað hugsunarháttur þjóðarinnar væri nú farinn að stefna til hærri menningar frá því, sem áður hefði verið, og í sambandi við það dró hann fram gömlu álfatrúna.

Nú er gamlárskvöld, fardagur álfanna; þá voru þeir að flytja sig úr einum hólnum, úr einum klettinum í annan; og svo álfadansinn. Brá þar fyrir ýmsri smáfyndni, þó hann væri farinn að eldast. Sömuleiðis mintist hann á þessa samkomu, hvaða þýðingu hún hefði. Hún lýsti ótvírætt breyttum hugsunarhætti. Samkoma í þessari mynd væri alveg nýung í sveitinni. Þakkaði hann það aukinni mentun og vaxandi skólum.

Næst prestinum var ungfrú Margrét dóttir hans kölluð upp.

Las hún mjög vel og greinilega skemtilega smásögu, sem hún hafði þýtt.

Þriðja persónan var Þórunn systir hennar. Las hún einnig upp fallegt kvæði, mjög skýrt og greinilega. Á eftir fór hún nokkrum orðum um það, og tók upp aftur fáeinar hendingar; skýrði hún mjög vel efni kvæðisins, og eins hvaða hugsjónir hefðu vakað fyrir skáldinu, þegar hann orti það.

Fjórða persónan var Ingibjörg Kristjánsdóttir. Þegar hún kom upp á ræðupallinn og sneri sér fram að fólkinu, var eins og eitthvert hik kæmi á hana fyrst, en hún sýndist ná sér fljótt og brá þá fyrir eins og fjörglampa í augunum. Kom hún með alveg nýtt efni, auðvitað frumsamið. Gekk það aðallega út á að sýna, hvað kvenkynið væri álitið að standa langt fyrir neðan karlkynið. Þessu til stuðnings kom hún með ýmisleg dæmi, sem ómögulegt var að hrekja. Eg segi fyrir mig, að mér hāfði aldrei komið neitt slíkt til hugar. Yfirleitt var erindið heldur alvarlegt en gagnort.

Nú fór mér ekki að verða um sel; vissi hvað á eftir mundi koma, og fann að eg var ekki nógu val útbúinn á þenna vígvöll. Orð Ingibjargar ómuðu í eyrum mér, þar sem hún sagði, "að karlmennirnir yfirleitt álitu að konurnar væru ekki gæddar eins miklum gáfum eins og þeir.."

Hvernig heldur þú, vinur minn, að mér hafi verið innan brjósts, þar sem hún gæti nú strax sýnt og sannað að þetta væri alveg gagnstætt. "Jæja, það dugði ekki að hætta við þegar á hólminn var komið; jafnvel

þó eg kviði svo mjög fyrir dóminum, sem á eftir kæmi.

Þegar söngflokkuruinn hafði endað sinn part — hann söng altaf á milli prógrammshluta, var eg kallaður upp á pallinn. Staður, sem eg hafði aldrei komið á fyrri, reyndar voru allir þar viðvaningar nema presturinn.

Eg skal segja þér, vinur, að eg tók nú á öllu, sem eg hafði, til að hleypa í mig hugrekki. Þó að flýgi í gegnum huga minn: "Þetta verður ógæfusporið þitt," dugði ekki að gefast upp. Nei, verra! verra!

Svo komst eg fram á ræðupallinn, og hafði náð saman öllu því hugrekki, sem eg átti til í eigu minni.

Erindi það, sem eg hafði hugsað og skrifað upp á blað, var ekki langt. Eg hélt á blaðinu, þorði ekki annað; en til allrar hamingju þurfti eg aldrei að líta á það.

Af því eg hefi getið um efnið í því, sem hinir fluttu, vil eg geta þessa líka. Það var um breyttan búnað. Sveitungar mínir sögðu á eftir, að eg hefði flutt búnaðarræðu. —

Þegar fólkið hafði fengið sér góða hressingu — sumir höfðu alt af annan fótinn í skálanum — fór unga fólkið að búa sig undir dansinn. Kunnátta í þeirri grein var ekki almenn þar í sveitinni. Nokkrir kunnu all-vel, aftur aðrir aðeins sporið. Hér var ekkert kunnáttupróf tekið, allir velkomnir, sem vildu gefa sig fram.

Eg var svo heppinn að vera bezti dansarinn úr mínum hópi. Lærði eg dans af Christensen timburmeistara, sem líka var meistari í þeirri list. Notaði eg nú list mína, og tók hverja stúlkuna af annari fram á gólfið. Ekki er mér ljóst, hvort að félagar mínir hafa

öfundað mig, en gjarnan mundu þeir hafa óskað að vera jafnokar mínir. Eg dansaði við Ingibjörgu, Sigríði og ýmsar hinar yngri stúlkur, sem ekkert kunnu í dansi. Bar eg þær nú á örmum mínum, og jafnframt kendi þeim alt hvað eg gat. Svona leið áfram nóttin og endirinn varð sá, að enginn mundi aðra eins nýársnótt í sögu sveitarinnar.

## VI. KAPITULI.

### Hugarstríð.

Það var eitt kvöld, nokkru eftir þetta, að eg ligg enn vakandi í rekkju minni. Hvort það var af hugsun í byrjun, veit eg ekki. En þegar alt var komið í kyrð, fór eg að hugsa um alvarleg málefni; alvarlegt málefni fanst mér það ætíð vera.

Ingibjörg kom fyrst, Sigríður svo, þar næst dætur prestsins, Margrét og Þórunn. Nei, ekki gat eg hugsað til þess að fara að leita þar á; þær voru að mentast á kvennaskólanum, kanske hugsuðu um alt annað en bændastöðuna. — Engin tilfinning í þá átt.

Sigríður á Vatni. — Já, það mál mundi auðsótt. Hún er efnileg stúlka. Hraustleg útlits. Af góðu fólki komin. Vanin við reglusemi og iðni. — Hún hlýtur að reynast vel í húsmóðurstöðunni sem bóndakona. — Lundin hlýtur að vera góð, hún er ætíð hýr og brosandi. Ekki langt að sækja það, Stefán mesti geðprýðismaður. Auðunnið mundi fyrir mig að vekja ást hjá henni; já, heita og hreina ást. Og hvað er dýrmætara?

Ingibjörg! Ekki gat eg varist þess að hún var

meiri persóna í mínum augum. Sjálfstæðar skoðanir, einbeittur vilji. Ef það góða næst, er það gimsteinn, verðmætur gimsteinn.

Nokkurnveginn þóttist eg viss um það, að hjarta og tilfinningar Ingibjargar væru að öllu leyti óháðar; Engin utan að áhrif hefðu snortið þær. En svo var líka með Sigríði.

Spurning: Yrðir þú farsæll með Sigríði, þegar fram liðu stundir? Góð og eftirlát, þrifin og reglusöm. — Ó, hennar sjóndeildarhringur! Sá sami og móður hennar; ömmu hennar, — alt í sama formi. — Ó, það er bágt þegar unglingarnir fá enga menningu.— Alt helzt óbreytt í sama ófullkomleikanum.

Konurnar kunna ekki að bera á borð, ef að mann ber að húsum, sem skyn ber á slíkt. Þær kunna ekki að laga neina flík svo, að nokkur mynd sé á. — Sama, sama öld eftir öld.

Því næst varð eg eins og hrifinn af einhverjum vandlætingarmóð yfir þjóð minni. Eg svitnaði í rekkjunni og fanst mér líða illa. Alt varð eins og í einni bendu í huga mér; það var svo margt og margbreytilegt. Mér sýndist ásigkomulagið voðalegt. Engin úrlausn, alt stóð fast.

Eg fór að reyna að dreifa þessum hugsunum; mér leið svo illa. Svitinn og óhægðin óx æ meir. Loksins stökk eg á nærfötunum fram úr rekkjunni og gekk út í miðsvetrar næturloftið til að kæla mig.

Von bráðar hvarf eg inn aftur og lagðist í rekkju mína. Víst litlu síðar hafði hinn farsæli svefn tekið alt hugarstríð mitt á burtu.

## VII. KAPÍTULI.

### Brúðkaupsdagur og brúðkaupsklæði.

Hjá Jóni bróður mínum komst eg að því, að allir í sveitinni þóttust vita að eg ætlaði að fara að búa á Mýrum næsta vor. En hver væri konuefnið, var nokkuð, sem að öllum kom ekki saman um.

Hvort það var af því, að eg vildi gjöra fólkinu til þægðar og burtu nema alla óvissu þess, og jafnframt seðja forvitnislöngunina, eða af öðrum ástæðum; leið nú ekki á löngu þar til fólkið var orðið ánægt.

Tuttugasti og fjórði dagur júní 1874 var nú upp runninn. Já, meira að segja, blessuð morgunsólin hafði nú þegar uppljómað alla himinhvelfinguna, eins langt og sjóndeildarhringurinn náði yfir að Grund. Og hinir gegnumsmjúgandi geislar höfðu nú þrengt sér í gegnum hvern smáglugga; ekki einungis það, heldur í gegnum hverja einustu holu og smárifu á bæjarhúsunum.

Eg stökk fram úr rekkjunni, sem var í litlu svefnherbergi innar af stofunni, til að líta á klukkuna, sem blasti beint á móti aðal stofudyrunum. Hún var þá ekki orðin fult sex.

Nú var annar merkisdagur, gleðidagur — að minsta kosti fyrir suma — að renna upp yfir bygðinni. Gamla árið hafði kvatt með gleði og nýja árið heilsað með gleði og nýrri skemtun. Það var sjálfsagt góðs viti. Talsvert var nú útlitið breytt frá því sem áður var; ekki einungis með því að foldin hafði nú algerlega skift um klæði. Í staðinn fyrir hvíta kirtilinn var kominn fagurgrænn; heldur líka að fólkið, sem

vildi nú nota og njóta gleðinautnar, í félagslífinu, sem því nú bauðst, hafði nú þurrar og hreinlegar götur að rekja leið sína eftir. Og ekki einungis það, heldur sást nú enginn gangandi; allir voru ríðandi. Konurnar prúðbúnar í skreyttum söðlum, og karlmenn í mjúkum og haglega gerðum hnökkum, sitjandi á indælum og fótliprum hestum..

Það átti að gefa okkur Ingibjörgu saman í hjónaband í kirkjunni á Grund þá um daginn. Með því að margir boðsgestir, og þar á meðal presturinn með fjölskyldu sína, höfðu nokkuð langan veg að sækja, var ákveðið að athöfnin færi fram eftir miðjan dag. Þegar að þeim tíma kom, að boðsgestirnir væru væntanlegir, fór eg að búast til að taka á mig brúðkaupsklæði þau, sem eg ætlaði að bera um daginn. Ingibjörg hafði lagt þau á lítið borð, sem stóð í svefnherberginu. Hún og kona sú, sem var henni til aðstoðar, höfðu herbergi á baðstofulofti.

Þessi áminstu klæði hafði Ingibjörg saumað um vorið. Strax og fyrstu skip komu, fórum við í kaupstaðinn og völdum hið bezta efni, sem kostur var á.

Þegar eg var klæddur og búinn að laga hálslínið og annað, sem bezt eg gat, gekk eg að stórum spegli, sem þar var í stofunni og fór að skoða mig í krók og kring; snúa mér á alla vegi fyrir honum; og þér satt að segja, þegar eg hafði nægilega séð hvernig klæði þessi fóru, var eg alls ekki ánægður. Eg bjóst við að þau klæddu betur. Að minsta kosti eins vel og gömlu sunnudagafötin mín. Efnið var mikið betra.

Eg varð að vera í fötunum um daginn, þau voru þó ný og fín. Og svo treysti eg því, að augu boðs-

gestanna væru ekki sem skarpskygnust á, þó að klæði féllu ekki allstaðar sem sléttast að holdi.

Þessu næst gekk eg út á hlaðið að skygnast eftir, hvort ekkert sæist til mannreiða í nánd. Jú, nokkrir komu ofan með Gilljá; og svo sá eg eins og fjölmenni koma eftir veginum norðan úr Staðarsókn. Veit eg þá að ekki muni langt að bíða, þar til fjölment muni þar á Grund. Geng eg nú inn í stofuna aftur, til að bíða boðsgesta. Þar stend eg á stofugólfinu og hafði hallað hurðinni aftur á eftir mér; verður mér enn að líta í spegilinn. — Eins og fyrri, mér fanst að fötin fara svo leiðinlega illa.

Eg fer úr treyjunni og vestinu, og fór í þau aftur sem laglegast, ef ske kynni að þau klæddu eitthvað betur; en alt fór á sömu leið. Eg gat ekki verið á-nægður með það. Auðvitað hafði eg komið í þau fyr, en þá hafði eg annríki að gegna, og gerði það því flýtislega, enda máske þá í þykkri fötum undir.

Þar sem eg stóð nú þarna í stofunni — eitthvað svo óánægður. — Hvílík voða hugsun var það, sem gagntók huga minn: "Svona fer hjúskaparlífið þitt, það verður ekki altaf slétt og fagurt."

Mér varð eitthvað svo bilt við þessa hugsun, að eg vildi reka hana sem fyrst í burtu. Stökk því út á hlað og beið þar gestanna. Það vildi líka svo vel til, að Þórður var þar kominn, því hann hafði líka séð mannreiðina.

Hér um bil klukkan þrjú eftir hádegi voru flestir boðsgestirnir komnir; fáir munu hafa setið heima, sem boðnir voru. Dagurinn hepnaðist líka vel. Veðrið

hið indælasta og vegir þurrir. Um 80 manns var talið að hefðu setið að snæðing þar um kvöldið. Og eins og þú manst, þótti það fjölment samsæti til sveita á þeirri tíð.

"Já, eg man að eg frétti það, að fjölment hefði verið við giftingu ykkar Ingibjargar. Þú hefðir máske boðið mér, hefði eg verið þar?" "Já, það hefði eg gert."

"Eg mátti margs sakna eftir að eg flutti þarna norður á Skagann. Mér fanst eg ætíð vera eins og út úr öllu mannfélagi þar. Það var auðvitað ætasamt, en svo voru líka margir ókostirnir. En sleppum nú því, það er alt liðið og gleymt. Haltu áfram með sögu þína, eg hefi forvitni á að heyra hana og veit, að þú hermir rétt frá öllu."

"Jæja, eg hefi lofað þér því, og ætla að reyna að efna það.

Eins og áður er áminst, var Ingibjörg í herbergi sínu uppi á loftinu ásamt stúlku þeirri, sem hún hafði sér til aðstoðar. Sömuleiðis höfðu nú gengið þangað maddama Halldóra á Stað og dætur hennar. Víxluvottar eða "forlofar", sem stundum var kallað, voru Jón bróðir minn og ungfrú Margrét á Stað.

Þessu næst er brúðurinni og hennar hjálparkonum gert aðvart að alt sé undir búið að hefja göngu til kirkjunnar.

Svo að alt færi nú í góðu lagi, voru vissir menn tilnefndir að raða fólki í "prósessíu", sem hefjast átti frá bæjarhúsadyrunum út í kirkjuna.

Sumir höfðu orð á því síðar, að brúðurin hefði litið fagurlega út í brúðarskartinu. Var kjóllinn saum-

aður á Stað og höfðu þær mæðgur hjálpað Ingibjörgu til með hann. Auk þess var hún skreytt fögrum blómum og skrautlegri festi um hálsinn.

Engin blóm bar eg í klæðum mínum.

Um vígsluathöfnina er ekki mikið að segja; hún fór fram eftir þeim reglum, sem fyrirskipað er í kirkjubókinni. Samsætið var hið myndarlegasta um kvöldið — ekki þurfti að þakka mér það; eg lagði að vísu dálítið til — heldur Þórði gamla; hann sparaði ekkert til þess að það yrði sem veglegast. Hann unni Ingibjörgu eins og hans eigið barn væri, og sömuleiðis hafði góðan þokka til mín.

Eg fann á honum, að hann áleit þetta samband væri forsjálega stofnað og hlyti að bera blessun í framtíðinni. Eg vonaði það og líka, því mér fanst alt útlit og kringumstæður benda á það.

En hégómaskapurinn og tilfinningar mannsins fá stundum of mikið vald yfir honum. Þessi voða hugsun, sem flaug í gegnum huga minn um morguninn, var við og við að gera vart við sig. Auðvitað rak eg hana altaf til baka, því eg vissi að það var hégómi. Þó mér findist að þetta hefði mishepnast, sem kanske ekki var, þá þurftu engar óheppilegar afleiðingar að fylgja á eftir.

## VIII. KAPÍTULI.

### Barnið skírt.

Tuttugasta og sjöunda september 1875 var einn af þessum blíðu og kyrlátu dögum, sem frændurnir á Fróni fá dálítinn smekk af á haustin, en því miður oft í alt of litlum mæli.

Eins og vanalega viðgekkst um þann tíma árs, var geldfé heimt af fjöllum, og heyjum öllum í garð safnað. Sumarið hafði reynst mjög hagstætt og heyfengur mjög góður. Það er uppskera Íslendinga.

Þegar menn finnast í þessu landi á haustin og fyrri hluta vetrar, er fyrsta spurningin: Hvernig reyndist uppskeran?

Eg átti von á gestum þannan dag, og var því laus við vinnu mína, sem sjaldan kom þó fyrir, þar sem eg hafði svo mikla vinnu fram undan mér fyrstu árin á Mýrum. Það var líka talsvert mikið, sem mér hafði auðnast að koma í verk á þessum þrem missirum.

Eg hafði rifið niður allan bæinn, því að enginn kofi var stæðilegur, og bygði aftur í staðinn eitt hús með tveimur torfveggjum og timburgöflum, sem voru þrefaldir og stoppað í milli. Alt var húsið þiljað í sundur í svefnherbergi uppi á lofti, en stofa, eldhús og geymsluklefi niðri. Líka keypti eg stóra matreiðslustó, sem hitaði húsið vel upp. — Sömuleiðis hafði eg dálítið lagað peningshús. Túninu hafði eg lítið getað sint ennþá; fékk menn mánaðartíma við sléttun.

Gestirnir, sem eg átti von á, voru: fyrst presturinn og nokkrir góðkunningjar okkar; nú átti að skíra barn, sem okkur hafði fæðst; það var meybarn. Móðirin var komin á fætur, og hafði heilsast vel. Nokkrir vinir okkar komu þar saman um daginn. Barnið var vatni ausið og nefnt Sigríður, eftir móður minni. Fram að þessum tíma get eg sagt, að lánið hafi leikið við mig að mörgu leyti.

Nú þarf eg ekki að segja þér meira af lífsatriðum

mínum fyrir austan hafið, þar sem þú fluttir inn í bygðina næsta vor og vissir glögt um endalokin."

## IX. KAPITULI.

### Orsök og afleiðingar.

"Eins kunnugt var mér og nokkrum öðrum vandalausum um hagi þína síðustu árin á Fróni. En aftur, satt að segja, var mér það ætíð hulin ráðgáta, þ. e. orsakirnar. Þar sem að allir álitu, og það að verðleikum, að þið hvort um sig væruð með líklegustu félagslimum sveitarinnar, og samkvæmt því sýndist svo mikið jafnræði með ykkur, varð öllum því óskiljanlegra hvað sambúðin reyndist ófarsæl."

Ef við (mennirnir) hirtum um að athuga afleiðingar, sem geta leitt af ógrunduðum orsökum, mundum við stíga færri gönusporin.

Það gengur svona stundum fyrir okkur mönnunum, að við rekum okkur á að við erum helzt til of skamsýnir. Eg neita því ekki, að eg gerði mér vonir um að verða farsæll með Ingibjörgu. Það er samt langt frá því, að eg kenni henni það, heldur sjálfum mér. Eg sá það bezt löngu síðar."

"Það er reyndar alt of mikið af mér að mælast til þess; en talsvert langar mig til þess að vita hvaðan þessi meinsemd var runnin."

"Má vel vera, en héðan af er mér það ekkert leyndarmál. "Til þess eru vond dæmi að varast þau.' En þér að segja, hefi eg betur getað útskýrt það í huga mínum, heldur en eg get með orðum. Ekki það, að eg sé búinn að gleyma því úr meðvitundinni, heldur

hitt, að eg get ekki fundið orð til að lýsa því, svo að enginn misskilningur komist inn. Ef eg á að verða við þessum tilmælum þínum, verð eg að byrja snemma. Byrja þar sem eg fór að biðla til Ingibjargar.

Fyrsta svar, sem eg fékk, þegar eg opnaði hjarta mitt fyrir henni, var, að hún barði við bernsku sinni.

Furðanlega einurðargóð og ófeimin sagði hún: "Eg er alls ekkert farin að hugsa um þess háttar. Eg veit það mjög vel, að eg er enn of ung og óundirbúin fyrir svo vandasama stöðu."

Eg tjáði henni með orðum, sem runnin voru frá hreinum tilfinningum: "Eg er þér samdóma um það, að þetta spor leiðir til ábyrgðarfullrar stöðu á lífsleið vorri; en aftur er, sem maður veit, að þetta spor verður ekki yfirstígið, er undandráttur þýðingarlaus, þegar tilefni og tækifæri bjóðast. Og því að eins hefi eg farið þessa á leit við þig, að eg er sannfærður um, að þú ert orðin vel þroskuð og með sjálfstæðar skoðanir. En hjarta þitt vildi eg vinna, og gef þér mitt hreint og óskift í staðinn."

Hún þagði litla stund, og sagði síðan: "Mér þykir mjög leiðinlegt að þú skyldir fara þessa á leit við mig. Eg játa það fúslega, að eg hefi, eins og fleiri, mikið og gott álit á þér, og teldi mig vel gifta, sem það snertir. En jafnframt finn eg mig knúða til að opinbera þér það, sem liggur sem mara á hjarta mínu, og sem eg hugsa mest um að lyfta á burtu. Eg vil losna héðan frá Grund og vonast eftir að geta það næsta vor. Fóstri minn er orðinn þreyttur og þarf hvíldar með; vonast eg því eftir að geta komið því til leiðar, að Guðmundur í Gröf taki jörðina, og fóstri

minn hafi kanske einhvern part af henni. Ekki mun hann kunna við að láta alt úr höndum sér. Eg vona, að þú misvirðir ekki við mig, og því síður leggir þykkju á mig, þó að þessi ósk þín geti ekki náð fram að ganga, sem að kemur svona í bága við áform mín."

"Þú ætlar þá að fara að ganga á kvennaskólann aftur?"

"Ekki á E."

"Kanske þú ætlir til Reykjavíkur?"

"Ekki finn eg mikla löngun til að komast inn í Reykjavíkurlífið; en kvennaskólinn þar er mikið fullkomnari heldur en sá, sem við höfum hér."

Eg játaði því og sagði: "Það mun þá vera úttalað um þetta mál að sinni," og lagði áherzlu á síðustu orðin. Tók því næst í hönd henni og gekk út úr stofunni.

Svona var byrjunin og getur þú gizkað á, að mér hafi ekki fallið hún vel. Alls enga þykkju lagði eg samt á Ingibjörgu. Virti hana fult svo mikið eftir sem áður. Fann að talsverður "karakter" stóð þar á bakvið.

Þetta skeði nálægt miðjum vetri. Leið nú nokkur tími fram og lét eg ekkert á neinu bera, aðeins vakti yfir því hvernig skipast mundi til á Grund með vorinu.

Enda leið ekki mjög langur tími, þar til eg fékk grun um það, að Þórður gamli mundi hafa komist að málaleitunum mínum við Ingibjörgu. Gekk hann á hana að segja sér alt, sem fram hefði farið. Mun hún hafa fundið að gamla manninum mislíkaði stórum. Og eins hitt, að hún hafði ekki ráð hans í hendi sér.

Sá hún þá gjörla að hún treystist ekki að biðja

hann um fjárstyrk til mentunar, og því síður mundi hann bjóða henni hann.

Eftir marg ítrekaða yfirvegun vildi eg freista til í annað sinn, og vita hvort hugur hennar væri enn hinn sami.

Þegar við fórum að tala saman í þetta sinn, byrjaði eg eitthvað á þessa leið: "Jafnvel þó að karlmenn geti ekki komist inn í tilfinningar konunnar, geta þeir samt stundum komist nokkuð nálægt þeim. Þar sem að hugur þinn hafði beinst í gagnstæða átt, var eðlilegt að þú gætir ekki breytt tilfinningum þínum svona fljótlega. En svo við nákvæmari yfirvegun má vera að þær taki breytingum."

"Er þér enn full alvara að halda þessu máli áfram?" spurði hún.

"Já, engu síður."

"Eg var óviðbúinn málaleitun þinni, eg vildi alls ekkert hugsa um þess háttar. En svo reka sumir sig á það, að þeir geta aldrei verið sjálfstæðir, og verða því að lúta vilja annara."

Þegar hún hafði slept síðasta orðinu, þagnaði hún og horfði á mig rannsakandi augum. Eftir litla stund segir hún: "Hvernig getur þú byrjað þetta líf elskulaust?"

Eg tók um hönd hennar, sem eg hélt kyrri, og sagði: "Eg hefi fram boðið þér hjarta mitt hreint og ósaurgað af öllum kvenlegum áhrifum, og í staðinn óskað eftir þínu."

Þó að byrjunin væri þannig, að hún gekk út í hjúskaparlífið meira fyrir aðþrengjandi kringumstæður,



heldur en af frjálsum vilja og ástarþrá, hefði það getað farið vel, hefði eg kunnað rétt með að fara.

Þetta sá eg alt löngu síðar.

Eg fleygði mér sjálfum með önd og líkama út í búsýslu og vinnustrit á Mýrum. Mér fanst þar vera svo ákaflega mikið að gera. Já, nærri því eins mikið og hér í nýbygðunum. Altaf sá eg svo mikið verkefni framundan. Eg hlífði ekki sjálfum mér — þvert á móti; og jafnvel þó að eg hefði gott lag á vinnuhjúum mínum, fann eg það tíðum að þeim þótti nóg um vinnuna. Ingibjörg fór líka alls ekki varhluta af því, hún fékk oft litla hjálp við hússtörf sín, sem stundum voru mikil, því eg hafði þá marga verkamenn. Mun það hafa þvingað hana talsvert, að hafa svo sáralítinn tíma til bóklesturs, sem hugur hennar hneigðist svo mjög að.

Þó mun önnur meinsemd í lífi okkar hafa grafið ver um sig.

Eg mun hafa látið hana skilja á mér, svona við tilfelli, þó eg færi hægt að því, að eg ætlaðist til meira af henni, sem hefði gengið á kvennaskóla, heldur en hinum, sem ekkert hefði verið kent. Að vísu kunni hún meiri menningarsiði, ef á þurfti að halda, en þess utan sást enginn mismunur. Eg gætti þess ekki, að hún var ung, og hugur hennar stefndi að margbrotnu lífsmarki.

Í sambandi við þetta vil eg segja þér frá tilfelli, er kom fyrir fyrsta árið, sem við vorum saman.

Um haustið var það, að við hjónin ætluðum að fara til Staðarkirkju. Ingibjörg hafði haft orð á því, að sig langaði til að sjá mæðgurnar þar. Það var svo

sem sjálfsagt að gera það á sunnudag, og vera þá við kirkju um leið. Mér var þetta ekkert á móti skapi, því eg gat þó séð móður mína, sem eg unni mjög, á leiðinni heim aftur.

Þennan sunnudagsmorgun, þegar eg kom inn, og ætlaði að hafa fataskifti í svefnherbergi okkar, — það var enn í sama horfinu; aðeins hafði eg sett þar stærri glugga og lítið eitt lagað til bráðabirgða. Sá eg að hún hafði lagt brúðkaupsklæðin á lítið borð, sem stóð þar og segir: "Ætlar þú ekki að vera í nýju fötunum í dag?"

"Ekki hafði eg neitt hugsað um það; eg held að sunnudagafötin mín séu eins góð til Staðar- eins og Grundarkirkju." Eg hafði ekki séð fötin síðan eg fór úr þeim giftingarkvöldið.

"Til hvers ætlar þú að geyma þessi föt, eða dettur þér í hug að þú þurfir oft að sitja á brúðhjónabekknum?" sagði hún og hló dálítið gletnislega.

"Nei, eg vona að það komi ekki fyrir," sagði eg nokkuð alvarlega.

"Sunnudagafötin þín eru farin að firnast; mér sýnist þú ættir að brúka hin í dag, það lítur út fyrir gott veður."

"Má vel vera, en þau klæða mig þó ætíð vel. Föt, sem illa klæða eru ætíð leiðinleg, hvað gott sem efnið er."

Ingibjörg vissi að gömlu fötin voru búin til af konu þar í sveitinni. Hana setti dreyr rauða, og gekk hún í burtu. Þegar hún var gengin fram úr herberginu, fór eg að hugsa um, að eg hefði ógætilega talað. Eftir nokkra stund fór eg að skygnast eftir hvar hún

væri; fann eg hana þá frammi í skálahúsi. Ekki gat eg fengið hana til að koma upp og búast til kirkjuferðar, svo það fórst fyrir með öllu.

Samt var eg ekki heima um daginn, heldur fór að sjá móður mína, og hafði brúðkaupsfötin með mér. Sökti eg þeim í dý, sem eg vissi af nálægt leið minni. Þetta mun hafa verið dýpsta rótin, smá angar safnast þar utan að, og á endanum brauzt út sem ólæknandi sár.

## X. KAPÍTULI.

### Sigurður fer af landi burt.

"Endurminningin er svo glögg".

Þegar hér var komið sögunni, var eg 27 ára gamall, í blóma lífsins, þegar fjör og líkamsþrek hafði náð hámarki sínu. En ógæfa var fallin yfir mig. Einhverjar huldar örlaganornir höfðu gripið mig heljartökum. Eg var orðin Grettir annar. Vel mundi eg að forfeður vorir urðu stundum að fara utan, þegar einhver óhappasnurða rann á bandið, sem halda skyldi saman félagsheildinni. Mörgum varð þetta að góðu einu; þeir komu til baka aftur með sæmd og fé og bjarta lífsskoðun. En mæðumaðurinn Grettir; alt snerist æ því ver, sem lengra var stígið.

Engar glæsilegar vonir eða framsóknarþrár knúðu mig nú áfram til að leita gæfunnar í fjarlægu landi, fjarlægum heimkynnum frá feðrafoldu. Nei, alls ekki það. Eg var dæmdur útlagi. Eg var Grettir annar. Allir fyrirburðir og vitranir í draumalandi vonarinnar reyndust nú tál og missýning ein. Endurminning r

voru enn opnar fyrir stað og stundu, þegar eg ásamt félögum mínum og sveitungum var að ræða þau spursmál, sem vér létum oss svo miklu varða. Vel mundi eg það, að eg fann engan, sem var á sömu skoðun og eg, til dæmis: Afturhaldsmenn vildu halda sem fastast við hið forna; þær búnaðarreglur, sem ætíð hefðu reynst beztar og farsælastar í misæri á öllum öldum. Að sönnu vildu þeir taka upp ýmsar umbætur, að svo miklu leyti sem það var ekki efnahag einstaklingsins ofvaxið; til dæmis: bæta híbýli manna, og túnasléttun, þó alt í sama sniði og áður hafði viðgengist. Aftur var annar flokkur, sem að lagði svo mikla áherzlu á skóla og alþýðumentun; og rökstuddi það með ýmsum ritum, sem hinn lærði flokkur hafði þýtt úr öðrum tungumálum, sem að sýndu svo ljóslega framfarir hjá þeirri þjóð af aukinni alþýðumentun. Að vísu gátu þeir ekki vel gert sér grein fyrir því, hvernig þessi hjálparmeðul verkuðu á þjóðina til framfara og hagsældar. Þegar afturhaldsmenn bentu þeim á þennan eða hinn búfræðinginn, sem að kostaður hefði verið af fé landsins og numið alla búfræði í þessum löndum, en kendi þó fátt hér heima, sem að góðu haldi kæmi. Þrátt fyrir þetta höfðu hinir ótrauða trú á skólunum. Þeir hlytu að verða Íslendingum til góðs eins og öðrum þjóðum. Meira að segja, þeir hlytu að verða hjálparmeðal þjóðinni og endurfæðing til annars og betra lífs hér heima á feðrafoldinni.

Svo kom þriðji flokkurinn, sem var alveg á gagnstæðri skoðun. Áleit hann allra hluta vegna óverandi á Íslandi. Taldi hann það hið mesta hjálparmeðal, sem hinni íslenzku þjóð hefði hlotnast, þegar henni

opnaðist leiðin til Norður-Ameríku. Vanalega töldu þeir upp margt máli sínu til stuðnings, sve sem óhagstæða veðráttu: vetrartíð þegar sumarið átti að fara að endurreisa lífið aflvana úr vetrardrómanum. Og svo bættu þeir ætíð við: Þó að eitthvað væri hægt að reita af landi eða sjó, er það alt etið upp af höfðingjunum.

Hvernig sem á því stóð, gat eg ekki fylgt neinum af þessum flokkum í öllum atriðum. Eg gat ekki fylgt afturhaldsflokknum í öllum greinum; mér fanst við þyrftum að breyta eitthvað til; en jafnframt var eg í vandræðum með að finna, hverjar breytingar væru heppilegastar til að byrja með.

Ekki gat eg heldur náð þeim trúarstyrk, sem að formælendur skólanna höfðu. Að vísu fann eg vel, að við þyrftum fleiri skóla heldur en enn hafði verið. Einn lærður skóli og prestaskóli var alls ekki nóg. Kvennaskólar voru í mínum augum lífsnauðsynlegir; enda voru þeir að komast á. Sömuleiðis þurftum við mentastofnanir fyrir alþýðumenn. En hvernig þær ættu að vera, svo kæmu að góðum notum, var spursmál, sem eg var alt af að velta fyrir mér. Það var, að vísu kominn upp skóli á Möðruvöllum í Hörgárdal, en engin reynd komin, því hann var svo ungur. Nafnið var ljómandi fallegt: "Gagnfræðaskóli". Já, það var einmitt skólinn, sem við alþýðumennirnir þurftum með; skóli, sem yrði okkur bændum að góðu gagni. Bæði var það, að eg var ekki hneigður til bóknáms, en aftur hins vegar hneigður til smíða og vildi læra þá iðn, að eg fór ekki á skóla þannan.

Þegar eg dreg alt saman, sem á þeim tímum var

að brjótast um í heila mínum, kemst eg að þeirri niðurstöðu, að hinar uppvaxandi og óbornu konur, þurfi að fá skóla, sem kendu þeim allan verklegan starfa innan þeirra verkahrings.

Við bændurnir þurfum að fá skóla, sem kenna okkur að hafa sem mestan arð af kvikfénaði okkar, og um fram alt að kenna okkur að yrkja landið, svo að við fáum okkar lífsframfæri þaðan.

Gagntekinn af þessum hugsjónum og framsóknarþrá, byrjaði eg búnaðinn á Mýrum. Hvernig fór? Alt varð tál og vonbrigði. Framsóknarþráin eyðilögð, sjálfstæðismeðvitundin lömuð.

Nú fyrst fanst mér eins og hugfró í að geta fetað blindan forlagaferil til fjarlægra og ókunnugra bústaða. Alt, sem eg unni mest, var nú að baki mér — horfið.

Móðir mín, sem eg unni mjög, var dáin; og nafnið hennar, sú eina sál í veröldinni, sem eg fann að eg elskaði, var hrifin á burtu frá mér. Svo langt í burtu, að eg gat aldrei séð hana framar. Systkini mín og nokkrir sveitarbúar, voru vinir mínir; var það sú eina hugfró, sem eg gat fundið, vonin um að hafa bréfaskifti við þá handan úr landinu ókunna.



# Annar Katli

## I. KAPÍTULI.

### Fyrsta lífsreynsla í ókunnu landi.

Áður en eg fór alfarinn af landi burt, gerði eg þær ráðstafanir, að Jón bróðir minn innheimti allar úti standandi skuldir, bæði fyrir uppboðið og annað, og legði það fé á vöxtu, og var það talsvert mikið. Að undan teknu farbréfi fór eg með eins og hundrað krónur í peningum.

Ekki var mér kunnugt um það, hvað margir fóru til Ameríku það ár (1878). Í þeim hópi, sem eg fór með, var aðeins ein fjölskylda með börnum, og nokkrir lausir menn, hvar á meðal var einn landi, sem gat dálítið bjargað sér í ensku máli, að hann sagði okkur. Milli Íslands og Skotlands höfðum við hjálp af dönskum manni, sem var á skipinu. Aftur yfir Atlantshafið höfðum við þörf fyrir hjálp frá landanum, en þá rákum við okkur jafnframt á það, að hann var lítið kominn áleiðis í ensku máli, hafði aðeins komist eitthvað niður í að lesa það á bókina. Að vísu gátu skipsmenn oft ráðið í, hvað hann meinti, en hann gat aldrei skilið þá.

Jæja, við komumst alla leið til Torontoborgar í Ontaríófylki. Þangað fylgdust við öll (Íslendingarnir) saman, ásamt mörgu af annara þjóða fólki.

Aðeins urðum við tveir landar eftir í borginni Hinir fóru allir norður í hérað það, sem kallað er Parry Sound, þar sem landar höfðu áður sezt að.

Að eg varð eftir í Torontoborg var aðallega af því að einn af félögum mínum frá Íslandi átti bróður þar í borginni, sem flutt hafði vestur ári áður. Þóttist eg nú furðu heppinn, því að þessi var búinn að ná talsverðu úr málinu til að bjarga sér, sem nú var álitið gullinu dýrmætara.

Bræður þessir voru ættaðir úr Rangárvallasýslu á Íslandi; hét annar Þorkell en hinn Björn Halldórssynir. Er nú Þorkell kominn svo niður í málinu,, að hann veit að við þurfum eftir hérlendum sið að breyta nöfnum okkar, svo að fólkið geti nefnt þau. Og eins þurfum við að hafa tvö nöfn, því að hér sé regla til dæmis: Keli Hallson fyrir Þorkell Halldórsson. Eftir þessari reglu var Bear Hallson fyrir Björn Halldórsson. Og mitt nafn varð Siggi Macson fyrir Sigurður Magnússon. Gjarnast var eg kallaður Macson, en þeir Hallson.

Sérstaklega þeir menn, sem við unnum með, og við urðum dálítið kunnugir, nefndu okkur eins oft með fyrra nafninu.

Í gegnum Þorkel fengum við bráðlega vinnu, með sama flokki og hann var í, sem sé við strætavinnu þar í borginni. Grafa skurði, og margt fleira, sem eg man ekki að nefna.

Mikið þótti okkur gott að hafa þarna bæði túlk og málafærslumann ef að enhvers hefði við þurft. Við bjuggumst við að Þorkell væri orðinn býsna góður í málinu. Sjálfsagt að láta hann tala alt fyrir okkur.

Svo leið áfram það sem eftir var af sumrinu, og haustið þar til jörð var frosin, svo að ekki varð leng-

ur unnið við strætin. Var þá líka komið fram undir jólaföstu eða seint í nóvembermánuði.

Ekki get eg svo mjög kvartað yfir þeim tíma, sem enn var liðinn af lífi mínu hér í landi, því þegar eg fór að átta mig, fann eg að eg gat ekki búist við betra. Eg var sama sem mállaus og eiginlega kunni ekkert verk í hérlendra manna augum. En það vildi svo heppilega til, að mér var fenginn sá starfi, sem að sára litla þekkingu útheimti, aðeins að hafa hraustan líkama og vilja til að vinna. Enda drógum við ekki af okkur landarnir, því bæði vorum við vanir við að erfiða vinnu, og svo vildum við geðjast yfirmönnum okkar sem bezt. Auðvitað voru undirverkstjórar settir yfir smáhópa, sem stóðu þar allan daginn horfandi yfir hjörð sína án þess þó að snerta nokkuð við verkinu. Flaug mér þá stundum í huga fjárhirðalífið á Íslandi, þegar hirðirinn stóð yfir hjörð sinni á beit í góðum krafs-snjó, nákvæmlega aðgætandi að allar kindurnar héldu sig að beitinni.

Í mörgu tilliti vorum við Íslendingar grunnhygnir (greenhorn); var það eitt með öðru, að við kunnum ekki að vinna undir svona verkstjórn, eða að minsta kosti ekki eins og fjöldinn af hinum gjörðu, sem, þegar hirðirinn leit af þessari eða hinni kindinni, eða hún var þar stödd, sem hann gat ekki séð hana, annað tveggja fór hún sér ofur hægt eða máske gaf upp starfið fyrir nokkrar mínútur. Þetta kölluðu þeir að taka það "ísý" (easy), sem eg þá skildi alls ekki.

Brátt skildist mér hvað þetta þýddi, en bæði var það, að eg hafði ekki vanist þessum siðum og svo voru

þeir gagnstæðir mínu lundarfari. Hvað þeir líka voru undur aðgætnir að nota hvert smá tækifæri í þessa átt.

Talsvert voru þessir verkstjórar misjafnir í atlæti við okkur útlendingana. Um orðin vissum við ekki vel, hvort þau voru heldur hlý eða köld, en við þóttumst samt skilja þess háttar á öðrum teiknum.

Jæja, þessi tími leið nú áfram eins vel og við gátum búist við; aldrei vorum við reknir úr vinnu, því síður lamdir, og við fengum kaup það skilvíslega borgað, sem okkur var lofað. En jafnframt gátum við sagt að við hefðum látið úti marga svitadropa fyrir þessa peninga.

Nú kom veturinn og engin vinna var í borginni fyrir okkur. Ekki fanst okkur það álitlegt fyrir framtíð okkar hér í þessu góða landi, að eta upp allan sumaraflan yfir veturinn. Við gátum fljótt reiknað það nákvæmlega af þriggja vikna reynslu, að ef við ynnum ekkert yfir veturinn og borguðum fyrir fæði okkar, hefðum við ekkert afgangs þegar vorið kæmi.

En bráðlega raknaði fram úr því bága útliti. Við fengum loforð um vinnu úti í skógi, langt frá borginni, og þar áttum við að fá fæði og dálítið kaup. Við vorum nýkomnir frá Íslandi og ekki stórlátir í því efni. Það gekk alt furðu vel, við vorum komnir út í skóga fyrir jólin. Voru það bjálkakofar, sem við áttum að búa í yfir veturinn. Alls vorum við 18 saman, þrír Íslendingar en hinir Canadamenn, að minsta kosti töluðu allir ensku. Aldrei höfðum við Íslendingar tekið á öxi til að höggva tré í skógi — meira að segja, við höfðum aldrei séð skógaröxi fyr. En við vissum líka

nákvæmlega vel, að við vorum komnir í þetta land til að læra. Ekkert annað en að læra.

Ekki byrjuðum við á skógarhögginu fyr en eftir jólin. Vorum að búa um okkur með ýmislegu í millitíð. Þótt við aldrei hefðum séð skógaröxi fyr, leið samt ekki á löngu áður en við landarnir komumst á allgott lag með að beita henni, og gátum skilað eins góðu dagsverki og hinir ensku mælandi félagar okkar. Hafi okkur skort eitthvað á eins gott lag og þeir höfðu við að beita exinni, þá unnum við það upp með harðfylgi og líkamsþreki. Þetta voru þaulæfðir skógarmenn, sem við urðum að mæta hér. Allir vorum við eins og eitt félag hér, stórum alúðlegri voru þeir Canadisku við okkur landana heldur en við mættum í borginni. Hér var líka alt öðruvísi vinnuaðferð. Hér var eiginlega enginn verkstjóri samkynja og þar. Einn var samt, sem réði yfir öllu og sagði fyrir með alla vinnu, sem var á þá leið, að hér var högginn og sagaður eldiviður 4 feta langur, hlaðinn upp í stóra hlaða. Var þess konar hlaði, sem var 8 fet á lengd og fjögur fet á hæð, kallaður "Cord" (faðmur). Vanalega vorum við tveir á hverjum stað og var ætlast til að við skiluðum fjórum föðmum eftir daginn. Oft var eg með sama félaga marga daga í senn, bræðurnir voru gjarnast saman. Fór eg nú fyrst að læra dálítið í málinu, þar sem við vorum að reyna að halda uppi dálitlu samtali á daginn. Aftur var eg fremur fáorður á kvöldin.

Nú var félagslífið orðið svo jafnt á milli okkar, að tíðara var brúkað fyrra nafnið, svo sem: Jack, Frank og Billi, Siggi, Kelli og Bear. Samt voru hin

notuð svona með köflum, svo sem: Mr. Murry, Mr. Donald, Mr. Wilson, Mr. Hallson og Mr. Macson.

## II. KAPÍTULI.

### Hættulegur misskilningur.

Kofarnir okkar voru inni í skógarkrika; gengu tvær stórar álmur beggja megin út frá honum, sem mynduðu stóra opnu af skóglausu landi, var opnan því breiðari, sem fjær dró kofunum.

Vetur hinn næsta á undan hafði allur nýtilegur viður verið högginn á stóru svæði út frá kofanum til annarar hliðar. Samt stóðu eftir kampar hér og þar, en viðurinn þótti mjög lélegur. Nú aftur þenna vetur var byrjað að höggva hinumeginn og unnið út frá kofunum á allar hliðar.

Þegar komið var fram í febrúarmánuð, höfðum við rutt skóginn á stóru svæði. Sá nú verkstjóri að við þurftum að sækja lengra til skógarhöggsins, sérstaklega til að hafa góðan skóg. Kofana gátum við ekki fært, heldur urðum við að koma þar saman á kvöldin. Skifti nú verkstjóri mönnum í tvo flokka. Skyldi annar vinna utar í skógarálmunni, en hinn inni í megin-skóginum. Var eg í þeim flokknum, sem vann út á við, en bræðurnir í hinum flokknum.

Fjórir af félögunum áttu að vera eins og tvo daga að hreinsa upp það, sem ekki var fullendað við á fyrri staðnum.

Þennan morgun urðum við lítið eitt síðbúnari, þurftum að skerpa nokkrar axir um morguninn; annars voru þær vanalega skerptar á kvöldin. Er nú

komið um hálfbirtu, þegar við leggjum af stað frá kofunum; aðeins nokkur skref er eg á eftir félögum mínum. Í þessu verður mér litið yfir að viðarhlöðunum, þar sem við höfðum unnið dagana næstu á undan. Þykist eg nú sjá að Björn væri þar, sem þó átti að vera farinn út í skóg með hinum flokknum. Í grannleysi kalla eg til hinna fjögra — þar var í verkstjórinn — sem enn voru aðeins ófarnir af stað, og segi, um leið og eg bendi í áttina: "Bear in Woodpile". Fljótlega fóru þeir að horfa í áttina til viðarhlaðanna; en af því aðeins var hálf-bjart orðið, gátu þeir illa séð glögt, enda var mikill skógarruðningur út frá viðarhlöðunum. Tveir þóttust sjá eitthvað svart hreyfast í skógarruslinu. — "Taktu með þér byssuna, Edward" — það var verkstjórinn — "og nóg af kúlum," kallaði einn af félögunum, sem hlupu af stað alt hvað þeir máttu, yfir að viðarhlöðunum, sem voru örskamt, hér um bil fjórðung mílu frá kofunum.

Jack og Frank voru fyrstir. Þegar þeir komu að hlöðunum sáu þeir ekkert, en heyrðu samt að eitthvað var í skóginum all-skamt þar frá. Stansa þeir nú svo sem mínútu og hlusta. Já, þeir heyrðu rétt. "Þarna er hann," sagði Frank og benti í áttina.

Jack kallar hátt til þeirra, sem aftar fóru: "Hann er hérna, eg heyri til hans; komdu, Edward!" Í vetfangi stökkva þeir inn í skóginn þar sem þeir þóttust hafa heyrt til bjarnarins. Varð nú að neyta allrar orku til þess að komast greiðlega áfram, því að skógurinn var þykkur, mest ösp og björk; sömuleiðis mikið af kjarrviði og niðurföllnu rusli. Altaf var Jack fremstur; kallar hann nú hátt og segir: "It is a bear,

I am sure." Gengur nú þessi eltingarleikur nokkra hríð, sækja veiðimenn fast á eftir, er þeim frekar umhugað um að láta ekki bangsa ganga úr greipum sér. Í þessu heyra þeir axarhljóð, svo að hvein í trjátoppunum. Blandast nú saman axarhljóðið og brakið í kjarrviðnum, þar sem að bangsi þeyttist áfram. Fanst þeim hann taka sveiflu á axarhljóðið. "Það er gott," segir Jack, "við fáum þá tíma til að slá hring um hann.' Þegar þer eru komnir mjög svo nálægt mönnunum, er voru að höggva trén í ákafa, hrópar Jack af öllum mætti: "Stöðvið hann! Stöðvið hann!" Þegar hinir heyrðu þessi voða-hljóð, drápu þeir niður öxum sínum og fóru að hlusta. Bar þá alt að íeinu. Stekkur Björn í einhverju ofboði fram úr skóginum og inn á milli þeirra; kastaðist hann þar niður, og hinn næsti gat aðeins skilið — mæðin var svo mikil — "Help, help!" Í sömu andránni bar hina að, sömuleiðis nær niðurfalli af mæði, og spyrja: "Hvað varð af birninum?"

Hinir gátu ekki áttað sig strax og segja: "Við höfum engan björn séð."

Jack tók fyrstur til orða og segir: "Ó, hann er þá sloppinn! Eg kallaði til ykkar að stöðva hann!" — meira gat hann ekki mælt fyrir mæði.

Sérstaklega hann, og jafnvel allir, stóðu nú þarna sárir og móðir, og sigurlausir.

Þeir, sem fyrir voru, vissu nú ekki hvaðan á sig stóð veðrið; þeir skildu að vísu að þessir hefðu verið að elta bjarndýr, en hvað varð af því, var ráðgáta. Það var eins og veiðimennirnir byggjust vð að dýrið hefð komið inn til þeirra.

Loksins spyr einn af skógarmönnunum: "Was Bear Hallson with you?" "Nei, hvað um hann?" "Hann stökk hér út úr skóginum nærri sprunginn af mæði." "Hvar er hann nú?" spurði verkstjóri. 'Hann liggur hérna skamt frá."

Þeir ganga nú allir þar að, sem Björn liggur, alveg marflatur hjá rótarþúfu. Verkstjórinn er með þeim fremstu og heldur á byssunni. Þegar Björn heyrir þá koma, rís hann upp til hálfs, og í sama bili sér hann byssuna. Í einhverri dauðans angist hrópar hann upp: "No skjút! No skjút!" Verkstjórinn áttar sig strax, kastar frá sér byssunni, gengur að honum, klappar á hann og segir: "Vertu ekki hræddur, eg ætla ekki að skjóta þig."

Skilja þeir nú fljótt, hvað þeir hafa verið að elta, nefnilega íslenzka björninn.

Spyr nú verkstjórinn eftir, hvernig standi á því að Íslendingurinn hefði verið þarna í skóginum. Er honum þá sagt að hann hafi farið yfir að hlöðunum að sækja strigasmokk, sem hann hefði gleymt að taka með sér kvöldið áður. Vissi ekki, að hann átti að hætta að vinna þarna. Því næst snýr hann sér að landanum og spyr, hvernig standi á því að hann hefði ekki farið sömu leið til baka frá viðarhlöðunum og þannig rakið slóð félaga sinna.

Í fyrstunni ætlaði eg að taka mesta krókinn af mér, án þess þó að fara út í aðalskóginn. En þegar eg sá að þið fóruð svo geyst frá kofanum, vissi eg auðvitað ekki hvað það átti að þýða, — en jafnframt vildi ekki láta þig sjá, að eg væri ekki þar sem þú sagðir mér. Þú hefir oft sagt, að allir ættu að byrja jafn-

snemma vinnuna. Stökk eg því út í skóginn til að komast alveg úr augsýn tl félaga minna. Og þegar eg heyrði köllin á eftir mér, varð eg mjög hræddur, hélt þið ætluðuð að gjöra mér eitthvað ilt. Alveg ruglaðist eg í því, í hvaða átt eg stefndi; aðeins brjótast áfram hvar sem eg komst. En svo þegar eg fann að þið eltuð mig æ því fastara, sem eg hljóp meira, óx hræðslan ógurlega. Það vildi mér þá — eg held til lífs — að eg heyrði axarhljóðið. Vatt eg strax við og stefndi á það, því eg vissi að það voru félagar mínir. Það er gott, að þetta er eins og að vakna af vondum draumi."

## II. KAPÍTULI.

### Winnipeg.

Það er öllum þorra manna, körlum jafnt sem konum, inngróin eðlistilfinning, að hugir hneigjast svo mjög saman, milli fólksins af sama þjóðflokki og sömu tungu, fremur en milli annara, sem eru í því tilliti óskyldari. Í sambandi við þetta vil eg geta þess, að eg hefi nú mikið skýrari skilning á þessu heldur en eg hafði á þeim tíma, þegar viðburðir þeir skeðu, sem hér koma fram.

Á þeim tíma voru sérstakar kringumstæður, sem bundu hugi manna saman, svo sem tungan, hugsunarhátturinn og inngrónir siðir frá bernsku. Þessi öfl eru svo sterk hjá manninum, þegar hann í öllum og fylsta skilningi er útlendingur í einhverju landi. Og öfl þessi eru því sterkari, sem ættland og þjóð er fjær í öllum áminstum einkennum. Og undir þessum kring-

umstæðum útheimtist sterkur viljakraftur og sjalfsafneitun til að útiloka sig frá öllu félagslífi við samlandann. Talsvert mikill hluti af þessu afli loðir við manninn, sem einu sinni var útlendingur, jafnvel eftir að hann er nokkurnveginn vel sameinaður þjóðinni, með tungu og þjóðsiði.

Sama sem engar fréttir höfðum við fengið af löndum vorum, sem höfðu flutt til Winnipegvatns í Manitoba fyrır hér um bil þremur árum síðan. Að sönnu voru fregnir komnar til Íslands áður en eg fór, að fólkinu liði illa. Bóluveiki kom þar inn, sem að orsakaði því óttaleg bágindi; svo hafði eg ekkert frétt síðan. Mætti vera, að raknað hefði eitthvað úr fyrir fólkinu í seinni tíð.

Hvað svo sem um alt þetta var, þá kom okkur löndunum saman um að fara til Winnipeg með vorinu, og vita hverng þar væri um horfs, og jafnframt að vita hvernig landanum liði við Winnipegvatn. Voru þar flestir landar saman komnir, eftir því sem við höfðum heyrt.

Í aprílmúnuði 1879 lögðum við af stað frá Torontoborg áleiðis til Winnipeg. Farbréf tókum við til landamæra Manitobafylkis; jafnframt var okkur sagt, að við gætum komist með bát þaðan til Winnipeg eftir Rauðará. Gekk þetta alt eftir eins og okkur var fyrir sagt. Ekkert vissi eg hvaða leið við fórum, höfðum engin landabréf og þektum engin nöfn á stöðum eða járnbrautum.

Til Winnipeg komum við seint í aprílmánuði. Var það aðeins lítið þorp í samanburði við bæina, sem við höfðum séð á leiðinni. Talsvert var af húsum dreift



um bakkana vestan við ána; þar á meðal mikið af bjálkakofum út um sléttuna. Á austurbakka árinnar lá annað þorp. Var þar biskupssetur og fólkið af frönskum ættum. Talsvert af kynblendingum. Fyrsta járnbraut til Manitobafylkis kom til Winnipeg í nóvember næst á undan.

Hér hittum við strax nokkra landa, sem sögðu okkur þau tíðindi, sem við höfðum enga hugmynd um áður, sem sé, að járnbraut væri á leiðinni þaðan vestur um land. Í bænum væri yfirfljótanleg vinna og gott kaup borgað; meira kaup heldur en við höfðum áður heyrt talað um. Kom mér nú að góðu haldi kunnátta mín í trésmíði, því næsta dag var eg búinn að fá vinnu við húsasmíð og kaupa mér öll verkfæri. Átti eg að fá tvo dollara og fimtíu sent á dag og jafnvel meira ef að eg reyndist vel. Annar landi var þar fyrir, sem hafði unnið um langa hríð hjá þessum sama verkveitanda; fékk hann $3.00 um daginn. Reyndar sagði landinn mér, að þetta væri meira kaup heldur en vanalega gerðist, sem stafaði af því, að síðan járnbrautin kom, hefði fólkið flutt inn svo ótt, að altaf vantaði hús.

Þegar eg fór að snúa þessu dagkaupi yfir í krónur, þá fundust mér það feikna miklir peningar.

Ekki voru hús þessi vönduð, heldur þvert á móti. En fljótlegt var að koma þeim upp. Fyrst voru trjábútar lagðir á jörðina, og aurslár þar ofan á, því næst var húsið bygt upp án þess að nokkursstaðar væri höggið spor eða geirað saman. Flest af viðnum telgt svo að aðeins þurfti að saga hann niður í hæfilegar lengdir. Við vorum sex saman og smíðuðum stundum heilt hús á dag. Auðvitað lítið.

Svo datt mér í hug, þegar búið var að smíða húsið, að ekki þyrfti mikið að hvessa til þess að kofinn félli um koll. En þeir vissu betur heldur en eg, hvað hér átti við. Aðeins að vera fljótur, koma sem mestu í verk.

Svo þurfti eg að fá eitthvað að borða; já, og það gott, því eg sótti vinnuna fast. Ekki var heldur skortur á því, hægt var að fá nógan og góðan mat. En hann kostaði peninga, sem eðlilegt var. Fjóra og fimm dali um vikuna. Þegar eg heyrði þessa upphæð nefnda fyrir matinn, fanst mér það ákaflega mikið.

Svo fór eg að bera það saman við kaupið, sem eg fengi, og fann þá að eg hafði talsvert afgangs. Eg fékk fimtán dali á viku, svo þó að eg tæki fimm þar af væru eftir tíu. En gömlu félagar mínir fengu tvo dali á dag — tólf dali á viku, ef þeir gátu unnið alla sex daga. Af hverju sem það var, þá leituðu þeir eftir þeim stað, þar sem þeir fengu fæði fyrir fjóra dali um vikuna. Bæði var það, að eg fékk meira kaup en þeir, og svo líka hitt, að eg var nú kominn í vinnufélag við landa, sem borgaði fimm dali um vikuna, svo að eg gerði það líka.

Fljótlega fór eg að sannfærast um það, að heimska væri að viðhalda krónunni hér í huga sínum, hún bara ruglaði mann í öllum reikningum. Líka fann eg það fljótt, í víðtækri merkingu, að hér var alt nýtt. Bærinn eða borgarvísirinn var nýr. Fólkið í mörgu tilliti nýtt. Ekki líkaminn sjálfur eins mikið og hinn andlegi maður, varð að taka á sig nýtt gervi. Þessi gervisbreyting hélzt í mörg ár eftir að hér var komið sögunni.

Nú voru aðeins að koma í ljós hin fyrstu merki af þjóðmenningu veraldarinnar, sem — þó að óálitleg sýndust í fyrstu — þeir gátu, er skyn báru á slíkt, séð fram í þann tíma að hún mundi leggja undir sig allar hinar feikna stóru víðlendur í Norð-vestur landinu. Yfir þrjú hundruð þúsund fermílur af vel byggilegu landi, eða eins mikið og allar brezku eyjarnar og Frakkland til samans. Fólkið var samsafn af öllum hugsanlegum þjóðum. Fyrst voru hér Indíánar og franskir kynblendingar ásamt óblönduðum Frökkum. Þar næst Englendingar frá brezku eyjunum og kynsmenn þeirra. Ennfremur Þjóðverjar, Norðurlandabúar, Rússar og undirþjóðir þeirra. Lítið eitt af Suðaustur-Evrópu þjóðum og Gyðingum.

Þessi þjóðagrautur, þar sem allur fjöldinn var ómentað verkafólk, getur þú gizkað á að hafi skotið upp ýmsum þjóðfánum, þó að enginn lyftist mjög hátt. Auðvitað var enski fáninn hæstur og sá eini þjóðfáni. Jafnvel þó hann væri nokkuð áferðargrófur fyrst, töldu allir sjálfsagt að draga sinn litla fána inn í hann. Þar sýndu allir viðleitni nema Frakkinn. Helzt vildi hann bauka sér, þó hann væri ragur við að reisa sinn fána eins hátt.

Viðskiftalífið útheimti það, að alt þetta samsafn af ólíkum lifandi tegundum varð að brúka eitthvert tungumál. En jafnvel þó að sumar tungur séu ákaflega þung námsgrein, er eg sannfærður um það, að engin tunga hefði komist í nokkurn samjöfnuð við að nema allar þær mállýzkur.

En hér vildi það líka til láns, að allir tóku með fúsum vilja sinn þátt í að koma öllum þessum mállýzk-

um af stað til nytsamlegra starfa viðskftalífsins. Jafnvel Englendingar, sem eiginlega ekkert kunnu í þessari nýju tungu, gátu þó oft hjálpað þegar einhver snurða mann á, svo að raknaði fram úr, og viðskiftalífið leið ekki stóran skaða þar við. Þessi nýja tunga held eg hafi staðið með mestum blóma í tólf til fjórtán ár, en úr því fór henni heldur að hnigna. Voru þar margar orsakir. Fyrst sú, að stjórnin heimtaði að börnin lærðu ensku á skólum þeim, sem hún lét byggja handa þeim. Annað það, að sumir tóku það í höfuðið að vilja ekki brúka nýju tunguna. Voru það helzt prestar, skólakennarar og ýmsir, sem gengu í fínum fötum. Hvort það var af því, að þeir voru svo ófélagslegir við alþýðuna, eða hinu, að þeir voru svo latir að þeir nentu ekki að nema fleiri tungur heldur en þeir þegar höfðu gert, veit eg ekki. Hverjar helzt sem orsakir hafa verið, varð reyndin sú að fólkið klofnaði í sundur í tvo flokka, sem komu fram í félagslífinu. Prestar, skólakennarar, ritstjórar og ýmsir menn og konur, þó heldur færra af þeim, fylgdu afturhaldsflokknum. En aftur frumbúar, karlar og konur og ýmsir vinir þeirra, sem síðar fluttu hér inn í landið og tóku góðan þátt í félagsmálum þeirra, héldu fast við nýju tunguna. Ymsir iðnaðar- og verzlunarmenn, hvar af Gyðingar voru beztir, studdu líka verkamannalýðinn.

Aðallega mun það hafa haldið flokknum saman, að tunga þessi fullnægði nokkurnveginn vel viðskiftalífinu, og var mjög handhæg. Mun þeim hafa sýnst það óhagsýni að eyðileggja þing þetta og taka upp annað óþægilegra í staðinn.

Í bæjum og borgum sérstaklega munu hin mis-

munandi þjóðerniseinkenni, sem svo mikið bar á á fyrsta og öðrum áratug, hafa smá eyðst og dregist inn í hið Canadiska þjóðlíf því fyr, sem heimaþjóðin er betur mönnuð. Þó er ein undantekning þar, sem sé Íslendingar. Hér eru þeir með beztu innflytjendum, sem borgarar í bæjum, og víðast sem bændur út á landi. Aftur í Norðurálfu mun þjóðin að sumu leyti standa að baki öðrum Norðurlandaþjóðum og Þjóðverjum.

Frekar var lögreglu-agi eins og á lausung þetta sumar í Winnipeg. Auðvitað get eg lítið dæmt um þess háttar hluti, heldur heyrði eg að aðrir, sem betur báru skyn á það, tala svo. Enda sé eg það nú, að slíkt var eðlilegt, þar sem vantaði öll skilyrði, sem hinir stærri bæir hafa. Var það hin mesta furða hvað lítið mein varð að slíku, eins og fólkið var ólíkt, og meirihluti óbreytt verkafólk. Talsvert margar byggingar voru þegar komnar víðsvegar um bæinn, sem drógu að sér dollara frá fólkinu. Það má óhætt fullyrða að þeir, sem lögðu peninga sína í þær byggingar, fengu þá fljótt endurgreidda. Þetta fyrsta sumar mitt hér get eg ekki sagt að nokkuð alvarlega sögulegt kæmi fyrir. Helzt voru það smá kippir í yngra fólki bæjarmanna.

Verkamenn sóttu fast vinnuna á daginn. Voru það tvö öfl, sem knúðu mest áfram, að ná í há daglaun og halda þeim, sem að eins tókst með því að leggja fram alt, sem til var af líkamsþrekinu, því verkgefendur vildu fá sína peninga borgaða í fullum mæli.

Sama heyrðist með ungu stúlkurnar. Þær urðu sumar að ganga undir voða ok í því tilliti. Húsin voru

vond og engin þægindi með neitt. Engin stúlka mundi nú vilja ganga í slíkar vistir, hvað sem í boði væri. En unga fólkið var komið hingað inn á nýtt verksvið, þar sem möguleikar sýndust blasa við því að vinna sig upp til auðs og upphefðar.

Var nú ekki nema eðlilegt þó að margar ungar stúlkur dreymdi drauma, mitt í stritinu og erfiðinu. Ensku frúrnar, þó þær sumar væru voðalega harðar og ónærgætnar, voru þó að öðru leyti langt fram yfir það, sem þær höfðu áður séð af sömu tegund.

Á þeim tíma mátti segja að brezka þjóðin væri alt hér í Manitoba. Þar var tungan, þekkingin og peningarnir. —

Margir hinna ungu Breta, sem gátu kosið um hina léttustu og þrifalegustu atvinnu við gistihús, matsöluhús, sölubúðir og ýmislegt fleira, voru nógu dýrslegir til að nota sér gefin tækifæri til að veiða hinar grunlausu kindur.

Þegar aumingja grunlausir von-þráendur höfðu aflokið hinu erfiða dagsverki, sem ónærgætin húsmóðir hafði þeim fyrirskipað, gátu þær fundið hressingu í að fá sér hreint og heilnæmt kvöldloft, eftir hitabaðið við fataþvott og önnur eldhússtörf. Sjálfboðin hönd var til reiðu að létta hinum þreytta líkama gönguna í hinni svalandi og hressandi kvöldkyrð, sem sérhver þreyttur og hitadæstur líkami finnur hressingu og endurnæringu í.

Stundum kom það fyrir að dýrið dáleiddi hindina. Sá hún þá opna Paradís og tilvonandi sælustað. Tilfinningin varð svo sæt og unaðsrík. — Eilíf sæla.

— — Ó, hún var niðji Evu, og lögmálið hvíldi yfir henni.

— — — — — — — — —

Um langan tíma, þó helzt eftir að hér var komið sögunni, var afstaða verkgefenda og verkþiggjenda hér í Winnipegborg og fylkinu, talsvert á annan veg heldur en nú á sér stað. Eins og áður er áminst, báru Englendingar og þeirra kynsmenn höfuð og herðar yfir alla hina margbreyttu þjóðflokka, sem bókstaflega höfðu ekkert er hér að haldi mætti koma, nema hraustan líkama og styrka vöðva og viljakraft í samræmi þar við.

Auðvitað höfðu þessir menn góða vöru, sem þeir höfðu flutt inn í þetta nýja land með sér. Já, einmitt sú vara, sem að landið þurfti helzt með. Samkvæmt lögmáli lífsins varð nú þetta fólk að skiftast á vörum.

Allir voru komnir hingað í þeim tilgangi að byggja þetta land upp — föðurland aumingja Indíánanna, sem aldrei gátu fengið tækifæri til að skilja líf sitt — og gera það að bústað fyrir fólk á menningarstigi.

Og hér voru komnir menn — aðallega af hinum brezka kynstofni —, sem höfðu flutt með sér frá þeim landshlutum hvar þeir voru uppfæddir, lífsreynslu og þekkingu, sem gaf þeim góða leiðsögn um það, hvernig þeir gætu fljótast og bezt komið þessu verki í framkvæmd, þ. e. menningunni.

Nú þurfti ósleitilega að taka til starfa. Ekki dugði að vera aðgerðalaus. Nei, þvert á móti. Nú

þurftu allir að leggja fram alt, sem þeir höfðu til. Verkið var ákaflega mikið.

Samkvæmt lögmáli lífsins fór fólkið að skiftast á vörum sínum, til þess að geta lifað og starfað. Kom þá hver með sinn varning á markaðinn. Skiftust þá menn talsvert í flokka, eftir því hvaða vörutegund þeir komu með. —

Í fyrsta flokki voru peningar og þekking. Í öðrum flokki voru lífsnauðsynjar, og í þriðja flokki voru hraustir líkamar með styrkum vöðvum og viljakrafti.

Alt voru þetta góðar og gildar vörur og lífsnauðsynlegar fyrir verkið.

Svo byrjaði nú verzlunin. Hvernig gekk hún áfram? Fyrst skiftust á fyrsti og þriðji flokkur. Þeir síðar töldu lögðu fram alt, sem þeir áttu til þann og þann daginn; söfnuðu öllu, sem hægt var, á nóttunni og komu með það á morgni á torgið.

Auðvitað hefðu þeir átt að fá sanngjarnt verð fyrr vöru sína. Hinir fyr töldu höfðu þekkinguna og voru því dómarar í því máli.

En af því þetta verðmæti, sem þriðji flokkur fékk hjá fyrsta flokki, var honum gagnslaust, fór hann með það til annars flokks, því þar gat hann fengið vöruna, sem hann vantaði.

Já, það gekk undur vel. Mennirnir í öðrum flokki tóku á móti vörunni með báðum höndum.

Manni þeim, sem stóð álengdar og vetti mönnum athygli, varð sjónin á þessa leið: Maðurinn úr þriðja flokknum kom fram með þreytulegan, alvarlegan og framknýjandi svip, eins og eitthvert afl væri að knýja hann áfram. Hinn maðurinn tekur á móti

vörunni með báðum höndum. Vinalegt bros leiku um varirnar og málið er svo mjúkt. Manni liggur við að halda að þetta sé allra bezti mannvinur. Það hlýtur að vera einhver elska, sem býr á bak við þetta á nægjulega bros og mjúka mál.

Jæja, hvað sem þessu líður, maðurinn þramma út úr byggingunni nokkuð þreytulegur, með vöruna sem hann vildi fá; og hinn kallar á eftir honum, eins og vinur væri, og segir: Komdu aftur.

Stundum kom það fyrir, helzt á vissum tímamörk um, að fyrsti og annar flokkur gengu á ráðstefnu, ti að ræða hin stóru spursmál þjóðfélagsins í þessu nýja landi. Ekki átti þriðji flokkur þar atkvæði; hann skildi ekki þessi spursmál.

Á ráðstefnum þessum var vanalegast fyrst, að líta yfir hina liðnu tíð; og þegar þeir höfðu nákvæmlega athugað alt, fyrst framkvæmdar- og starfsleiðina, og því næst fjárhagslegu hliðina, voru þeir venjulega mikið vel ánægðir. —

Næsta spursmál var, að ákveða eitthvert markmið að keppa að á næstkomandi tímabili, í framkvæmdar- og starfsemisáttina. Annað: þar sem fjárhagurinn sýndi að vel hafði verið unnið í þá-áttina, var talið sjálfsagt að vera samtaka um að engin röskun kæmist á fyrirkomulagið.

Allir gengu ánægðir af ráðstefnunni og hugsuðu sér að vinna af alefli í sömu áttina, sem liðni tíminn sýndi að hefði reynst svo farsæl.

Ekki var örgrant um það, að einstöku sinnum kæmu fram raddir frá einstaklingum — undur lágar og hljómlausar — um það, að lítilfjörlegt ólag hefði

komist hann á þessum eða hinum staðnum. Var það tíðast á þann veg, að einhverjir einstaklingar höfðu ekki fengið svo mikið verðgildi fyrir vöru sína á síðastliðnu tímabili, að sjáanlegt væri að þeir gætu haldið við afli því, sem þeir hefðu komið með inn í landið og altaf lumað á.

Svo voru líka ungir meiðir að vaxa upp. Ekki mátti þrengja svo að lífsskilyrðum þeirra, að þeir visnuðu alveg upp. Það meinti dauði. Heldur þurfti að sjá um að þeir gætu vaxið þó svo mikið, að þeir yrðu að gagnlegum áhöldum fyrir hina, sem kunna á að halda síðar.

Að þessum tíma hefir það verið alment viðurkent skilyrði fyrir starfrækslu landbúnaðar, að hafa vinnudýr. Því betri sem dýrin eru, því betra fyrir þann, sem starfið rekur.

Menn eru ætíð misjafnir í ályktunum sínum, og þar af stjórnast framkoman. Sumir vildu hafa góð vinnudýr og gefa þeim nóg fóður. Aðrir vildu spara fóðrið eins mikið og frekast mátti. Álitu það hagfræði.

Þegar svo óheppilega vildi til, að á einhverjum — máske smábletti — leit út fyrir fjárhagslegan halla fyrir heildina, var reynt að koma í veg fyrir það, þó auðvitað með sem minstum kostnaði.

Það hefði líklega aldrei komið til þess, að hinir tveir fyrst töldu flokkar hefðu þurft að varna því að nokkrir einstaklingar úr hinum þriðja flokki týndust út úr tilverunni, fyrir smá ólag á viðskiftunum, ef að engin ungviði hefðu flotið þar innan um (börnin).

Hvort það var af hagfræðislegri fyrirhyggju, svo sem til þess að flokkurinn héldi tilveru sinni, eða af

eðlislögmáli, veit eg ekki. En ungviðin lifnuðu þar, og döfnuðu undursamlega, þegar öll skilyrði eru borin saman við það, sem viðgekkst hjá hinum flokkunum.

Sú hagfræðilega regla var hér upp tekin á þeim tímum, sem hún átti vel við ástandið, nefnilega að nota uxa í stað hesta á meðan verið var að brjótast í gegnum frumnáttúru landsins. Voru skepnur þessar stórum óvandlátari með fóður og alla meðferð, og undra þrautseigar. Enda notaði margur eigingjarn og illa upp lagður maður sér það.

Ekki var þó alstaðar hægt að koma uxum við, þar sem frumnáttúran skyldi víkja og menningin að gróðursetjast. Voru þá önnur haganlegri dýr tekin í þjónustu starfseminnar, sem að sumu leyti voru frábrugðin uxanum, nefnilega höfðu tvær fætur og fleira, sem að gerði þau haganlegri fyrir ákveðinn starfa. Líka höfðu þessi dýr fylginaut, sem var þeim til ónæðis, og áttu alls ekki við þetta starf. Gjarnan vildu þau loka hann inni í kofanum sínum áður en þau gengu að starfi á morgnana, eða það, sem bezt var, að kviksetja hann í kyrþey langt frá alfara vegi, því lítið útlit var fyrir að þau þyrftu á þessum fylginaut að halda (sálinni).

Tíminn leið áfram og breyting kom á hér eins og annarsstaðar. Alstaðar varð frumnáttúran að víkja á braut fyrir menningunni. Uxarnir fylgdu henni og hurfu burt af starfsviðinu. Og um sama skeið hurfu tvífættu dýrin úr tilverunni.

Í staðinn fyrir uxana komu hestarnir til sögunnar, hér eins og annarsstaðar.

Og í staðinn fyrir gömlu tvífætlingana, komu menn, sem, þrátt fyrir hin mjög svo hörðu lífsskilyrði

á uppfæðsluskeiði, komu fram á verksvið þjóðfélagsins og kröfðust mannréttinda. Auðvitað leiddi hér af uppreisn, sem ætíð bar dálítinn sigur úr býtum.

Nú, eftir hér um bil þrjátíu ára skeið, hefir fyrirkomulag á þjóðfélagsheildinni breyzt á þann veg, að eiginlega er engin þriðji flokkur til í þeim skilningi, sem áður var. Manngildi ræður nú meira réttindum, og atkvæði, sanngirni er víða tekin til greina í viðskiftalífinu.

Auðvitað sjást glögg merki starfrækslunnar á þann veg, að ágóðinn hefir fallið helzt of misjafnlega til einstaklinganna. Það er lögmál, sem enn gildir um heim allan, en þarf að lagast.

## IV. KAPITULI.

### Nýja Ísland.

Eins og áður var skýrt frá, höfðu Íslendingar numið land og stofnað nýlendu við Winnipegvatn, sem þeir nefndu Nýja Ísland. Var það eiginlega sú eina nýlenda, sem enn hafði verið stofnuð hér í álfu, er því nafni gat heitið.

Að vísu voru landar á nokkrum stöðum þess utan, bæði í Nýja Skotlandi, norðurhluta Ontario og Visconsinríki í Bandaríkjunum. En á öllum þeim stöðum voru þeir svo fámennir að það gat ekkert nýlendunafn borið.

Talsvert langaði mig til að koma ofan í íslenzku bygðina við Winnipegvatn. Ekki samt af því, að eg byggist við að reisa bú í þessu landi, heldur af hinu, að hugur minn hneigðist ætíð í búnaðaráttina. Í önd-

verðum desembermánuði 1879 fór eg og tveir aðri landar, sem heimili áttu í nýlendunni, en sem unn höfðu í Winnipeg um sumarið, norður þangað.

Sögðu þeir að vegalengdin væri um 70 mílur enskar, það er sama og rúmar 15 mílur danskar. Al leið urðum við að ganga, því Rauðá, sem notuð va að sumrinu, var nú öll ísi þakin.

Ferðin gekk all-vel. Eftir fjóra daga komum við að Gimli, þar sem þeir höfðu ákveðið bæjarstæði fyr nýlenduna og gefið þetta nafn. Voru nú liðin r þrjú ár frá því er fyrstu Íslendingar stigu þar fæti á land. Mun það hafa verið fiskiveiðin í vatninu, sem að dró þá frekar að þessum stöðvum heldur en öðr-um, sem á þeim tíma stóðu opnar fyrir þeim. End var það eðlilegt, því þar til eru margar ástæður: Fyrst að þjóðin í heimalandinu stundaði aðeins fiskiveiðar og kvikfjárrækt, og hafði alls enga hugmynd um nokkra aðra atvinnuvegi. Annað, fiskiveiðin í vatn-inu var mjög álitleg atvinna til að geta lifað, svon fyrsta sprettinn.

En aftur, þegar við lítum á það frá öðrum hliðum, var það frekar óheppilegt fyrir þá menn, sem námu sér þarna land, því það hélt þeim til baka um mjög langan tíma. Reynslan sýndi það síðar, til dæmis: Ekki svo fáir landar, sem fyrst settust að í Nýja Íslandi, tóku sig upp þaðan eftir þrjú til fjögur ár, alveg félausir, og fluttu sig í aðra landshluta, bæði í Manitoba og sunn-an landamæra, í Bandaríkjunum.

Ganga má að því sem vísu, að þessir menn, sem námu lönd og settu búnað sinn á grassléttum, þar sem ekkert var fyrir höndum til að lifa af, áður en jörð

komst undir yrkingu, muni hafa mætt erfiðu lífi fyrst í stað. En þrátt fyrir það, komust þeir von bráðar fram úr mestu erfiðleikum nýbúans, og eftir tólf til fimtán ár voru þeir komnir stórum framar í öllu tilliti.

Stórum betur hefði Íslendingum yfirleitt liðið hér í landi á fyrstu frumbýlingsárum sínum, hefðu þeir verið dálítið betur útbúnir frá heimalandinu með þekkingu og tilhneigingu til jarðræktar. Í staðinn fyrir að þeir voru svo gersnauðir af þessu hvorutveggja, stóð það þeim svo tilfinnanlega fyrir þolanlegu lífi í fyrsta frumbúa ástandinu.

Í sambandi við þetta vil eg nefna einn smáan flokk af fólki, sem mun hafa flutt til Manitoba nokkrum árum eftir að Íslendingar komu hér fyrst, og sem var, eins og Íslendingar, alls félaus, og þess utan á mjög lágu stigi í bóklegri þekkingu. Flokkur þessi var kallaður "Menonitar", af rússnesku eða slavnesku þjóðerni. Eg hefi heyrt að þeir hafi komið hingað fyrir stjórnarstyrk úr heimalandinu.

En þrátt fyrir þeirra mjög svo takmarkaða bóklega þekkingu, höfðu þeir þó inni í sér þekkingu, sem þeim kom að góðu haldi, nefnilega tilfinningu og nokkra þekkingu á jarðræktinni. Þeir höfðu alist upp við einhverja tegund af jarðrækt og höfðu löngun til að stunda þá atvinnu.

Þessi félausi flokkur kaus skóglausa grassléttuna fyrir sinn bólstað. Námu lönd þétt saman, bygðu frumbúakofana í félagi og unnu sem mest á þann veg.

Stjórnin hér í Manitoba mun hafa lánað þeim, sem fleirum örsnauðum landnemum, nokkurt fé til að byrja með. En af því það var af svo mjög skornum

skamti, gátu þeir ekki eignast nægilega mörg vinnudýr þ. e. uxa til að brjóta upp landið. Tóku þeir það til bragðs að ganga sjálfir fyrir plógnum. Útheimti tólf af þeim á einn plóg. Sömuleiðis stungu þeir upp jörðina með spöðum alt hvað þeir máttu.

Fyrstu árin munu þeir lítið hafa lifað á kornyrkjunni sem markaðsvöru. Bæði var það, að yrkingin gekk eðlilega nokkuð seint, og svo var lítt mögulegt fyrir þá að koma vörunni til markaðs, eins og þá stóð á með alt. En þeir lögðu strax stund á garðrækt sér til framfærslu, allar tegundir af garðávöxtum, sömuleiðis korntegundir til heimilisnota, svo sem baunir, rúg og mais. Þresktu þeir rúginn þannig, að þeir börðu úr honum með prikstubb svo sem þriggja feta löngum. Höfðu þeir þannig tvö prik með ól á milli, héldu um annað og þresktu með hinu.

Fyrir hér um bil 18 árum síðan flutti eitt áreiðanlegt enskt blað, sem gefið er út í Winnipeg, grein um Menonita. Fórust blaðinu þannig orð: að þeir væru hinir fyrstu, sem hefðu borgað lánið að fullu aftur til stjórnarinnar, af þeim þjóðflokkum, sem hefðu fengið samkynja lán. Jafnframt sagði blaðið, að þessi flokkur væri á betri framfarabraut heldur en flestir aðrir þjóðflokkar, þegar allar kringumstæður væru teknar til greina.

Nú á þessum tímum standa Menonitar mjög framarlega í öllum búnaðargreinum. Hafa þeir bæði kvikfjár- og kornyrkju-búnað.

— — — — — — — —

Nú er að víkja þangað aftur, sem áður var frá horfið, til Nýja Íslands. Var eg þar það sem eftir var

vetrar, og stundaði helzt fiskiveiði í vatninu. Var fiskurinn mjög ljúffengur til átu og jafnvel betri heldur en nokkur fiskur, sem eg hafði áður borðað (hvítfiskur). En þrátt fyrir það fengum við mjög litla peninga fyrir hann, eða sama sem ekkert.

Einstöku sinnum var þó farið með nokkur uxapör fyrir sleðum með hvítfisksækjum á, upp til Winnipeg. Var það sein farið og torsótt bæði fyrir menn og skepnur. —

Þennan vetur, sem eg var við vatnið, var útflutningsandi ríkjandi yfir alla bygðina. Höfðu sumir þegar farið árinu áður, og næsta vor fór mikill hluti af bygðarbúum. Bar margt til þess; það fyrst, að vatnið hafði hækkað svo mjög, að það gekk víða á land. Urðu svo mikil brögð að því, að menn urðu að flýja híbýli sín, bjálkakofana, sem þeir höfðu reist í hinum þéttvaxna espiskógi, sem þar breiddi sig út yfir allar lendur meðfram vatninu. Annað var það, að eftir því sem Íslendingar kyntust meira landinu og lífernisháttum annara þjóðflokka, sem samtímis fluttu hér inn í landið, komust þeir að raun um, margir af þeim að minsta kosti, að góð búlönd væru hin áreiðanlegasta undirstaða til hagsældar í framtíðinni.

Enda hefir reynslan sýnt það um þrjátíu ára skeið að þeir, sem hafa reist búnað á góðum búlöndum, hafa reist hann á bjargi, sem að stendur stöðugt fyrir þá og niðjana um ókomnar aldir. En aftur fiskiveiðar, þó að mörgu góðar séu, hafa mörgum reynst líkt og þeir bygðu framtíð sína á sandi. Þær byggingar rísa oft fljótlega upp, en reynast jafnframt oft fallvaltar.

Þegar maður tekur hinn íslenzka þjóðflokk, sem

flutt hefir inn til þessa lands, og ber hann saman við aðra innflutta þjóðflokka á umliðnu tímabili, kemst maður að þessari niðurstöðu: Íslendingar eru jafnokar Svía, Norðmanna, Þjóðverja og Skota að manndómi og meðsköpuðu framkvæmdarafli. En svo koma fram séreinkenni hjá íslenzku þjóðinni, sem eiga rót að rekja til ættlandseyjunnar og uppfóstursáhrifa. Af því þjóðin í heimalandiun stundar aðeins fiskiveiðar og kvikfjárrækt, hneigðist hugur þeirra, sem hingað fluttu vestur, helzt að þeim atvinnuvegum. En af því talsvert var í fólkið spunnið, var það fljótt að taka breytingum í betri átt, þegar svo bar undir, að utan að áhrif stefndu huga þess á framfarabraut. Þetta kemur ljósast fram í þeim atriðum, sem nú skal greina.

Fyrst; þar sem Íslendingar hafa numið land og sezt að til búnaðar í grend við og inn á milli Canadiskra og skozkra bænda á góðum búlöndum hér, hafa þeir orðið jafnokar hinna fyrtöldu og sniðið allan sinn búnað eftir þeim. Sama er með aðrar Norðurlandaþjóðir. Aftur eru Þjóðverjar og Austur-Evrópuþjóðir með sér-siði í búnaði.

Sem borgara í bæjum og borgum hafa þeir í seinni tíð haldið uppi sínum hluta, nema hvað peningaaflið er enn minna í stórum atvinnurekstri. Sem námsmenn á skólum hafa þeir skarað fram úr öllum þjóðflokkum.

Aftur, þar sem þeir hafa sezt að út af fyrir sig, hafa sérkenni þeirra komið frekar í ljós; til dæmis hefir þeim lánast kvikfjárbúnaður betur en flestum öðrum í landi þessu, og yfirleitt eru þeir hagsýnari þar heldur en aðrir þjóðflokkar hér.

Engir fiskimenn eru hér til jafns við þá; hafa þeir

borið þar af öllum þjóðflokkum. Þeir hafa gengið hart fram í að draga fiskinn upp úr vötnunum, en ágóðinn af þeim veiðum hefir frekar fallið til annara en þeirra sjálfra.

Ekki undi eg lengi í nýlendunni, aðeins fjóra mánuði, og hefi aldrei þangað fæti stigið síðan. Á þeim tímum var þar ekkert nema fiskiveiðin; landið sýndist óvinnandi fyrir félausa menn, og allar samgöngur hinar erfiðustu.

## V. KAPÍTULI.

### Brandon bær.

Þegar eg kom aftur til Winnipeg, réðist eg hjá byggingamanni, sem fór til Brandon að reka iðn sína. Hafði hann jafnan 8—10 menn í vinnu.

Til Brandon komum við í maímánuði 1880. Var bær sá ungur og í feikna uppgangi, því kornyrkjuland var þar í grend hið ágætasta. Það svæði austur og vestur var talið hjartað úr landinu, enda hefir það reynst svo síðan.

Yfirmaður okkar tók byggingar fyrir ákveðna peningaupphæð (samningur). Lagði hann síðan alt byggingarefnið til, og afhenti húsið að öllu leyti tilbúið handa íbúanda. Allir, sem unnu hjá honum, gistu á sama matsöluhúsi þar í bænum.

Aðeins vorum við tveir samlandar í hópi þessum. Hét hinn Jón og var Stefánsson. Gekk hann nú undir nafninu John Stevenson. Húsbóndi okkar hét Robert McDonald.

Nokkrir landar voru þar í nágrenni, sem ýmist

unnu að daglaunavinnu í bænum eða hjá bændum úti á landi. Sömuleiðis voru tvær stúlkur þar á hóteli. Gekk önnur undir nafninu Sarah Christie, en hin undir nafninu Emma Simson. Síðar fékk eg að vita þeirra réttu nöfn; hét sú fyrtalda Sigríður Kristjánsdóttir, en hin síðar nefnda Ingibjörg Sigurðardóttir. Báðar voru þær ungar. Sigríður var innan tuttugu ára, en hin eldri. Nokkurnveginn vel held eg þær hafi hjálpað sér í enskri tungu, að minsta kosti fanst mér það gott á þeirra árum.

Stundum kom það fyrir á sunnudögum, að við Jón félagi minn vorum staddir á hóteli þessu, og þá einn eða fleiri landar, sem unnu þar í bænum.

Eitthvert afl var að draga okkur landana saman þegar við urðum varir við návist hinna. Jafnvel stúlkurnar gátu ekki stilt sig um að tala við okkur, þegar einhverjum hepnaðist að gefa þeim tilefni, sem aldrei var setið sig úr færi með. Ekki duldist það samt, að þær fundu til þess að hér voru þær ekki frjálsar í því efni. Þær voru komnar út úr sveitalífinu á Fróni. Það var eins og þær óttuðust að augu væri alstaðar að gæta að þeim.

Það er eins og það sé stundum ekki alls auðvelt fyrir ungt fólk að umgangast hvert annað svo að alt sé í bezta lagi. Ef að á að fara að leggja óeðlileg höft á manninn, verða tilfinningarnar eins og meiddar og óviðfeldnar; en aftur er vandi að gæta frelsisins þar, ekki síður en á öðrum sviðum í mannlífinu. Stundum hefir það komið fyrir, þegar óeðlilegar og ramar skorður hafa verið reistar utan um frelsi einstaklingsins, að tilfinningarnar hafa brotist út og þá ráðið öllu í fram-

kvæmdinni. Frelsi og virðing fyrir sinni eigin persónu munu heppilegustu förunautar á lífsleiðinni. —

Tvær enskar stúlkur voru líka á þessu hóteli; hét önnur Lilie Ford, en hin Clara Heys. Sömuleiðis var þar fult af ungum mönnum, bæði þjónandi og fæðisneytendum. Ekki gáfum við landarnir okkur mikið á tal við ókunna menn; mun því mest hafa valdið að við fundum til veikleika í málinu. Tíðum sáum við landarnir, þar sem við vorum saman að mæla á okkar eigin tungu, að hinir ensku litu til okkar með kímnissvip. Ætíð hvarf það samt að meira eða minna leyti við nánari kynningu; til dæmis samverkamenn okkar hreyfðu því aldrei. —

Einhverju sinni var það í septembermánuði, að við Jón fórum til hótelsins og dvöldum þar all-lengi um daginn. Vildi þá svo til að nokkrir landar höfðu komið inn í bæinn þann sama dag, sem að unnu hjá bændum þar í grendinni. Eg held við höfum verið eitthvað 7 alls komnir þar saman. Sumir af þeim voru nýkomnir frá ættlandseyjunni, og því mállausir á enska tungu. Þar á meðal var einn unglingsmaður, sem hét Magnús Sigurðsson; var hann bróðir Ingibjargar, sem áður er nefnd. Hafði hann komið um sumarið til Winnipeg og dvalið þar eitthvað; en svo leitaði hann þangað, er systir hans átti heima. Vinnu hafði hann fengið hjá bónda úti á landi og unnið við að reisa upp kornbindi og fleira. En þegar kom að því að hlaða upp bindunum, fanst honum sú vinna of erfið fyrir sig, enda var bóndi mjög eftirgangssamur með vinnuna..

Annar landi var þar einnig staddur, sem hét Sveinn Árnason; höfðu þeir komið samskipa og fylgst

að til Brandon. Sömuleiðis var hann hjá bónda þar í grendinni. Þar sem nú Sveinn var sá eini maður, sem Magnús þekti þar auk systur sinnar, tjáir hann honum af högum sínum og að hann treystist ekki að vera þarna lengur sökum þess að vinnan var honum of erfið. Hann hafði tjáð þetta systur sinni, en hún gat ekkert ráðið úr fyrir hann. Og sama var um Svein; hann var sama sem mállaus og öllum ókunnugur. En vel gat hann skilið að vinnan væri of hörð fyrir átján ára unglinr, því honum, sem var 26 ára, fanst suma heita daga sér nóg boðið.

Þar sem við Jón félagi sátum á pallskörinni framundan hótelinu, víkur Sveinn máli til okkar og tjáir okkur af högum Magnúsar. Fór hann nokkrum orðum um, að vel gert væri að útvega honum léttari vinnu. Við veittum orðum Sveins eftirtekt; aldrei höfðum við unnið þessa vinnu, en þeir, sem reynsluna höfðu, sögðu hana of harða fyrir óharðnaðan ungling, grannvaxinn og þreklítinn, eins og Magnús var að sjá. Eftir nokkrar umræður kom okkur Jóni saman um að útvega honum vinnu í bænum, svo við sögðum honum að koma næsta dag.

Þennan dag var veðrið undur fagurt og notalegt sólskin mikið en þó enginn afskapa hiti, því nú var farið að draga úr mesta sumarhitanum. Yfir september og október mánuði er veðurblíða vanalega svo mikil að eg get ekki hugsað mér betri heldur en er hér í Manitoba og Norðvestur-landinu. Næturnar orðnar þægilega svalar, stundum lítið eitt frost að morgninum. Stundum vill það samt til, að talsverðir vindar eru um jafndægra-tímabilið. Yfir október er vanalegast ágæt-

is tíð og þurrviðri; þá er safnað í kornhlöður og afurðum búnaðar snúið í gjaldeyri.

Þar sem við landarnir sátum á pallskörinni náði norðvestan blærinn alls ekki til okkar; var því talsvert heitt þarna undir skálaveggnum. Eg tók eftir því, að þeim Sveini og Magnúsi var í meira lagi óhægt af hitanum. Bæði var það, að þeir voru óvanir við heitt veður, og svo var klæðnaður þeirra helzt til óheppilegur fyrir þá; þeir voru nefnilega í þykkum vaðmálsfötum, og var þykt og sterkt fóður undir treyjunum. Allur klæðnaður þeirra var heima tilbúinn úr ull, og því haganlegri fyrir vetrar- heldur en sumartíma. Fljótt komast menn hér að raun um það, að ekki tjáir að nota sömu föt á sumrum eins og á vetrum. Slíkt var lítið tekið til greina oft í sveitum á Íslandi. Við Jón vorum komnir svo mikið inn í lífið hér, að við höfðum fengið okkur haganleg föt fyrir sumarið.

Hótelbyggingin stóð á hornlóð, tvílyft með hliðarkvisti. Voru breiðir gangpallar meðfram byggingunni, þeim megin sem að strætum sneri. Aftur var einlyft bygging frá bakhlið hússins, sem brúkuð var fyrir matreiðslustörfin.

Bar nú svo undir þar sem við sátum á pallskörinni, að við vorum rétt andspænis útidyrum á matreiðsluhúsinu. Voru þjónustustúlkur þar eða úti í garðinum, sem afgirtur var þar á bak við bygginguna. Var garðurinn þur og þokkalegur, og hafði fjölgresi vaxið upp með girðingunum, sem, þó það væri farið að fölna, gaf nokkurn ilm frá sér.

Nú var sunnudagur, og stúlkurnar máttu þá hafa dálítinn frítíma á milli máltíða.

"Sarah, komdu bara hérna og sjáðu! Hvílík firn! Hver er þessi náungi?"

"Það er einhver strákur utan af landi; hirðum ekki um hann."

"Sjáðu bara hvernig hann ber sig til; hann nýr þessum löngu vetrartreyju-ermum framan í sitt skörn-uga og viðbjóðslega andlit. Hann er með Íslending-unum. Er hann líka Íslendingur?"

"Eg veit það ekki. Eg býst við því."

Þessi orð, sem töluð voru á ensku, komu frá stúlk-unum, sem voru fyrir innan girðinguna og sem var svo há, að þær gátu aðeins séð okkur í gegn um sex-þumlunga bilin, er voru á milli rimlanna.

Eg fór að hugsa um, við hvern þær ættu, og eins hverjar töluðu í garðinum; stóð eg því fljótlega upp og gat séð þær yfir girðinguna. Voru þær þrjár, tvær enskar og Sigríður. Það var Lilie Ford, sem mest hafði talað. en Sigríður sú er svaraði.

Svo fór eg að hugsa um, við hvern hún hefði átt, og komst að því. að það var Magnús. Eg sá, að hon-um var ákaflega heitt, svo að svitinn rann í lækjum ofan andlitið. Einhverja mislita klútdruslu hafði hann til að þerra svitann. En svo tók eg eftir því, að hann brá erminni. sem var bæði víð og þykk upp, við og við að andlitinu til að þerra svitabaðið.

Aðeins höfðum við Jón skilið orðin, sem töluð voru í garðinum.

"Við skulum fara héðan," sagði eg; "það er svo heitt.

Eg tók eftir því, að Ingibjörg sat við dyrnar, sem stóðu opnar rétt andspænis okkur; hlaut hún því að

sjá og heyra alt, sem fram fór, bæði hjá okkur og í garðinum.

— — — —

"Þú ætlar að gjörast nokkuð áferðar-fagur í dag, félagi," sagði eg við Jón, þegar við höfðum rakað okkur og tekið á okkur sunnudaga klæðin, viku síðar. Hann hafði sem sé keypt sér buxur og vesti af skrautlegu og þunngerðu efni.

"Það væri nú annaðhvort, eitthvað rangt við mann sjálfan eða landið, ef maður gæti ekki keypt fötin utan á sig á bezta aldursskeiði," sagði hann.

"Satt er það, félagi, og þeim peningum getur ekki heitið illa varið, á meðan aðeins nauðsynleg föt eru keypt."

"Tókstu eftir tillitinu, sem enskurinn gaf landanum síðasta sunnudag?"

"Já; eg tók reyndar ekki mikið eftir því."

"Þegar þið sátuð á pallskörinni, stóð eg upp við vegginn og heyrði hvað þeir sögðu inni í setustofunni. Þeir voru að tala um hin þungu föt, sem Íslendingar bæru. Þá sagði einn þeirra: 'Vitið þið ekki, að Íslendingar búa norður við ísinn? Þar er aldrei sumar, að eins mikið sólskin; alt af kuldi af ísnum. Þeir lifa mest af veiði úr sjónum, og svo hafa þeir eitthvað af sauðfé, hreindýrum og geitum. Þeir búa sér til föt úr skinnunum, því þar er óttalega kalt á vetrum'."

"Já, eg hefi orðið var við, að þeir halda að þar sé alt af ís á landinu."

"Einu sinni var eg spurður að því, hvort ekki

væri hægt að ganga á ísnum á milli Íslands og Grænlands."

"Hvernig líður Magnúsi þarna í nýju vistinni?"

"Hann lét allvel af; segir það sé léttari vinna."

"Keyptir þú föt handa honum í gærkvöldi?"

"Já, eg varð að lána honum fyrir þau, því hann gat ekki fengið kaupið sitt hjá bóndanum; sömuleiðis keypti eg handa honum strigaföt. Hann hafði ekkert nema tóm ullarföt, sem eru að eins fyrir veturinn."

"Það var gott, að þú hjálpaðir honum. Af því eg fann, að þú vildir gjöra það sjálfur, skifti eg mér ekki af því meira. Ingibjörg launar þér það síðar," sagði eg dálítið brosandi.

"Ekki ætlast eg til þess," sagði hann og brá lítið eitt.

"Við ættum að skreppa yfir um í dag," sagði eg. "Þú mættir eins vel láta sjá þig þar í nýju fötunum; og svo ætti Ingibjörg að sjá bróður sinn í hans nýju fötum líka. Þú skilur, vinur!"

Eftir miðdaginn vorum við allir staddir hjá hótelinu. Sá eg það glögt á Ingibjörgu, að henni líkaði stórum betur að sjá bróður sinn nú, heldur en fyrri daginn. Eg notaði tækifæri að láta hana skilja, að Jón hefði hjálpað honum drengilega; sömuleiðis dró Magnús ekki af því, að hann hefði útvegað sér góða vist. Eg vildi gjarnan gjöra félaga mínum dálítinn greiða, því mér féll ætíð vel við hann í sambúð okkar.

# VI. KAPITULI.

## Mrs. G. Christie.

"Eg hefi sögu að segja þér, félagi, sem eg heyrði í gærkveldi," sagði Jón á sunnudagsmorguninn, þegar við vorum að rísa úr rekkju.

"Hvernig er hún?" spurði eg nokkuð forvitnislega.

"Mrs. Christe, sem við heyrðum af um daginn, er al-íslenzk og móðir Sigríðar á hótelinu. Býr hún í skála (shanty) utarlega í bænum. Hún kvað eiga þrjú börn, auk Sigríðar, á ýmsum aldri. Maður hennar, sem heitir G. Kristjánsson, vinnur hjá bændum í haust. Einhver náungi býr þar í skálaholu, sem haldið er að sé í kunnleikum við þessa kerlingu. Við stingum því hjá okkur. Sigríður er trúlofuð enskum manni þarna á hótelinu; hann heitir Mr. Brown; og svo er enska stúlkan, Miss Lilie Ford, trúlofuð öðrum, sem vinnur þar líka."

"Mér þykir þú hafa fréttir að segja, félagi; þær eru þá ekki minna en þrjár trúlofaðar á hótelinu. Það yrði svei mér hóf, ef þið slæjuð öll saman."

"Saman! Hvað meinar þú? Heldur þú, að eg sé trúlofaður?"

"Ekki þori eg að segja það með vissu, en talsverðar líkur finnast mér til að það sé í nánd, ef það er ekki fullráðið."

"Eg býst við, að eg hafi þegar talað svo mikið, að eg snúi ekki aftur að ástæðulausu og treysti forsjóninni fyrir framtíðinni," segir Jón.

"Eg get trúað því; mér sýnist Ingibjörg vera myndarleg og ráðsett stúlka."

"Það er erfitt að reikna út fyrir fram gæfu eða ógæfu í þeim efnum. Enginn vill ógæfuna í upphafinu sjá. Alt sem maður getur í því tilliti, er að forðast allan flysjungshátt og láta hreinar hvatir ráða öllum gjörðum sínum því viðvíkjandi."

"En félagi, oft hefir mér í huga komið um hagi þína. Eftir því sem eg kynnist þér betur, finst mér óskiljanlegra um hjónaband þitt, þar sem þú segir, að konan þín hafi verið vönduð og ráðsett í alla staði."

"Misskilningur getur valdið voðalegum afleiðingum, vinur; jafnvel meiri og skaðlegri, eftir því sem meira er í manninn spunnið. Það var engin afbrýðissemi af neinni tegund, sem að olli ógæfu okkar, heldur hitt, að við misskildum hvort annað, og sáum ekki fyr en um seinan afleiðingarnar."

"Ætli hann sé myndarlegur maður, þessi Mr Brown, sem Sigríður hefir krækt í?"

"Ekki lætur Ingibjörg mikið yfir honum. Sýnist hann vera frekar flysjungslegur. Eg held að hann hafi fremur krækt í hana heldur en hún í hann, eftir því sem hún (Ingibj.) segir."

"Ætli það sé ekki svo," mælti eg. "En svo mun það koma fram hér, sem oft brann við heima, nefnilega sú tilfinning, að líta upp á útlendinginn sem meiri persónu. Þetta hefir gengið í ýmsum tilfellum of langt og hér í landi er mikil hætta búin í því efni."

"Þessi svo mjög almenna tilfinning heima á Fróni, að líta upp til útlenda mannsins sem meiri persónu, að eins vegna þess að hann var útlendingur, mun eiga

rót sína framan úr öldum, frá þeim tímum, þegar konungs- og einokunar-verzlun var í landinu. Þá voru Danir sú eina útlenda þjóð, sem landsmenn höfðu nokkur kynni af. Voru það annað tveggja, verzlunarmenn eða embættismenn konungs. Þessir menn voru svo langt fyrir ofan hina undirokuðu, einangruðu og ófrjálsu íslenzku þjóð. Þjóðardramb og ráðríki var svo mikið hjá Dönum gagnvart Islendingum á þeirri tíð, að það dró alla sjálfstæðismeðvitund úr þjóðinni. Hún vandist við að þiggja alt af þeim, sem drotnum sínum, er hún gæti ekki án lifað.

Svo þegar þjóðin í heild sinni var orðin gagntekin af þessum tilfnningum, sem útvortis ánauðarbönd héldu með fullum krafti um langt tímaskeið; og með því líka, að þjóðin hafði ekki á þeim tímum næma tilfinningu fyrir því **hvað var ánauð,** hefir þetta valdið þjóðinni — helzt hinum lægri hluta hennar — bæði smán og hneyksli."

"Eg held þú yrðir góður pólitíkus, mér finst svo mikið ræðusnið á orðum þínum," mælti Jón. "En vel að merkja, eg ætlaði að segja þér nokkuð fleira. Mrs. Christie ætlar að hafa heimboð hjá sér annaðkvöld kl. 8. Er það að nokkru leyti í tilefni af því. að gömul kunningjakona hennar hefir flutt til Brandon í nágrenni við hana. Er hún gift og á tvö börn. Maður hennar heitir Jón Þorsteinsson, og hefir hann keypt gamalt húshróf þar í grend. Boðsgestirnir eru trúlofuðu pörin tvö, Clara, Ingibjörg og svo náttúrlega þessi kona, sem hún vill nú opinbera þessa trúlofun dóttur sinnar."

"Þú taldir ekki sjálfan þig," mælti eg. "Þú verður þó líklega með Ingibjörgu?"

"Nei; bæði var það, að eg var ekki boðinn, hún þekkir mig ekkert; og enda hefði eg ekki farið í svona félagslíf, sem mér er að öllu ókunnugt."

"Eg trúi því; en var Ingibjörg vel ásátt með, að þú stæðir fyrir utan þetta boð?"

"Já, hún sagðist fara, bara vegna Sigríðar."

Einhver fréttasnati var nærstaddur heimboðið, sem flutti mér það sem fram fór, og var það sem hér segir:

Stórhýsi gat það alls ekki talist, sem Mrs. Christie hafði til íbúðar; herbergin voru að eins tvö og skúr bak við; en hún hafði aukið rúmið með því að tjalda út frá skúrdyrum og flutti þangað alla lausa muni úr hinum tveimur herbergjum, svo að gestirnir hefðu betra rúm og meiri hægindi.

Þegar klukkan var hálf-gengin níu, höfðu stúlkurnar lokið við störf sín og voru nú tilbúnar fyrir heimboðið. Piltarnir höfðu líka hjálpað þeim alt hvað þeir máttu Var nú skrúðgangan hafin frá hótelinu út að bústað Mrs. Christie, sem var góður spölur yfir lítt lagða braut. Fyrst gekk Mr. Dunk og Miss Ford, þar næst Mr. Brown og Miss Christie, og síðast Misses Simson og Heys.

Þegar kom að hinu lágreista húsi, stóð Mrs. Christie í anddyri og bauð gestina velkomna. Hafði hún fá orð, en meinti meira, því nú þurfti að mæla á enska tungu, sem henni var mjög ótöm.

Þegar Sigríður hafði séð gestum fyrir sætum fór hún að hjálpa móður sinni við að bera á borð, sem

stóð þar á miðju gólfi tjaldað hvítu lérefti, er huldi hina óhefluðu leggi þess. Mikið af borðbúnaði var fengið að láni frá hótelinu, því að hjón þessi voru mjög fátæk.

Marja litla, 7 ára gömul, segir við Sigríði systur sína, þegar hún kom út í eldhúsið: "Er Mr. Brown með svarta hárið?"

"Já; hví spyrðu að því?"

"Af því eg vildi sjá manninn þinn."

"My goodness!"

"Hvað ertu að rugla, stelpa?" sagði móðir hennar, sem stóð þar nálægt.

Af því móðirin mælti þetta nokkuð byrst, þorði telpa ekki að láta meira uppi af því tagi.

Þegar íslenzku stúlkurnar höfðu raðað á borðið allskonar sælgætis-brauði og áhöldum til að neyta súkkulaðs-drykkjar, sem beið tilbúinn fyrir unga fólkið, kom húsfreyja fram að borðinu að raða til sætis.

Það stóð alveg heima, að sex gátu setið við borðið, tveir við hverja hlið og einn við hvern enda. En svo þegar átti að fara að raða í sætin, kom nokkur vandi upp. Húsfreyjan segir við dóttur sína: "Vilt þú ekki raða niður fólkinu við borðið?"

"Nei, eg vil heldur að þú gjörir það, mamma."

Gjarnan vildi húsfreyja vita af hinum heitu ungmennahjörtum slá sín viðkvæmu og titrandi ástarslög hlið við hlið. En svo áttaði hún sig á því, að eins vel mætti hepnast að gefa augunum tækifæri að senda örvar yfir borðið, svo hún segir:

"Eg ætla að láta þig, Sarah, sitja í mínu sæt." og byrjaði að skipa niður við borðið þannig: Mr. Dunk

og Miss Ford á eina hlið; Miss Heys og Miss Simson á hina hlið; Mr. Brown taki húsbóndasæti og Sarah mitt sæti." Allir sýndust hlýða þessari fyrirskipun með auðsveipni, að eins litu þau hvort framan í annað, Mr. Brown og Miss Christie.

Að eins með fáum orðum vil eg gefa lesaranum stutta lýsingu af þessu unga fólki. Mr. Brown var gildur meðalmaður á vöxt, vóg hér um bil 150 pund, með dökt hár, lítið eitt hrokkið, skarpleitur, með bunguvaxið enni; augun lágu í meðallagi út, dökkmóleit, nefið heldur þykt og stutt og hafið upp að framan; að eins bar hann yfirvararskegg.

Mr. Dunk var frekar grannvaxinn, vóg 140 pund, með ljósrautt hár og talsvert toginleitur, ennið heldur hátt, augun ljósgrá og lágu talsvert út, nefið þunt og beint, hakan mjó með yfirvararskegg.

Jungfrú Sigríður var frekar fríð ásýndum, hárið hrafnsvart, ennið breitt og bunguvaxið, augun dökkblá og kvikleg og lágu nokkuð út, kinnin slétt og nefið beint, hakan mjó niður, hálsinn mjallhvítur og lyfti höfðinu vel upp frá herðum.

Jungfrú Heys var fremur grannvaxin, með rauðbirkið hár, þunnleit og toginleit.

Jungfrú Ford var lág en þéttvaxin, kringluleit, með rauðjarpt hár, þykt og mikið, ennið fremur hátt og bunguvaxið, augun blá lágu nokkuð út, full af lífi og fjöri.

Jungfrú Ingibjörg var há og samsvarandi þéttvaxin, með ljósgult hár, ennið mikið og bunguvaxið, ljósblá augu, nefið hátt og beint, nokkuð toginleit og

hakan mjó niður, munnurinn laglegur, hálsinn langur og lyfti höfðinu vel upp.

Svo kemur húsfreyja G. Kristjánson, há og heldur flatvaxin, breið á herðarnar, sem að sátu vel upp, hárið dökkjarpt, ennið heldur lágt og flatt,, augun mógrá, nefið beint og kinnin slétt áður hold dró úr.

Þegar húsfreyja hafði rent í alla bollana súkkulaðinu, sagði hún gestina velkomna með nokkuð myndarlegri hæversku.

"Með leyfi, ungfrú Christie, má eg ekki rétta þér þessar ljómandi fallegu kökur?" sagði Dunk og leit um leið til Brown.

"Jú, þakka þér fyrir; þær eru einstaklega góðar; eg hefði sjálfsagt reynt að ná í þær sjálf, ef eg væri ekki hérna út við endann," segir hún.

"Það var nú einmitt það sem eg vissi, að þú varst komin þarna í húsmóður sætið, sem er svo erfitt til aðdráttar."

"Og þú, Mr. Brown, hvernig gengur þér að bjargast við hinn endann?"

"Þakka þér fyrir, eg held eg slarkist út af því."

"Það hefir annars verið ljóta sérvizkan í því fólki, sem fann upp á þeirri reglu að setja húsbændurna út við enda á borðinu; til dæmis, ef að þetta borð væri helmingi lengra, hvað hefðu þá húsbændurnir? Alls ekkert nema það, sem hinir af góðvild vildu gefa þeim. Eg hefi fult skap til að strengja þess heit, að verða aldrei húsbóndi, svo eg þurfi ekki að eiga á hættu með að fá fullan skerf minn við borðið," sagði Dunk.

"En hvað maðurinn getur verið tvöfaldur," sagði Brown og leit um leið til jungfrú Ford.

Allir fóru nú að hlæja við borðið og húsfreyjar líka. Börnin, sem voru úti í skúrnum og tjaldinu komu að herbergisdyrunum til að vita hvað um vær að vera.

Þegar fólkið var búið að fá góða hressingu a drykknum, sætabrauðinu og skrítlunum, færði það stólana með sér út að veggjunum.

"Komdu hingað, Marja," kallaði Brown til litlu stúlkunnar í barnahópnum. En hún sýndist ekki hafa einurð til þess.

Brown lýtur að félaga sínum og hvíslar einhverju að honum. Síðan réttir Dunk honum eitthvað, sem hinir ekki sjá hvað er.

Brown stendur á gólfinu og spyr Sigríði, hvað börnin séu mörg. "Fjögur," segir hún; "tvö systkin mín og tvö börn nágrannakonu."

Brown gengur innar á gólfið og lítur yfir þau þar sem þau drógu sig í hlé þangað sem skugga bar á þau.

"Gott, þau eru nokkuð á líkum aldri."

"Fimm til átta ára," segir húsfreyja.

"Nú ætla eg að sjá, hvert ykkar er duglegast að ná í þennan kvart; og í því rennir hann honum þvers yfir gólfið, svo hann nam staðar við vegginn.

Börnin skildu illa hvað hann mælti á enska tungu, svo að ekkert af þeim ræðst fram á gólfið. Marja skildi að vísu, en hún var svo einurðarlaus.

Húsfreyja talar til þeirra og segir: "Komið þið fram og náið í peninginn, sem Mr. Brown ætlar að gefa ykkur. Þið eruð jafn-stór, Marja og Siggi; reynið ykkur."

Við þessi fríunarorð óx þeim hugur, svo þau rendu jafnsnemma fram á gólfið. Bæði láta nú greipar sópa um gólfið utan að peningnum. Varð Siggi fyrri til að ná haldi á honum á gólfinu, en þó ekki vel búinn að koma honum upp í lófann. Beitir Marja þá allri orku, grípur um úlnliðinn og varnar honum að draga að sér hendina, sem hann hafði enn á gólfinu. Linar Siggi á takinu, svo peningurinn varð laus í annað sinn og með það sama kominn í hendur Marju. Varð nú heilmikill hlátur um herbergið.

"Það var að búast við, að svona færi. Marja dró auðsjáanlega alt afl úr Sigga. Það fer ætíð svona, þegar piltar eiga við stúlkur, þær draga alt afl úr þeim," sagði Dunk.

"Nei, eg held það sé þvert á móti," sagði Sigríður.

Auðséð var það á húsfreyju, að henni þótti mein mikið, að vera svo veik í enskunni, að geta ekki lagt orð í belg.

"Ekki er fullreynt enn; við skulum reyna þau yngri," segir Brown og rennir öðrum kvarti yfir gólfið.

Húsfreyja talar til barnanna og segir: "Þið eruð jafn-gömul, reynið þið ykkur."

Renna þau nú fimm ára gömul fram á gólfið, verða fyrst aðeins hrindingar, svo að hvorugt nær í peninginn. Loksins gat Fríða slett hendinni ofan yfir hann, en Sandi vill ekki að hún fái kvartinn, svo hann ber með hnefa sínum ofan á hendi hennar flata á gólfinu. Finnur hún svo til að hún kipti að sér hendinni og misti haldi á peningnum, sem Sandi þegar grípur. Fór Fríða að gráta og þykist hafa verið ólögum beitt.

Brown rennir enn kvarti upp að hlið hennar, sem hún grípur og sefast þar með harmurinn.

Mr. Dunk segir: "Nú stendur Siggi einn uppi félaus, sökum þess að hann sýndi kvenþjóðinni svo mikið eðallyndi. Eg ætla að leyfa mér að bera fram þá uppástungu, að Mr. Brown gefi Marju kvart og að hún fari með hann og leggi í hönd Sigga og kyssi hann jafnframt."

"Eg styð það," segir Brown og réttir Marju kvartinn. Var nú leiknum lokið og varð heilmikið gaman að.

Sigríður, sem hafði orð fyrir móður sína við enska fólkið, gjörir því nú kunnugt, að kaffi sé til reiðu handa því. Er nú sezt að borðinu í annað sinn, og meira af dýrindis brauði og ávöxtum borið fram. Voru allskonar myndir á brauðinu, svo sem hús, barnakerrur, borðbúnaður, letur og fleira, sem fólk hefir sér til gamans. Sömuleiðis hafði verið sett í smábrauðið hringar, hnappar og svo framvegis. Var nú sama niðurröðun við borðið eins og í fyrra skiftið. Gerði nú unga fólkið ýmislegt sér til gamans, til dæmis réttir Dunk að Ingibjörgu disk með smábrauði og lætur af ásettu ráði eina köku falla á diskinn hjá henni: "Æ, hvaða ólag var þetta? Þessi kaka hefir endilega átt að fara til þín, Miss Simons." Þar var barnskerra mótuð ofan á.

"Þakka þér fyrir, en má eg ekki bjóða þér eitthvað í staðinn, Mr. Dunk?"

"Jú, sjálfsagt; eg tek alt með þökkum."

Ingibjörg réttir honum kökur, sem þær höfðu búið til sjálfar. Fer þar á sömu leið, að ein kakan fellur

ofan á diskinn hjá Dunk, og sem verður hans hlutskifti.

"Ha, hvað er þetta?" segir Mr. Dunk, þegar hann er að éta kökuna, og skirpir út úr sér hnappi ofan á diskinn.

"Ja, lítið bara á," segir Miss Ford, sem sat við hliðina á honum. "Nú lízt mér ekki á framtíð þína, herra Dunk."

"Og eg kæri mig þá kollóttan; eg set mig þá niður hjá einhverri piparmeynni," segir Dunk og lítur framan í Miss Heys.

"Ekki get eg varist því," segir Brown, "að finna til þess, að vinur minn leggur meiri alúð við að hjálpa þeim sem fjær honum eru, heldur en sessunaut sínum. Með leyfi, má eg ekki bjóða þér eitthvað, Miss Ford?"

"Jú, þakka þér fyrir."

Tekur hann þá disk þar með smákökum og réttir að henni; vill hún fá að velja úr kökunum, sem allar voru með myndum og letri. Þegar hún var að fara sínum nettu og mjúku fingrum um þær, dettur ein ofan á diskinn hjá henni.

"Nú er sjálfkjörið, þessa köku verður þú að hafa, Miss Ford."

"Eg óska þér til lukku," stóð á kökunni.

"Eg átti von á því, að þú værir í lukkunnar sæti," segir Brown.

Þannig gengu smáskrítlur fram og aftur um borðið æði langa stund.

Þegar gestirnir höfðu fengið löngun sinni fullnægt af góðgæti í mat, drykk og skrítlum, hurfu þeir frá borðinu og kom nú saman um að ganga út í nætur-

kulið, sem engan sakaði, og eyða nokkrum tíma þar í félagslífinu. Þetta kveld átti að verða þeim til skemtunar hvort sem var.

Nokkrir runnar voru þar í nánd, sem unga fólkið hvarf á bak við. Stjörnuljós var nokkurt og heiðskírt veður.

Þegar unga fólkið hafði rýmt herbergið, var eins og jafnframt rýmdist um í hugarfylgsnum húsfreyju. Hún hafði þó eina manneskju eftir, sem gat veitt móttöku því sem hún vildi öðrum miðla. Þeir, sem þektu hana vel, gátu rent grun í, að hún hefði ekki setið hjá þegjandi, ef að enska málið hefði ekki staðið í vegi.

"Við skulum nú fá okkur ærlegan kaffibolla á meðan unga fólkið er úti, Margrét mín," sagði hún og tók kaffikönnuna með sér yfir að borðinu.

"Sýnast þér ekki þessir menn myndarlegir, Margrét," hélt hún áfram.

"Jú, eg hefði nú sagt það. Það eru víst mentaðir menn."

"Já, auðvitað; þeir komu hingað frá London á Englandi. Mr. Brown heldur alla reikninga á hótelinu og svo eru þeir í veitingastofunni."

"Hún er heppin, hún dóttir þín, að fá svona myndarlegan mann."

"Já, eg vona það verði; þó hún sé fátæk, hefir hún þá kosti, sem Mr. Brown hefir gengist fyrir. Hún er mesta myndarstúlka í öllum verkum. Frúnni þykir svo undur vænt um hana. Eg segi það líka satt, eg hefði ekki getað vitað það, að hún Sarah mín hefði átt einhvern þennan íslenzka durg. Hún ætti ekki að ganga í sporin hennar móður sinnar."

"Það er ekki von, að aumingja Íslendingar geti jafnast á við Englendinga. Þeir kunna ekki málið. Og svo gengu þeir ekki á skóla heima," segir Margrét.

"Já, eg hefði nú sagt það; þeir kunna ekkert verk, nema að böðlast í þessum verstu verkum, og hafa þó aldrei ofan í sig og sína. Ætli það sé munur, hvernig þær hafa það, ensku frúrnar hérna, eða við. Mér verður ilt að hugsa til þess. Eg vona hún Marja litla verði líka hepnari en svo. Ef að eg lifi, reyni eg að sjá um það."

"Það er nú munur með þá, sem alast hér upp; þeir ættu að hafa völ á betri kostum, heldur en hinir eldri. Ætlar ekki dóttir þín og þessi Mr. Brown að gifta sig í haust?"

"Ekki veit eg það, eg hefi aldrei spurt hana beinlínis að því. Eg býst við þeir slái saman, Mr. Brown og Mr. Dunkan. Það er alt svo fjarska samrýmt eins og einn maður. Eg hefi alt af búist við, að það gifti sig einhvern tíma fyrir næsta vor."

"Kannske Mr. Brown sé að hugsa um að verða kaupmaður?"

"Það er nú einmitt það; hann á ríkan föður heima á Englandi og getur haft nóga peninga."

"Þá ættuð þið að geta lifað þolanlegu lífi; þau víst hjálpá ykkur eitthvað."

"Eg veit hún Sarah mín hjálpar mér eitthvað, þegar hún er orðin rík; en við þurfum svo mikið, meðan hann Mundi minn er svona ungur; hann er ekki nema 14 ára, drengurinn. En hann verður einhvern tíma að manni, drengurinn sá; hann er alveg eftirmyndin hans föður míns sáluga. Eins er Sarah mín; hún er líkust

í mína ætt. Eg vona hin yngri verði að mönnum líka."

"Það er heldur lagleg stúlka, þessi Ingibjörg, Emma, ætlaði eg að segja; ætli það sé satt, að hún sé trúlofuð?"

"Já, Sarah segir það muni vera svo. Hún gat ekki átt völ á miklu. Hún er alveg ómentuð."

"Já, ,eg held þær séu það flestar, íslenzku stúlkurnar," segir Margrét.

"Það er samt kannske munur, hvert þær eru vel greindar. Ekki tók það Söru mína lengi að læra enskuna. Ingibjörg er samt allgóð stúlka; hann kvað geta smíðað, þessi piltur hennar. Hann er líklega með þeim skárri; eg hefi aldrei séð hann. Þeir eru allir svo fátækir, Íslendingarnir; konurnar hafa ekkert til að lifa á og verða að ganga alls á mis."

Þegar hér var komið samræðum með konunum, komu gestirnir upp að húsinu aftur. Kom þeim öllum saman um, að fá sér hlýjan kaffibolla áður þeir legðu á stað heim að hótelinu.

Þegar Brown kemur inn í húsið, víkur hann sér að húsfreyju og segir: "Þetta er dýrleg nótt. Það er alt svo indælt og viðfeldið. Eg vildi gjarnan hafa fleiri nætur líkar þessari."

Jafnvel þó að húsfreyja skildi lítið í ensku, gat hún þó ráðið í meininguna og sagði: "Það er gott."

Þegar fólkið var að drekka kaffið í síðasta sinni og ætlaði að fara að leggja af stað yfir að hótelinu segir Mr. Dunk við Miss Simon: "Þú dæmdir mig í kvöld til að verða einbúi í framtíðinni; slíkt kalla eg ósanngjarnt, nema þú bætir eitthvað úr þeim kjörum

mínum; og þá vil eg nú segja þér hvað það er, nefnilega að kenna mér að búa til kaffi á íslenzka vísu. Og þá skal eg drekka ósleitið kaffi. Eg býst við, að þú munir þitt ætlunarverk, sem sé, að láta ekki kerruna standa alt af tóma. Með það skal eg vera þér drengilega hjálplegur."

"Mr. Brown, hefir þú enga heitstrengingu að bera með þér héðan frá borðinu?"

"Jú, Miss Heys tróð upp á mig húskofa í kvöld; nú strengi eg þess heit, að láta hann ekki standa auðan mörg ár. Enn fremur, þar sem í hennar hluta kom upp borðbúnaður og þar á meðal ljómandi falleg skeggbollapör, strengi eg þess heit, að vera henni hjálplegur með að útvega hæfilega persónu að taka þátt í borðhaldi með henni."

Allir gestirnir kvöddu húsfreyju með hinni mestu kurteisi og óskuðu heimili hennar heilla og hamingju. Mr. Brown og Sigríður voru síðust. Tók hann í hönd húsfreyju, hneigir sig djúpt og segir: "Eg vona alt sé í góðu lagi, húsfreyja."

Þegar gestirnir voru farnir, segir húsfreyja við Margrétu: "Af því nú er liðið svo fram á nóttu, ættir þú að vera hér til morguns. Krakkarnir geta öll verið saman, farðu að koma þeim í rúmið, sem stendur þarna inni; eg kem bráðum að setja hitt upp handa okkur."

Húsfreyja settist á stól í fremra herberginu og lét tjaldið falla niður, sem aðskildi þau að miklu leyti. Fer hún að tala við sjálfa sig á þessa leið: "Það er auðséð, að Mr. Brown er af höfðingjafólki kominn; hann er eitthvað svo höfðinglegur, hvar sem maður

lítur á hann. — Hann hefir ekki beðið mig um h
enn — kannske hann ætli ekki að gjöra það. — 
þó móðir hennar, þó fátæk sé, og mér finst að h
mætti þó nefna það við mig. Eg veit að Sarah h
sagt honum, að eg væri því samþykk. En, samt h
eg kunnað betur við, að þau bæði hefðu talað
það við mig. Því, þó að eg skilji lítið í ensku, h
Sarah getað hjálpað mér, það sem eg skildi ekki sjá

Margrét kemur nú fram og segir: "Krakk
eru nú öll komin ofan í rúm og sofnuð."

"Það er gott; við ættum líka að fara að sofa.
En," bætti húsfreyja við og dró þungt andtak
leið — "mér finst eins og eg muni ekki sofna s
Ertu mjög syfjuð, Margrét mín?"

"Nei, ef þú vilt, góða mín, þá get eg vakað d
stund með þér. Kannske þú viljir það?"

"Já, bara dálitla stund. Eg var að hugsa um l
hvað það er manni erfitt."

"Já, það er von, auminginn, að þér finnist þ
fátæktin. En svo vona eg, að bráðum rætist úr
þér. Guð þekkir ætíð sína."

"Já, eg veit að hann hefir heyrt bænir mínar
hún Sarah mín verður þá lánsöm; eg vona að h
Marja mín verði það líka. Eg hefi oft óskað þess
þær fetuðu ekki sporin hennar móður sinnar. M
dagar verða alt af dimmir. 'Þungt er að vera í þ
dóm bundinn'"

"Ó, það batnar nú alt saman, þegar Sarah gif
Mr. Brown lætur smíða handa ykkur betra hús, og þ
sem hann verður kaupmaður, þá ætti ykkur ekki
vanta það sem þið þyrftuð að borða. Og svo

Mundi og Gunnlaugur að vinna. Þú ættir ekki að víða fyrir framtíðinni. Hvað heldurðu að þú segð-, ef þú værir í mínum sporum?"

"Eg hefi verið svo gjörð, að eg hefi aldrei getað gert mér gott af öllu. Sumir finna ekki til þess, hvernig það er með þá."

"En svo er ekki til neins að ergja sig yfir því, sem ekki er hægt að bæta úr. 'Guð gjörir fátækan og ríkan.' Og við Jón minn vildum þó heldur fara til Ameríku, hvað sem við tæki, fyrir börnin okkar. Þau áttu, aumingjarnir, ekki kost á öðru en að verða vinnuhjú þar, þegar þau kæmu upp, eins og allir sem fátækir eru heima. Ef hann Jón minn heldur heilsunni, þá veit eg að hann gjörir alt hvað hann getur fyrir okkur. Hann hefir nú býsna gott kaup—dollar og hálfan á dag. Það hefði þótt gott kaup heima. Hann segir, að vinnan sé líka erfið við þessa þreskingu."

"Það er nú það, þessir Íslendingar geta ekki unnið nema þessa erfiðustu vinnu; verða þeir því strax kengbognir og uppgefnir. Það má líka þekkja þá langt til á gangi. Það er eins og þeir ætli að stíga ofan úr jörðinni. Hann Mundi minn ætlar ekki að þræla alla sína æfi hjá bændum. Hann lærir einhverja "treit", sem hún Sarah segir að sé kallað í bæjunum."

"Heldurðu þú yrðir þá ekki ánægð, þegar hann væri orðinn mikill maður í bæ og dætur þínar að frúm?"

"Eg held eg lifi ekki til að sjá það."

"Ó, segðu ekki að tarna. Þú sem enn ert á bezta

aldri. Þú átt nú eftir að verða efnuð kona hé
Brandon."

"Það er nú eitthvað annað en svo. — Eg er
illa bundin til þess. Mínir dagar verða alt af dim
ir," sagði húsfreyja og stóð upp af stólnum, sem h
hafði setið á.

Ekki er mér kunnugt um drauma Mrs. Chris
þessa næstu nótt, en líklegt þykir mér samt, að þ
hafi verið eitthvað á þessa leið:

Henni birtust tvö mjög svo ólík málverk af m
lífinu. Tvær myndir voru í nánd við hana. Önn
var skuggaleg og viðbjóðsleg, en hin mjög geðfe
Ekki gat hún drifið þenna draumanda frá sér, hv
fegin sem hún hefði þó orðið því. Nei, það var e
og einhver forlaga-norn hefði dæmt hana til að kve
ast. Hinn viðbjóðslegi andi hræddi hinn í burtu, se
hún hugði sér myndi heill af hlotnast. — Svo sá hún
fjarlægð börnin sín með broshýr andlit í fallegum
nettum klæðnaði innan um ungt og tígulegt fólk. Þ
sáust engir dökkálfar, alt brosfagrir ljósálfar.

## VII. KAPITULI.

### Bréfið.

Það var seint í Október, er við Jón komum t
vinnu, að húsráðandi, þar sem við héldum til, sýn
okkur bréf, og spyr okkur jafnframt, hvort við kön
umst við þessa áritun:

Mr. Sigurður Magnússon,
Brandon, Manitoba, Canada.

Strax sá eg, að bréf þetta var ekki frá bræðrum mín

um eða öðrum, sem áður höfðu skift bréfum við mig af Fróni. Eg hafði gefið þeim það nafn, sem eg gekk hér undir, nefnilega: S. Macson. (Eftir þetta tók eg upp mitt rétta nafn: Sigurður Magnússon). Bæði var það, að eg hálf partinn kannaðist við rithöndina utan á bréfinu, og svo vissi eg ekki af neinum landa þar í nánd, sem þetta nafn bar. Svo eg opnaði það. Fljótt sá eg hvaðan það var, og með því að margir voru í kring, stakk eg því strax í vasa minn. Þegar við höfðum neytt kveldverðar, gekk eg út og á afvikinn stað til að lesa bréf þetta.

Af því eg hefi skýrt frá öllum aðal atriðum æfi minnar, fram að þessum tíma, vil eg ekki fella þetta bréf undan, sem að hljóðar á þessa leið:

"Hólar, 5. ágúst 1880.

Herra Sigurður Magnússon,

Brandon, Manitoba, Canada.

Háttvirti heiðursmaður!

Aldrei hefi eg fundið eins mikið til vöntunar á orðum, eins og einmitt í þetta sinn. — En af því eg finn, að nauðsyn ber til, verð eg að ráðast í að rita bréf þetta.

Þar sem við bárum ekki gæfu til að njóta hreinnar og heitrar ástar saman, og í staðinn fyrir að sefar okkar hefðu átt að renna saman við sambúðina, fjarlægðumst við æ meira. — Þar sem nú það eina og helzta band er slitið fyrir löngu síðan, er okkur báðum nauðsynlegt, að hið lagalega band sé einnig slitið. — Í því trausti, að þú lítir svo á, að það sé báðum fyrir beztu, vil eg biðja þig að gefa mér fullt leyfi til skiln-

aðar og afsala frá þinni hálfu öllu tilkalli til mín sem konu þinnar að lögum. Sigga mín biður að heilsa föður sínum og segist ætla að skrifa honum, þegar hún sé orðin stór.

Líði þér ætíð vel,

Ingibjörg Kristjánsdóttir."

Þegar eg hafði lesið bréf þetta, settist eg niður bak við runna, sem var á milli mín og matsöluhússins, svo að enginn sá mig þaðan.

Vel gat eg skilið ástæður fyrir því, að Ingibjörg ritaði bréf þetta. Mátti líka vel vera, að hana hafi rekið nokkur nauður til. Eg sá að hún var enn á Hólum og hafði verið bústýra hjá Stefáni síðan hann misti konu sína. Tilfinningar mínar til Ingibjargar voru eitthvað á þessa leið: Eg ber engan kala til hennar, þvert á móti. Fyrsta tímabilið, á meðan við vorum að skilja, og eg að fara af landi burt, var eg ákaflega sár og gramur. Þá fanst mér hún vera alt of hörð. Dæma mig of strangt, eftir sínum eigin tilfinningum, þó hún jafnaðarlega viðhefði engin stóryrði. En svo eftir að eg var kominn til þessa lands og hin breytilegu og mjög svo ólíku lífskjör höfðu talsverð áhrif á mig á þann veg, að gleyma sem mest öllu mínu liðna lífi. Nokkuð voru tilfinningar mínar á annan veg, um land þetta og lífið hér, heldur en eg varð var við hjá sumum löndum mínum fyrstu árin. Mörgum af þeim fanst, að þeir verða hér fyrir vonbrigðum. En svo er þess að gæta, að eg var í alt öðrum kringumstæðum heldur en þessir menn. Eg var einn, á bezta aldursskeiði, en þeir höfðu fjölskyldur, konur

og meira og minna af ungum börnum. Þessir menn voru hér undir þeim erfiðustu kringumstæðum, sem að nokkur heilbrigður maður gat verið.

Eftir því sem hugur minn drógst meira inn í lífið hér og frá hinu umliðna, eftir því breyttust tilfinningar mínar í garð Ingibjargar. Eg fór að skoða það eins og ógæfu, sem eg hafði athugunarlaust ratað út í, og ekki séð hættuna fyr en of seint. Eg skoðaði það sem misskilning, já voðalegan **misskilning.**

Nú fanst mér, að tilfinningar mínar bjóða mér að verða við tilmælum Ingibjargar. Það gæti orðið henni til góðs. Mætti vera, að hana varðaði það miklu. Hún var mér töpuð og hví skyldi eg vilja gjöra hana ógæfusama alla hennar æfi? Ekki gat eg varist því, að finna til þess, að Stefán var ekki jafningi minn í ýmsu tilliti. En hann var geðprúður maður í lund, og mundi virða og elska Ingibjörgu, og það mundi vega meira.

Eg man það, að á þessari stundu hafði eg eina ósk eða tilfinningar-þrá í hjarta mínu, og hún var, að sjá barnið mitt, nafnið hennar móður minnar sálugu, hér fyrir vestan hafið. Eg man það, að eg ásetti mér að sækja hana sjálfur, ef að eg fengi hana ekki öðru vísi, þegar eg þættist hafa ástæðu til að veita henni móttöku.

Næsta dag sendi eg Ingibjörgu samþykki mitt og fullgildandi leyfi fyrir hana til að ná fullum skilnaði að lögum á Íslandi.

# VIII. KAPITULI

## Lögmál lífsins.

Lífið er óstöðvandi framrás. Þó að einn falli, dregur það ekkert úr eðlisframsókn þess næsta. —

Það var komið fram um miðjan nóvember. — Eitt laugardagskvöld, þegar við gengum úr vinnu, segir húsbóndi okkar við okkur: "Komið yfir að skrifstofunni í kvöld; eg ætla að borga það sem eg skulda ykkur. Og læt ykkur jafnframt vita, að eg get ekki gefið ykkur vinnu lengur. Eg ætla að hafa að eins fáa menn næstu viku, að fullgera þessi tvö hús, sem eru í smíðum. Verða það síðustu húsin, sem eg bygg í Brandon í þetta skiftið. En eg kem aftur næsta vor og þá vil eg gefa ykkur verk, ef þið verðið í nánd."

Þetta sama kvöld, þegar við Jón vorum komni inn í svefnherbergið okkar, fórum við að ræða saman um framtíð okkar, hvað fyrst ætti nú upp að koma. Hann segir:

"Þú ætlar að hjálpa mér til að byggja húskofann ef eg get fengið efnið í hann?"

"Já, sjálfsagt; eg hefi lofað þér því."

Svo fórum við að tala frekara út í það mál. Sagði hann mér, að þeim Ingibjörgu hefði komið saman um að giftast fyrir jólin, ef hann gæti komið upp húsinu handa þeim. Auðvitað var það að eins smáhýsi (Cottage), sem hér var um að ræða.

Hún ætlaði að vinna á hótelinu á daginn eins fyrir það þó þau færu að lifa saman, að minsta kosti fyrst um sinn. En aftur, ef hann hefði arðlitla vinnu, sem

hann bjóst við um miðjan veturinn, yrði honum kostnaðarminna að hafa þannig fæði af sínu eigin.

Svo fórum við að tala um minn eigin hag; hafði hann orðið þess var, að bóndi einn þar úti á landi vildi fá mig yfir veturinn. Fórum við nú frekar að ræða um það efni. Sagði eg honum, að bóndi þessi, sem heitir Harry Morris, ætti heimili átta mílur frá Brandon. Hefði hann gamalt bjálkahús, sem hann hefði bygt, er hann kom fyrst á land þetta. Vildi hann helzt ráða mig á þann veg, að eg ynni að smíðavinnu, þegar tíð og hentugleikar leyfðu, en svo þess á milli við ýms heimilisstörf, sem hann sagðist hafa ætíð þörf fyrir.

Bæði var það, að mér leizt vel á þennan mann, enda hafði hann gott orð á sér hjá bæjarbúum, og svo hitt, að eg bjóst ekki við að hafa arðsama vinnu hér í vetur, svo eg réðist til hans, eftir að smíðavinnu í Brandon væri lokið, fyrir $15.00 um mánuðinn, fram að marzmánuði. Um lengri tíma var ekki samið að sinni.

"Gjarnan vildi eg þú færir ekki úr bænum fyr en við Ingibjörg værum komin í hjónaband, þar sem þú ert sú önnur persóna, sem eg hefi nokkra skemtun og ánægju af, mælti Jón.

"Eg vildi það gjarnan líka, kunningi" svaraði eg. "Við setjum upp kofann fyrst og sjáum svo hvað gengur."

Réttum tveimur vikum eftir þetta samtal barst sú fregn út um allan bæinn, að þrenn hjónaefni ætluðu að tengja saman hin helgu hjúskapar bönd síðdegis þann dag. Brúðhjónaefnin voru: Mr. W. C. Brown og Miss Sarah Christie, Mr. F. D. Dunk og Miss Lilie

Ford, Mr. John Stevenson og Miss Emma Simon
Öll brúðhjónaefnin voru talin til heimilis á hótelinu
þar sem hófið átti að haldast um kvöldið. Hjóna-
vígslan fór fram í kirkju þeirri, sem bærinn hafði
þegar reist þar; var það frekar laglegt hús.

Hjón þau, sem réðu fyrir hótelinu, stóðu fyrir öll
framreiðslu við brúðkaupsveizluna, enda voru þau
flest vinir þeirra og vandamenn sem boðnir voru.

Mrs. Christie, móðir Sigríðar, var þar, en Gunn-
laugur faðir hennar sást þar ekki. Vel gat maður séð
það á Guðríði—það var hennar rétta nafn—, að hún
fann til þess, að hún gat ekki vel notið sín í þessu fé-
lagi. Kom það helzt í ljós þegar hún vildi tala eitt-
hvað við húsmóðurina. Varð samtalið mjög sundur-
slitið, því orð vöntuðu víða á milli og aftur orð ó-
heppilega valin. Húsmóðirin, sem kölluð var Mrs.
Collin, lét ekkert bera á, að hún findi nokkuð til þess.

Ánægjan og fögnuðurinn hjá Guðríði brauzt svo
út í gegn um hin kviklegu augu og hlæjandi andlit, að
maður gat nokkurn veginn lesið hugsanir hennar, þar
sem hún sá nú dóttur sína hefjast upp í þessa miklu
tign: Ensk frú! Kaupmannskonan Mrs. Brown! Og
það var ekki að eins þessi eina dóttir hennar, sem að
naut þessa tignarljóma frá Mr. Brown, heldur lagði
birtu hans á hin börnin hennar. Að vera komin í
svona náið samband við þennan mentaða og ríka
herramann, hlaut að verða þeim til frama og frægðar.

— — — —

Daginn eftir að Jón félagi minn hafði flutt með
konu sína í litla húsið, sem við höfðum bygt handa
þeim, fór eg með Mr. Morris út á land, þar sem hann

átti heima. — Kona hans, sem líka var af kanadiskum ættum, virtist mér mjög kurteis og alúðleg í framkomu sinni. Áttu þau 4 börn, sem öll voru á bernskuskeiði.

Þessi nýi húsbóndi minn var maður á góðu aldursskeiði, hér um bil hálfs fjórða tugar ára gamall, en kona hans var mikið yngri. Höfðu þau flutt þangað frá Ontario-fylki fyrir 6 árum síðan.

Heimili þetta og búnaður var það fyrsta sýnishorn af hérlendum búnaði, sem eg hafði enn séð í þessu landi. Auðvitað var hann enn að sumu leyti á frumbýlingsstigi í samanburði við það, sem nú viðgengst hér í landi. En þrátt fyrir það gaf það mér nokkurn veginn ljósa hugmynd um búnaðarháttu þessa lands, þar sem hann væri kominn á fastan fót. Enda skýrði húsbóndi minn nákvæmlega margt viðvíkjandi búnaði í Ontario-fylki.

Ekkert fanst mér eins mikils um vert í breyttum búnaðarháttum þessa lands eins og það, hve mikið verk lá eftir manninn hvern daginn. Þetta sá eg glöggast, þegar eg sá og reyndi það sjálfur næsta sumar á eftir hjá þessum sama bónda. Þá voru öll verkfæri þó svo mjög ófullkomin í samanburði við það sem þau eru nú á tímum. Slíkt þolir engan samanburð. Þegar eg fór að vinna með hrossunum hérna, vaknaði eg til meðvitundar um það, hvað hesturinn er nauðsynlegt dýr fyrir manninn. Oft hafði eg heima á Fróni fundið hlýja tilfinningu hjá mér til hestsins, sem bar mig svo lipurlega yfir ár og keldur, fjöll og firnindi. Eg skoðaði reiðhestinn minn oft sem bezta vin minn. En, þegar eg fór að vinna með hestunum

hérna, fanst mér enn þá sterkari ástæða fyrir manninn að skoða hestinn sem bezta vin bóndans, þar sem hann ekki að eins tekur þann erviðasta hluta af verkinu, heldur líka vinnur margfalt meira. Þegar eg fór að bera þetta saman við það, sem eg hafði áður vanist á Fróni, varð eg hugsi. Hér á bóndinn tvo fallega hesta, og hann fer vel með þá, gefur þeim gott fóður og hirðir þá vel. En þeir vinna alt af með honum. Já, vinna meira heldur en tveir röskir verkamenn,—tvöfalt meira. Vinna sú, sem framleidd er með afli hestsins, verður svo mikið ódýrari heldur en hin, sem fram er leidd með afli mannsins. — Þetta var eitt af því fyrsta, sem eg tók eftir, þegar eg fór að kynnast landbúnaði hér. Hér var ekki að ræða um margbrotnar vinnuvélar eða verkstæði, sem útheimti mikinn höfuðstól (peninga). Nei, alls ekki, að eins mjög einföld áhöld. Og hrossin voru gjarnast alin upp af eigandanum.

Það var einhverju sinni í febrúarmánuði, að Mr. Morris var að segja mér ýmislegt af búnaði og viðskiftalífi bændanna í Ontario-fylki. Fann eg að hann áleit nauðsynlegt fyrir bændur, að vera sem mest óháða verzlunarmönnum. Þóttist hann hafa reynslu fyrir því, að þeir bændur, sem hefðu forðast skuldaverzlun, hefðu jafnaðarlegast komist í góð efni, þótt fátækir hefðu verið í fyrstu. Mundi að miklu leyti orsökin liggja í því, að þeir keyptu aldrei annað en nauðsynjavöru.

Félagsskap meðal bænda í verzlunarmálum áleit hann nauðsynlegan. En aftur sýndi reynslan, að hann gæti aldrei þrifist. Bændur væru svo skammsýnir.

Í sambandi við þetta sagði hann mér frá félagi, sem að nokkrir bændur hefðu gengið í sín á milli. — Væri það fullkominn félagsbúskapur, eftir því sem hann hafði heyrt. — Fórum við nú að tala um samvinnu og félagsskap frá ýmsum hliðum og komumst að þeirri niðurstöðu, að þar væri margt með og móti. — En þrátt fyrir það langaði mig til að kynnast fyrirkomulagi á þessum félagsskap, sem Mr. Morris sagði mér af.

Með því að tíminn var ekki mjög verðmætur um þetta leyti árs, og ferð þangað ekki mjög kostnaðarsöm, ásetti eg mér að fara og vita gjörla um alt fyrirkomulag á þessu óvanalega bændafélagi. Svo eg lagði á stað, þegar umsaminn tími var útrunninn hjá Mr. Morris. Sagði hann mér, að einn Íslendingur væri þar, sem héti Ole Anderson (Ólafur Árnason).



# Þriðji Kafli.

## I. KAPITULI.

### Ólafur Árnason.—Samvinna (Co-operation).

Eg spurðist nú fyrir um Ólaf Árnason, því hann vildi eg finna fyrst, sem mér líka gekk greiðlega. Var hann hinn alúðlegasti og dvaldi eg þar yfir nóttina.

Eins og áður er minst á, var mér mikil forvitni á

að vita sem gerst um alt fyrirkomulag á þessum lagsskap. Bið eg nú Ólaf að skýra mér frá myn félagsins og öllu fyrirkomulagi þess.

Olafur byrjar svo: "Alls vorum við sex, stofnuðum þetta félag fyrir fjórum árum. Nú e við átta; tveir gengu inn í félagið ári síðar.

Við sömdum lög fyrir félag vort eins og h annað sameignafélag; kusum þriggja manna ne þar á meðal forseta og skrifara. Samkvæmt lögur gat hver sem vildi gengið í félagið, á hverjum tí sem var, með samþykki félagsmanna. Var for skyldur að kalla saman félagsmenn á fundi og leg fram beiðni umsækjanda til atkvæða. Réði m hluti atkvæða úrslitum.

Allar eignir hans voru virtar eftir gangverði sve arinnar. Viðvíkjandi löndum var sú regla viðtel að löndin sjálf voru ekki virt, heldur verkin bæð yrkingu og byggingum. Átti grein sú við heimilisr arlönd, þar sem landið sjálft var ekki keypt við ve Aftur sagði önnur grein: "Ef að einhver gengur in félagið, sem á land, er hann hefir keypt, og borg sumpart með peningum og sumpart með veðskul bréfi, þá skal það land vera keypt og borgað af laginu.

## Skyldur félagsmanna.

1. Félagið skal sjá um að hver félagslimur fái al nauðsynjar til fæðis, klæðis og húsaskjóls fyrir sig fjölskyldu sína, án tillits til þess, hvað miklar eig hann lagði inn í félagið. Sömuleiðis læknishjálp barna uppfræðslu. Með hærri skóla fræðslu átti

fara eftir verðleikum ungmenna, samkvæmt vitnisburði frá kennurunum í barnaskólum.

2. Allir félagsmenn voru skyldir að leggja fram alla þá vinnu, sem heilsa þeirra leyfði.

Þetta voru aðal atriðin í lögunum.

Þar næst spurði eg Ólaf að því, hvernig þeim hefði reynst þessi félags-búskapur á þessum fjórum árum, sem liðin voru síðan þeir byrjuðu. Hann segir:

"Fyrir mitt leyti get eg sagt, að eg er vel ánægður. Eg get ekki hugsað mér, að eg hefði getað haft eins gott og þægilegt líf undir öðrum kringumstæðum. Við skiftum með okkur verkum, eftir því sem þægilegast og haganlegast var fyrir hvern okkar að vinna. Eg og annar félagi vinnum mest að húsabyggingum; og þar sem við vinnum lítið annað árið um kring, höfum við miklu komið í verk. Hinir þurfa meira að skifta um verkin, þó eins lítið og hægt er að komast af með.

"Okkur hefir komið saman um það, að við átta komum eins miklu í verk eins og tólf mundu gjöra, með því að hver einn þyrfti að vinna öll verkin. Þetta kemur alstaðar fram, jafnt við hirðing á búpeningi eins og annarsstaðar . Enginn tími eyðist í gagnslausa snúninga. Viðskiftareikningar eru haldnir; yfirskoðaðir og samþyktir. Það sem búið vex, er ágóði félagsins."

"En ef einhver vill nú flytja í burtu, annað hvort af nauðsyn eða af fríum vilja, hvernig fer þá?" spurði eg.

"Þá er aðgætt hve mikið hann á í félaginu. V.rð
ing fer árlega fram og ágóði, miðað við prósentu
lagður við höfuðstól hvers félagslims. Þetta að und
anteknu landinu sjálfu er honum borgað af félaginu.

"Getur þú gert þér grein fyrir því, hvort svona
félags-búnaður og samvinna gæti þrifist um alt land?

Hann segir: "Eg hefi talsvert athugað þetta mál
og komist að þeirri niðurstöðu, að það sé ekki hugsan
legt að öðru leyti en því, að menn geti fleiri eða færri
eftir frjálsu samkomulagi, tekið upp þennan búnað
undir gildandi landslögum, sem væri þá samkyn
hverju öðru starfrækslu hlutafélagi, sem hægt væri að
stofna og leysa upp eftir atvikum. Ástæðurnar fyrir
því, að svona búnaður getur ekki þrifist yfirleitt, eru
auðvitað margar, og alls ekki nema með frjálsum vilja
einstaklingsins. Eg vil nefna að eins þær helzt
Fyrst er, að upplag og atgjörvi manna er svo ólíkt
bæði hjá karli og konu, til dæmis: sumir eru áhuga
og framkvæmdarmenn, þrekmiklir og ósérhlífnir; þeir
vilja vera sjálfstæðir, þeir vilja byggja upp land og
lýð. Þessir menn geta ekki fylgst með kærulausum
letingjum. Líka eru aðrir svo skaðlega eigingjarnir
að þeir svífast ekki að fórna annara vellíðan fyrir
sína eigin ímynduðu sælu. Þessir menn koma hvergi
fram félagshollir, heldur gjarnast eyðileggja það.
Bezt að láta þá renna lausa, elta af sínum eigin á
stríðum.

## Staðhættir.

"Viðvíkjandi landbúnaði er ómögulegt að hugsa
sér, að menn geti yfirleitt búið svo haganlega og þet

saman, að samvinna geti alstaðar komið að góðu haldi.

## Sósíalismus.

Af því eg hefi af eigin reynslu komist að þeirri niðurstöðu, að félags-búnaður og samvinnu er bæði arðsamur og manninum til hægðarauka, þar sem hægt er að koma honum að og menn eru nógu göfuglyndir til þess að spilla ekki hinum góðu hlutum með ágirnd, leti og öðrum illum einkunnum, — hefi eg talsvert athugað jafnaðarkenninguna frá ýmsum hliðum.

### I. Landbúnaður.

I. "Landbúnaður er traustasta líf-atkeri þjóðfélaganna, er því mjög nauðsynlegt, að hann sé starfræktur sem bezt fyrir heildina. Fyrirkomulagið hefi eg hugsað mér á þessa leið:

(a) Landið sé alls ekki til sölu undir nokkrum kringumstæðum.

(b) Öll búlönd séu opin einstaklingum til afnota.

(c) Allar tegundir af námum og skógar, sem ekki eru á búlöndum, séu eign þjóðfélagsins.

(d) Enga náma eða skóga má selja, heldur séu þeir leigðir.

(c) Enginn, sem býr á landi, þarf að borga fyrir notagildi þess.

### II. Skifting á landinu.

"Landinu skal skifta niður í sveitir (Municipalities) og sveitahluta (Townships). Er þá hvert sveitarfélag jafnframt landfélag og félags-hlutar.

(a) Landið er eign þess félags, þar sem það liggur.

(b) Enginn má hafa notagildi af landi, nema hann búi innan takmarka sveitarhluta. Eins ætti að takmarka, hvað einstaklingur má hafa notagildi af miklu landi mest.

(c) Konur hafi jafnrétti við karlmenn. Engin hjón mega samt hafa meira land til afnota, heldur en sem svarar tveim meðal bújörðum.

(d) Engan má reka burt af landi, ef að hann fullnægir þeim reglum, sem sveitarfélagið setur um yrkingu og ábúð jarða.

(e) Nú vill einhver reisa bú, sem ekkert land hefir til afnota. Er þá annað tveggja: Ef eitthvert land er innan takmarka sveitarinnar ónotað, að hann fær það hjá sveitarstjórninni, eða hann fær ábúðarrétt hjá einhverjum, sem vill láta hann af hendi. Í báðum tilfellum þarf hann að borga fyrir verkin og byggingar.

(f) Ef hann hefir ekki gjaldeyrir af sínu eigin til að borga fyrir verkin, er sveitin skyldug til að kaupa þau og leigja honum upp á algenga og viðtekna skilmála í sveitinni. — Hér um bil sama regla ætti að gilda um land í bæjum og borgum.

## III. Atvinnurekstur.

"Félag er stofnað samkvæmt lögum og reglum fyrir félagið, sem allir þurfa að fylgja, háir sem lágir, yfirmenn sem undirgefnir.

(a) Hæfileikar einstaklingsins fá honum völdin í hendur.

(b) Til þess að iðnaðar- og atvinnu-félög verði

stofnuð, og starfrækt, þarf bæði peninga og vinnu að leggja fram.

(c) Lög félagsins eiga að leyfa öllum, sem vilja að leggja fé í það (hluti).

(d) Takmarka skal hvað marga hluti einstaklingur má hafa mest í sama félagi.

(c) Ef að einhverjir hluthafar hafa fé afgangs hlutum þeim, sem þeir geta haft í félaginu, og félagsstofnunin þarfnast þess, skulu þeir gefa kost á því fé til leigu.

(f) Allar konur, giftar sem ógiftar, hafi sama rétt sem karlmenn með hluttöku í atvinnurekstri.

(g) Hreinum ágóða af atvinnurekstri og iðnaði sé skift þannig: Að helmingur falli til hluthafa, en hinn helmingur til verkamanna. Enginn verkamaður hafi samt hluttöku í ágóða, nema hann hafi unnið 12 mánuði samfleytt í sama félagi.

## II. KAPITULI.

### Spillingin.

"Eg býst við að minna svæði væri staðfest á milli auðs og örbirgðar, heldur en nú er, ef að þessar reglur væru upp-teknar með þjóðunum."

"Það er einmitt það sem að öll heill og velsæld þjóðanna hvílir á, að jöfn**uður** sé meiri, eða heldur, að **mismunur** sé minni.

"Hið gamla spakmæli segir: 'Ágirndin er rót alls ills.' Það mætti bæta öðru orði við og segja: 'Ágirndin og sjálfselskan er rót alls ills.'

"Þegar eg hefi verið að hugsa um mannlífið í

heild sinni í sambandi þar við eins og í skuggsjá, alla hina voðalegu spillingu í tilhneigingu anda míns, hefi eg komist að þeirri niðurstöðu, að þegar hinu andlega afli mannsins og viljakrafti er beitt á þessar tilhneigingar, svo að þær verða að óseðjandi ástríðum, er undirstaða spillingar fundin! Ekki megum við samt ganga út frá því sem föstu lögmáli, að allir menn séu vondir, sem hafa þessar tilhneigingar og beita andlegu afli sínu þeim til framþróunar. Nei, alls ekki. Þeir eru ekki allir í fylsta skilningi vondir menn.

"En þessi spilling framleiðir aftur aðrar spillingar, sem eru ekki betri, ef ekki verri, svo sem: öfund og hatur.

"Kemur það þá fram, að þessar tilhneigingar eru í öllum mönnum (að eins frækorn), sem þróast svo misjafnt, eftir því sem aflinu er beitt á þær.

"Sagan sýnir, að það er fleira heldur en auður, gull og gersemar, sem að maður hefir tilhneigingu að sækjast eftir; sem sé: völd, tign og heiður, vera heiðraður meira en hinn. Þessi tilhneiging, þegar hún gengur of langt, framleiðir einnig öfund og hatur. Völd, tign og heiður fylgjast oftast að, svo að öfundin lítur gjarnast á það, sem eina heild. Þegar við lítum yfir söguna, og rekjum viðburðina frá öllum öldum, skýrist þetta enn ljósar fyrir okkur.

"Fyrst er það, að sagan sannar okkur, að mönnunum hefir farið fram í þekkingu, já, mjög mikið. Og jafnframt sannar hún okkur, að þessi áður nefndu frækorn hafa verið til í manninum, svo snemma og hann var kominn á nokkurt skynjunar stig. Elzta sagan sýnir okkur það.

"En svo kemur það líka berlega í ljós, að frækorn öfundar getur legið aflvana um langt skeið. Þekkingin er sterkasta aflið henni til framþróunar. Það hafa mennirnir snemma fundið. Samanber frásöguna um hina föllnu engla. Eins lengi og mennirnir voru á svo mjög takmörkuðu þekkingarstigi, gátu þeir, sem náðu völdum — yfirmenn og undirgefnir voru frá fyrstu tímum feðra og forfeðra stjórn — haft alt eftir sínum eigin vilja. Skilyrðin voru þá ekki til, sem öfundin gat þróast af. Svo skulum við fara fljótt yfir söguna upp til vorra tíma, og um leið aðgæta dálítið breytingarnar á lífi mannanna á ýmsum tímabilum.

"Eftir því sem að mennirnir þroskuðust að þekkingu, eftir því framleiddu þeir meiri auð. Unnu þeir þá með meiri þekkingu, bygðu stórar borgir og gjörðu margt fleira, sem að framförum laut. En jafnframt þessu fylgdist það líka með, að hinir yfirboðnu urðu sterkari og ráðríkari. Vilji þeirra varð almáttugur. Þarna kom voðalegt afl, er þroskaði frækorn ágirndar og sjálfs elsku, svo að það náði bráðlega hámarki sínu.

En aftur á móti lá hitt aflið, þekkingin til að framleiða öfundina, enn um langa hríð alveg í dái.

"Þessi tímabil framleiddu þræla. Menn með sál og tilfinningu, sem að voru þó réttlausir gagnvart hinum mönnunum. Kvaldir og píndir, bæði með of mikilli vinnu og hörku meðferð. Þá bergmáluðu kvalakvein hinna þjáðu og píndu í skógum og fjöllum landanna. Öfundin lá enn í dái. Hatrið var þreklaust. Tilfinningin bað að eins um vægð.

Svo kom enn tímabil. Þá fór hatrið að fá meiri

þrótt. Öfundin fékk nokkra hjálp líka. Mennirnir skiftust að miklu leyti í tvo flokka.

"Á aðra hlið stóð: Ágirnd, sjálfselska, auður, fyrirlitning og harka.

"Á hina hlið stóð: Örbirgð, sárindi, gremja, hatur og öfund.

"Hugsunarháttur og tilfinningar flokkanna náði fullu samræmi í hverjum út af fyrir sig; en aftur var rammur merkjagarður hlaðinn á milli þeirra.

"Hatrið og gremjan varð svo sterk, að blóð mæðranna varð eitrað, og börnin drukku eitrið með brjóstamjólkinni. Engin sómatilfinning eða neisti af göfuglyndi gat þróast. Alt var eitrað.

"Nú í dag höfum við niðja þessa flokks, þá gjörspiltu anarkista og níhilista. Og þjóðirnar hafa í stóru borgunum skríl, sem stendur eins lágt og dýrin.

Eg sagði: "Það sýnist, sem hinn hreinasti egta sósíalismus sé hin hollasta kenning fyrir vellíðan mannanna yfir höfuð. En aftur hefir sú kenning mætt mikilli mótspyrnu, og sýnist enn eiga mikið óunnið til að ná haldi á huga og tilfinningu þjóðanna eða fá samróma viðurkenningu sem hin hollasta lífsspeki. Líka virðist það mjög erfitt, að finna þá reglu fyrir lífi manna, sem afmáir mismun á auði og örbirgð, og þá fleiru þar í sambandi við. Því eins og þú sagðir áðan með samvinnubúnað, eru mennirnir svo misjafnir að eðlisfari, að þeir geta ekki orðið samferða á framsóknarbrautinni. Verður þá mismunur ákjósanlegur."

Hann svarar: "Að jafnaðarkenningin hefir mætt svo mikilli mótspyrnu og á enn langt skeið órunnið að

því takmarki að ná yfirleitt haldi á huga og tilfinning þjóðanna, er að nokkru leyti því að kenna, að hún hefir verið flutt með frekju og ósanngjörnum sleggjudómum. Jafnvel gengið stundum út í hinar fjarstæðustu öfgar, svo sem anarkismus.

"Bezti vegur mundi vera, að taka í burtu tilefnin, breyta ástandinu fyrir auðsöfnun. Enda er það að koma svo berlega í ljós, að sumir hinir mestu auðkýfingar, sem um leið eru stundum mestu og beztu menn þjóðanna, sjá á bak við hvernig lífið ætti að vera í insta eðli sínu.

"Allir eru börn sinnar tíðar, og lífið getur verið misskilið eins vel af hinum stóru eins og hinum smáu.

"Til dæmis ætla eg að nefna hér tvo nútíðarmenn, sem hafa náð hámarki auðsöfnunar: Rockefeller og Carnegie. Þessir menn, eins og tíðast mun vera með þá, sem vaxið hafa til auðs og valda frá fátækt, eru gæddir ákaflega miklu afli — afli glöggskygnis, og afli starfseminnar. Þessum öflum, sem þeir höfðu meira af heldur en samtímis bræður þeirra, beittu þeir samkvæmt aldar-andanum og viðtekinni reglu, sem sé, til auðsöfnunar. — Þegar þessir menn eru búnir að starfa í langa tíð, með miklum áhuga og kappi, auðsafnið orðið meira, heldur en þá nokkurn tíma gat dreymt um, fjör og ofurkapp unga mannsins farið að stöðvast, lífið að verða kyrlátara, — þá taka þeir sér tíma til að fara að íhuga hinn dýpsta tilgang lífsins.

"Þeir eru í því eins og öðru miklir menn, að þeir geta komið auga á hinar fegurstu hugsjónir mannssálarinnar nú á þessum tímum. Þeim verður nú ljóst, að lífið er enn misskilið í mörgu tilliti.

"Þó að þeir hafi ekki verið undanskildir í því efni að misskilja tilgang lífsins eins og allur fjöldinn, var það raunar frekar frá heiminum en þeim sjálfum, hvernig þeir beittu því mikla afli, sem þeir höfðu í sér fólgið. — Nú sýnist vaka fyrir þessum miklu mönnum að vilja dreifa úr þessu voða auðsafni áður þeir skilji við þetta líf. Samkvæmt þeim beztu og göfugustu hugsjónum, sem vaka fyrir þeim, sínum í hvoru lagi. — Þetta er full sönnun fyrir því, að hefði umheimurinn verið í öðru ástandi þegar þeir fæddust og uxu upp, þá hefðu þeir beitt sínu mikla afli í samræmi við það. — Þá komumst við að þeirri niðurstöðu, að fyrirkomulag á þjóðfélagsheildinni þarf að vera þannig, að einstaklingarnir vinni í rétta átt.

"Tökum aftur þessa áminstu menn. Ef umheimurinn þar sem þeir fæddust og uxu upp, hefði beint hinum unga, framgjarna og aflmikla huga þeirra inn á réttari brautir, er enginn efi á því, að þeir hefðu gengið þann veg.

"Og ef þeir hefðu beitt þessu mikla afli til farsældar fyrir heildina, í staðinn fyrir að beita því til hagsældar fyrir einstaklinginn, undir hvoru þessara lífsskilyrða, hefðu þeir sjálfir verið farsælli nú í dag?

"Eg geng út frá því sem sjálfsögðu, að þeir hefðu beitt sínum miklu hæfileikum, sínu mikla afli alveg eins og þeir hafa gjört. Undir því fyrirkomulagi, að vinna að hagsæld heildarinnar, hefðu þeir ekki verið taldir eigendur að eins mörgum miljónum dollara hver.

"En þar sem þeir voru frömuðir, lífið og sálin í framkvæmd og starfsemi, þjóðinni til heilla og hag-

sældur, hefðu þeir átt marga vini. Miljónir af sálum hefðu litið til þeirra með virðingu og þakklætis tilfinningum.

"Þar sem þeir vekja nú hlýjar tilfinningar hjá hundruðum þúsunda sálna með sínum göfugu fjárgjöfum, er alls enginn efi á því, að vitneskjan frá þeim tímum, þegar tilfinning sálanna dæmdi þá sem guðlausa fjárplógsmenn og blinda auðkýfinga, dregur nú mjög mikið úr verðskulduðu þakklæti. — Þrátt fyrir alla þekkingu og miklar framfarir, vantar enn mikið til þess að mennirnir skilji rétt tilgang lífsins."

"Þú hefir víst lesið bók Henry George og máske fleiri umbótamanna rit?" sagði eg.

"Já, eg hefi dálítið litið í hvers kyns rit í tómstundum mínum. Þau hafa náð haldi á huga mínum," svaraði Ólafur.

Eftir að hafa athugað ýmislegt í búnaðarháttum þessa félags, sem var í samræmi við það, sem Ólafur hafði sagt mér áður, kvaddi eg þennan alúðlega mann, sem mér fanst nú vera orðinn góðkunningi minn. Talsvert fanst mér til um skoðanir hans og réttsýni gagnvart mannfélagsheildinni. Nokkur bréfaskifti hafði eg við hann eftir þetta, en sá hann mjög sjaldan.

Eftir nokkur ár leystist þessi félagsskapur í sundur, af hvaða orsök var mér ekki ljóst, því þessi góðkunningi minn dó um það tímabil.

Eg hvarf aftur til Morris og samdi við hann um að vera hjá honum áfram að byggja fyrir hann húsið og fleira.

Var eg þannig áfram hjá Morris fram á mitt sumar; hafði eg þá byggt handa þeim hjónum frekar laglegt

íbúðarhús, og auk þess smíðað ýmislegt fleira. Síðan fór eg til Brandon, og var hjá sama verkgefanda eins og árið áður, eins lengi og smíðavinna hélzt það ár. —

Hitti eg þar gamla félaga minn, Jón, og unnum við þar saman eins og fyrri. Keypti eg fæði af þeim hjónum meðan eg var í Brandon í þetta skifti

## III. KAPÍTULI.

### Óhrein verk skapa ófarsæld.

Mr. Brown, sá er áður er nefndur, var enn á hótelinu. Enginn varð var við undirbúning hjá honum að setja upp verzlun þar í bænum, eða nokkurn hlut í þá átt. Kona hans vann þar líka á hótelinu fram á haustið; varð hún þá að hverfa heim til móður sinnar vegna eðlilegra orsaka. Mr. Dunk hafði keypt þar smáa rakarabúð og knattborðaklefa.

Ingibjörg kona Jóns hafði orðið þess áskynja af fyrverandi húsmóður sinni, að Brown hefði áður gifst í Englandi, og ætti þar konu á lífi. Hefði þeim ekki samið, svo þau skildu með þeim skilmálum, að hann greiddi henni vissa fjárupphæð árlega.

Hafði Brown lengi vel farið svo dult með þessar kringumstæður sínar, að enginn varð áskynja þar um í Brandon.

Á endanum varð hann þó að skýra húsbóndanum frá högum sínum, mest vegna peninga þeirra, sem hann varð að senda þessari konu sinni. Því peningana varð hann að senda henni, hversu óljúft sem hon-

um var það, til þess að hún þegði. Þögn hennar var honum mjög áríðandi.

Þetta leyndarmál fór mjög lágt í Brandon, en þó rættist hér að nokkru leyti hið gamla orðtak: "Þjóð veit þá þrír vita". Kona Mr. Collins komst nefnilega að leyndarmálinu.

Þar sem Mr. Brown hafði aðeins vinnulaunum sínum til að dreifa, var það mjög lítið, sem hann gat af hendi látið við þessa nýju konu sína. Þó mun hann hafa sýnt nokkra viðleitni í þá átt. Hann hafði náð hinni fyrstu og hreinu ást hennar, sem — þó hún fengi grun um hagi hans — hafði svo mikið vald yfir tilfinningum hennar, að hún gat ekki dæmt hann fyrir afbrot; enda lifði í voninni um að hún fengi að njóta ástar hans. Það mun henni hafa fundist fyrir mestu, úr því sem komið var.

Alt önnur áhrif hafði þetta á móður hennar, Mrs. Christie. Að vísu varð hún ekki enn áskynja hins sanna um hagi tengdasonar síns, en vonbrigðin voru farin að verka talsvert á hugarfar hennar. Í staðinn fyrir að sjá dóttur sína sem eina af heldri konum bæjarins, varð hún að leita húsaskjóls og aðhjúkrunar í hinum lítilfjörlegu híbýlum hennar. Og ekki nóg með það, heldur fanst henni Englendingurinn miðla henni peningum af skornum skamti.

Jafnvel þó Guðríður gamla væri tíðast ekki mjög stóryrt, nema helzt við karlinn sinn, hefði hún samt ekki stilt sig eins vel og raun varð á þetta sinn, ef hún hefði getað látið Englendinginn skilja sig.

Þessi Sigríður Gunnlaugsdóttir Kristjánsson var

alls ekki óefnileg stúlka, ef að hún hefði ekki á ung-um aldri í ógæfu ratað.

Þegar hún var orðin móðir að tveimur börnum, hvarf Englendingurinn, svo hún sá hann aldrei fram-ar; en góðir menn, skyldir og vandalausir, hjálpuðu henni áfram með börnin. Voru þau hjónin Jón og Ingibjörg henni mjög notadrjúg með sín afskifti.

## IV. KAPÍTULI.

### Sambúðin við Morris-hjónin.

Þetta ár vorum við við húsasmíði í Brandon fram í desembermánuð. Hvarf eg þá aftur til Morris hjónanna og dvaldi þar það sem eftir var vetrar.

Bæði var það, að mér féll Mr. Morris mjög vel í geð, og svo yfirleitt hans heimili, að eg vildi hvergi frekar dvelja þar nærlendis undir sömu skilyrðum með fjárhag minn. Líka mæltist hann til þess, að eg kæmi aftur til sín, þegar smíðavinna væri á enda í Brandon. Hafði hann á öllum tímum vinnu handa mér, ýmist við smíðar eða önnur störf.

Þau Morris-hjónin voru frá Ontaríofylki, innflutt til Manitobafylkis ásamt fleiri samlöndum sínum, áður en nokkur járnbraut eða hvítra manna bygð var þar stofnsett, utan í mjög smáum landshlutum hér og þar. Til dæmis kyntist eg síðar mönnum, sem fluttu frá Ontariofylki 1876 og settu sig niður þar sem nú heitir Poplar Point hér í fylkinu. —

Af því Mr. Morris var sá fyrsti hérlendur maður sem eg hafði komist í nána kynningu við, vil eg leyfa mér að lýsa að nokkru leyti aðaleinkennum þeim, sem

koma fram á þessu tímabili, í lundarfari hans og skoðun á mannlífinu. Og af því mér hefir fundist að trúarbragðalegar skoðanir hefi talsverð áhrif á lífsskoðun manna, þ. e. þeirra manna, sem nokkuð hugsa — vil eg geta þeirra hér fyrst, eftir því sem hann skýrði mér frá þeim.

Hann var kominn af enskri alþýðu — bændaætt — fæddur og uppalinn í Ontariofylki. Foreldrar hans og félagsfólk þeirra tilheyrði ensku þjóðkirkjunni, sem er mjög lík hinni lútersku kirkju Þjóðverja og Norðurlandabúa.

En þegar hér var komið sögunni, hafði hann breytt til og gengið inn í Meþódista kirkjufélagið, sem um þessar mundir var hér um slóðir, til að ná í dálítinn hluta af þessu nýgræðings þjóðfélagi. Enda má vel búast við, að kirkjufélögin hafi fundið köllun hjá sér, til að fylgja fólkinu eftir inn á þessar nýju brautir, þar sem hjarðir af viltum nautum, elgsdýrum, skógarbjörnum og Indíánum höfðu þreytt kapphlaupið innan um frumnáttúru landsins á umliðnum öldum.

Kirkjufélögin líta svo á, að það sé þeirra verkefni að útbreiða guðrsíki meðal mannanna, og álíta þá jafnframt nauðsynlegt, að sjá um, að fólkið verði ekki viðskila eða fari á mis við þau hjálparmeðöl, sem eru nauðsynleg til að viðhalda því, þar sem það þó einu sinni hefir verið gróðursett.

Eins og Meþódistar munu yfirleitt, var fólk þetta mjög hneigt til bænagjörðar. — Margir þar í nánd voru af þeim trúflokki. Höfðu bændur þar í félagi komið sér upp bænahúsi, sem þeir sóttu mjög títt, eins langt og fjórar mílur vegar, og það iðulega tvisvar á

virkum dögum vikunnar, eftir að dagsverkinu var lokið.

Mr. Morris hélt fyrirbænir, bæði á undan máltíð, og eins áður en hann gekk til hvílu, gekk það talsvert lengur en eg hafði áður vanist.

Í hversdagslífinu kunni hann vel að stilla skap sitt, og mjög sanngjarn var hann í öllum viðskiftum. Kona hans var nokkuð örari í lund; var ekki laust við að tilfinningar bæru hana stundum ofurliði. Annars stjórnaði hún geði sínu jafnaðarlega vel.

Það kom fyrir, að við Mr. Morris ræddum um trúmál. Hann virtist hafa talsverða ánægju af því, svona stöku sinnum. Fann eg þá á honum að hann var heitur fyrir því máli. Leit hann svo á, að hann væri umventur maður. Hafði sú breyting komið á trúarlíf hans, að meira eða minna leyti jafn snemma og hann skifti um kirkju eða kirkjufélag. —

Sagði hann mér frá sálarástandi sínu áður en breyting kom þar á. Fanst mér hann hafa fulla sannfæringu fyrir því, að guðleg náð hefði vakið hann til meðvitundar um sálarheill sína. Áður kvaðst hann hafa verið mjög trúarveikur, helzt lítið hugsað um trúmál. Til dæmis sagði hann: "Fann eg enga löngun til að ganga í kirkju, gerði það meira til að vera með. Stundum fann eg samt góðar hugarhræringar hjá mér við þau tækifæri. Enga löngun fann eg til þess að lesa í biblíunni eða andlega sálma eða önnur guðhræddra manna rit. Þegar eg var að biðjast fyrir. fanst mér bænin mjög kraftlítil. Það var engin trú."

Eg spurði hann að því, hvernig hann hefði kom-

ið fram í því mannfélagi, sem hann hefði lifað í áður en breyting komst á hann. Hvort hann hefði haft löngun til að hefja sig upp til auðs og álits, með því að þrykkja öðrum, sem óstyrkari var, niður. Hvort hann hefði fundið nokkra ánægju í því að öðrum liði vel. Að hve miklu leyti að tilfinningar hans hefðu gjört vart við sig, þegar svo bar undir að einhver þurfti hjálpar með, og hann sá möguleikann til að hjálpa honum.

"Viðvíkjandi fyrstu spurningunni get eg sagt, að eg hafi af eigin kröftum unnið mig áfram. Það var engin trú, sem aftraði mér frá að gjöra öðrum skaða. Eg hafði enga löngun til þess. Um aðra spurninguna er það að segja, að eg hefi ætíð fundið ánægju í því að öðrum liði vel, eins lengi og þeir hindruðu að engu leyti vellíðan mína. En ekki get eg neitað því, að mér hefir stundum ógnað að hugsa um hið mikla samsafn af auði á einum stað en aftur örbirgð á hinum. Viðvíkjandi því, að hjálpa þeim, sem bágt eiga, veit eg mörg dæmi þess að þar stendur ekki ætíð trú á bak við. Eg hefi þekt ýmsa menn, sem hjálpa fátækum og þeim sem bágt eiga, en eru samt kaldir í trú sinni. "Öll góðverk eru manninum gagnslaus, ef að trú hans er köld og dauð." En aftur þau góðverk, sem eru ávöxtur af lifandi og heitri trú "fjársjóður, sem hvorki mölur né ryð fær grandað." — Sýn mér trú þína af verkunum". — "Trú fyrst, svo góðverk."

Ekki vildi eg hafa mikið á móti skoðun vinar míns, en helzt til lítið fanst mér hann gjöra úr heiðarlegu lífi manna, ef að trúarlíf þeirra var ekki nógu heitt.

Af því vinur minn var skynsamur maður og gæt-inn í orðum, heyrði eg hann sjaldan dæma aðra han fyrir trúleysi. En aftur hefi eg heyrt ýmsa af hans trúbræðrum ganga of langt í því efni, og sömuleiðis fleiri trúarflokka hér í landi.

Þar sem þeir lýsa því yfir í heyranda hljóði, að þeir hafi verið svo óguðlegir áður en þeir umventust. Jafnvel þó að þetta fólk hafi ekki öðrum fremur breytt illa í mannfélaginu. Nú finnur það að trúarlíf sitt hafi verið dautt. Trúin hafði engin áhrif á það.

"Hver sem ekki trúir syninum, skal ekki sjá lífið, heldur varir guðs reiði yfir honum." Þessi orð hafa svo sterka þýðingu hjá þessu fólki, og framleiðir svo stranga áfellisdóma yfir hina, sem eru trúardaufir.

Meþódistar ganga eins langt og nokkur annar trúarflokkur með kenninguna um erfðasyndina, friðþæginguna, árás hins vonda afls (djöfulsins), ósjálfstæði mannsins gegn því, bænina og náðina. Alt þetta flétta þeir sérstaklega utan um aðra persónu guðdómsins. Elska guðdómsins birtist mönnunum fullkomnust í þessari mynd.

Í sambandi við þetta vil eg geta þess, að einu sinni kom til umræðu milli okkar helgihald jólanna. Ekki fanst Mr. Morris að jólin ætti að skoða sem jafngilda helgi Sabatinu. Jesú hefði ekki fyrirskipað að halda fæðingardag sinn helgan, en Sabatið hefði hann haldið heilagt. Honum fanst það of veraldlegt, eins og til dæmis fæðingardagur þjóðhöfðingja eða stórviðburða dagur þjóðfélaga, svo sem Dominiondagur og annað þessháttar. Enda er sú tilfinning hjá fólki

hér í landi að ná talsverðum áhrifum, að skoða jólin sem frídag. Sjálf helgin er að missa kraftinn.

Þegar eg fór að bera þetta saman við það, sem eg vandist við í bernsku minni um sama efni, fann eg að hér kom fram meiningamunur. Fólkið þar, sem líka lagði mikla áherzlu á aðra persónu guðdómsins, hélt jólin, ekki aðeins jafnhelg Sabatinu (sunnudeginum), heldur helgari, tvíheilög. Jólin voru svo helg í hjörtum þess fólks, að ekkert gat jafnast við það. Jólin voru skoðuð þar sem móðir allra hátíða. Þau voru skoðuð af því fólki, sem byrjun eða upphaf að þeirri náð eða frelsi frá eilífri fordæmingu, sem því veittist með holdtekju Jesú.

Þarna koma fram tvö öfl. Annað aflið stjórnast af tilfinningu en hitt af bókstafnum. Að trúa því að maðurinn sé fæddur til eilífrar fordæmingar (erfðasyndin) og jafnframt trúa því að holdtekja, líf og dauði Jesú sé fullkomið lausnargjald frá þessari fordæmingu, svo framarlega að mennirnir snúi sér til hans í trú og bæn, en finna svo ekki samræmi í því, að halda fæðingardag hans hátíðlega helgan, finst það of mannlegar hugsanir!

Er ekki þessi kenning bygð á mannlegri hugsun? Jú, hún er öll blönduð mannlegum hugsunum.

— — — — — — — — —

Eftir því sem eg kyntist Morris-hjónunum meira, varð kynning okkar betri, og mér fanst að þau hafa talsverðar mætur á mér. Fylgdi eg þeim oft til bænafundu, ef til vill eins mikið vegna þess, að eg fann á vini mínum að hann vildi það.

Eg reyndi að vekja líf bænarinnar hjá mér, sem

var mjög dauft, í þeirri von að það drægi mig næ guði mínum. Ekki get eg vel lýst því, hvort þes tilraun varð mér nokkur ávinningur í trúarlegu í því von bráðar, eftir að við Morris skildum, var e kominn í sama stað og eg hafði áður verið.

— — — — — — — —

Það var einhverju sinni um veturinn, að vi Morris vorum að lesa í blöðum eitt kvöld í setus o unni. Jafnaðarlegast las hann í kirkjulegum ritum Húsfreyja sat þar í nánd með prjóna sína.

Morris leggur frá sér blaðið og segir: "Eg e ekki vel frískur í kvöld, bæði magnleysi og höfuð verkur."

Kona hans gegnir strax og segir: "Elskan mín þér hefir líklega orðið of heitt í skóginum í dag, o kólnað upp á leiðinni heim; þú ættir að taka skam a aconite og napta, og fara svo ofan í rúm". Tekur hún glas út úr skáp þar í stofunni og gefur honum skamt úr því. Síðan fylgir hún honum upp á loftið. Oft hafði eg tekið eftir því, að Mrs. Morris var mjö alúðleg við mann sinn, svo að eg hefi ekki annað é betra.

Eftir litla stund kemur hún aftur og sezt í sæti sitt.

Það hefir máske verið af því, að mér fanst að talsverð sæla hlyti að vera í því að eiga innilega ást fólginn vin, að eg sagði við hana: "Þú ert góð kona við mann þinn, Mrs. Morris."

# V. KAPITULI.

## Saga húsfrú Önnu F. Morris.

### Fæðing og uppfóstur Önnu.

"Mér er ánægja að gefa þér fulla sönnun fyrir því, að Mr. Morris hefir verðskuldað meira þakklæti af mér en eg get í té látið. Því til sönnunar ætla eg að segja þér dálítið ágrip af æfisögu minni, sem er á þessa leið:

Í einhverjum af hinum lítilfjörlegustu mannahíbýlum utan við bæinn London í Ontariofylki mun eg hafa verið fædd í heim þennan 1856. Þegar eg man fyrst eftir mér, var eg með móður minni sálugu í þeim heimkynnum; þó ekki í sama kofanum, heldur á sífeldu reiki frá einum kofanum til annars. Flesta daga var móðir mín í burtu, og var eg þá hjá húsmóðurinni, sem réði kofanum. En á kvöldin kom móðir mín ætíð heim; hljóp eg þá tíðum á móti henni eftir að eg var orðin svo fær að eg gæti það. Mér þótti svo undur vænt um að fá hana heim, því húsmóðirin var stundum ekki eins góð við mig og hin börnin. Aldrei sá eg föður minn, vissi ekkert um hann. Móðir mín sagði mér, að hann hefði heitið Jackson, og þegar eg var uppvaxin, var eg kölluð Miss Jackson.

Eftir að eg þroskaðist meir og bar betur skyn á hlutina í kringum mig, man eg að lífið leið áfram ár eftir ár þannig, að móðir mín vann hér og þar í bænum við fataþvott og við að hreinsa gólf. Vann hún þannig fyrir mér fram að 12 ára aldri. Dálítið hafði eg gengið á barnaskóla, þó minna vegna þess að móðir

mín varð að lifa í kofum utan við bæinn, það kost...ð minna.

Um þetta leyti misti móðir mín svo heilsuna, að hún gat ekki unnið eins og hún hafði áður gjört.

Fékk hún þá stað handa mér á matsöluhúsi, t... að létta undir með viðvikum mínum, sem eg átti að f... fæði mitt fyrir, en klæðnað ætlaði hún að sjá um sj...l...

Liðu nú fram tvö ár að eg vann þarna fyrir fa...ð... mínu, en heilsa móður minnar bilaði æ meir og m...ir, þar til hún lagðist í rúmið og sté ekki á fætur aftur.

Síðustu dagana var eg altaf hjá henni. Ein... sinni sagði hún: "Anna mín, við verðum að skilja, eg finn það, og þá áttu enga foreldra framar. Fa...ði... þinn var illur maður; hann hefir ekkert gjört fyrir þ...g og því síður fyrir mig. Ó, aumingja Anna! þú ...r... enn of ung fyrir hinn vonda heim. Eg átti sama s...m... enga foreldra, og heimurinn fór illa með mig. — 32 ...ra líf, ólán og sorg. — Elsku barnið mitt, fetaðu ekk... ... sporin hennar móður þinnar. — Varaðu þig á mönnu...n- um. Þeir eru sumir svo voðalega vondir."

Bæjarstjórnin varð að sjá um útförina. Ekk...r... var til að selja nema verðlausir fatagarmar.

Þessu næst fór eg í vist á hóteli þar í bænu...n. Fékk eg þar kaup, svo eg gat klætt mig af því. Þar...n- ig liðu þrjú ár, eða þar til eg var 17 ára gömul. Ha...ð... eg allan þann tíma verið á hótelum og matsöluhúsu...n innan í bendu af margbreytilegu og misjöfnu féla...s- lífi. Í síðustu vistinni, sem eg var í á hóteli, var M...r. Morris þar vinnumaður. Var hann einn af þeim fá...u sem aldrei sást við drykkjuborðið. Stundaði ha...n verk sitt mæta vel, og hafði hylli húsbænda sinna.

Stundum kom það samt fyrir að hann tók þátt í samkomum.

## Hættan.

Einmitt á þessu tímabili var eg að leiðast inn á hættulegt svið. Eg sá það bezt síðar. Eg hafði gleymt móður minni sálugu og hennar forlögum, að svo miklu leyti hvað snerti ungdómsfjör mitt og hégómaskap. Félagslíf það, sem eg hafði lifað í mánuð eftir mánuð, ár eftir ár, var sá eini skóli, sem eg hafði enn gengið á, til að fræðast um lífið og afstöðu mína gagnvart því. Vinnufélagar mínir voru ungar og fjörugar stúlkur eins og eg, sem höfðu notið hér um bil sömu fræðslu um lífið. Hvað eg fann mikið samræmi í tilfinningunum. Stundum leit það út eins og við fjórar værum ein sál, sál sem var svo hugðnæmt að sjá hin kitlandi hýru augu, full af fjöri og gleði, hið slétta og fína hörund og kviklegu hreyfingar. Hvar vorum við? Var ekki aldingarðurinn Eden að opnast fyrir okkur? Sáum við ekki allar tegundir af hinum bragðfínustu og ilmsterkustu aldinum hanga á skrúðgrænum og fagurlimuðum trjám inni í garðinum? Ef við nú aðeins hefðum áræði til að fara inn, þurftum við ekki að kvíða lífinu framar.

Alt líf á jörðinni leitast við að fullnægja kröfum sínum, og þar sem engin hætta sést, er hin hugðnæmasta uppfylling kosin.

— — — — — — — —

Jafnvel þó að það væri fjarri, að Mr. Morris gjörði sér far um að standa í kringum okkur stúlkurnar, þar sem við vorum að vinnu okkar, og viðhafa sem

mest af skrítlum og glensi, eins og hinir ungu piltarnir vil eg ekki neita því að hann notaði tækifæri, þegar svo bar undir, að vekja samræður við mig, svona um eitthvað, sem þá var næst að grípa til. Auðvitað tók eg því ætíð kurteislega, en fann samt lítið samræmi okkar á milli.

Einhverju sinni segir Mr. Morris við mig, með glaðlegu yfirbragði: "Viltu ekki þiggja keyrslu með mér næsta sunnudag út til Mrs. Thornhill, eg á erindi út þangað?"

Jú, náttúrlega. Auk þess sem eg hafði kynst Mrs. Thornhill áður en hún giftist — hún vann á sama hóteli og eg — fann eg talsverða nýbreytni við að keyra út á land; það var nokkuð nýtt fyrir mig.

## Hreinleiki hjartans.

Næsta sunnudag sat eg í fallegum léttivagni, keyrandi eftir breiðum og sléttum akvegi. Þetta var í júlímánuði, þegar náttúran úti á landsbygðinni er klædd öllu sumarskrautinu. Veðrið var líka alveg mátulega heitt.

Eg skemti mér hið bezta um daginn hjá Mrs. Thornhill: var eg þar eins og frjáls fugl í sælu sumarsins. Á leiðinni til baka tók eg eftir því, að Mr. Morris fór aðra braut. Á einum kafla stóðu talsvert mörg tré meðfram veginum. Þegar við komum að litlu húsi er stóð þar milli trjánna, stöðvar hann hestana og stígur ofan úr vagninum, og segir: "Eg ætla að stansa hér dálítið," og fer að binda hestana við tré, sem stóð þar nærri. Þegar hann hafði bundið þá, segir hann ennfremur: "Viltu gjöra svo vel og koma ofan úr

vagninum, eg ætla að tala dálítið við þig hér í næði?"

Mér fór ekki að lítast á; satt að segja greip mig einhver hræðsla, sem þó hvarf fljótt frá, því hann segir með einhverjum einlægnishreim: "Þú þarft ekki að vera hrædd, Anna, eg skal þér ekkert mein gjöra, aðeins tala dálítið við þig hér." Hann tók um handlegg minn, sem eg gat ekki bannað honum, og leiðir mig að stórum bjálka, sem lá þar og bauð mér að setjast þar hjá sér.

Þegar við erum sezt niður, segir hann: Eg hefi veitt þér meiri eftirtekt á umliðnum nokkrum mánuðum heldur en þér er ljóst. Í hreinskilni vil eg segja þér — þú auðvitað ræður hvernig þú tekur orð mín — þarftu að gæta að þér; gæta að hvar þú stendur, og reyna að gjöra þér ljóst hvaða braut liggur framundan þér."

Eg gat engu svarað, en mér fanst eins og hvíslað væri að mér hvað hann meinti.

Enn fremur segir hann: "Væri þér ekki geðfelt að ganga á haganlegan skóla, svo sem 6—8 mánuði, ef þú ættir kost á því?

Við þessi síðustu orð kom einsog eitthvert innra rót á mig, svo eg segi: "Mr. Morris, má eg spyrja: hvernig stendur á því, að þú leggur þessa spurningu fyrir mig?"

Hann segir: "Þessu ætla eg ekki að svara beinlínis, heldur segja þér með þeim orðum, sem þú mátt trúa, að mér dettur alls ekki í hug að leggja höft á þig eða skerða þinn frjálsa vilja. Eg held það sé vel gert, að hjálpa þér, og viljir þú þiggja, vil eg gjöra það."

"Hvað meinar þú með skóla? Þú veizt, að eg

hefi ekkert lært, og það finst mér sárt; en—"

Hann grípur fram í og segir: "Eg veit það vel og því stakk eg upp á þessu. Eg þekki einn skóla hér í bænum, sem eg veit þér er haganlegur. Kona ein sem mér er kunnug, gekk á hann áður en hún gifti sig. það er ágætur skóli fyrir stúlkur. Hann stendur alveg undir stjórn kvenna. Það er stór bygging og margar stúlkur ganga árlega á hann."

Næsta sunnudag var eg komin á skóla þennan og dvaldi þar átta mánuði. Voru þeir átta mánuðir mér mikils virði.

Í septembermánuði ári síðar vorum við Mr. Morris gefin saman í hjónaband.

Aumingja Martha! Svo hét ein af vinnufélögum mínum. Við vorum jafnaldra og mikið saman. Hún fór inn í garðinn og brosandi, hvítklæddur engill stóð þar og benti henni á ilmsterka og gómsæta ávexti, sem að héngu þar á ljómandi fallegu og skrúðgrænu tré. Og hví skyldi hún ekki njóta ávaxtanna? Eru ekki ávextir jarðarinnar ætlaðir manninum til að neyta af?

Hún borðaði ávextina og þeir voru undur gómsætir. — En í einni svipan kastaði engillinn gerfinu og hún sá höggorminn, þar sem hann svo snarlega stökk út úr garðinum.

Og hvað hafði skeð? Hún hafði etið af skilningstrénu og reiði lögmálsins hvíldi yfir henni. Hún var dæmd. Dóminum varð ekki áfríað. Lífstíðardómur hvíldi yfir henni.

# VI. KAPITULI.

## Frumbúalífið.

Þetta hið sama haust fluttum við ásamt fleirum samlöndum okkar þar úr héraðinu, vestur til Manitoba-fylkis, og settumst að á landi því, sem við höfum verið á síðan. Ekki fann eg neina löngun hjá mér til að flytja hingað vestur. Nei, þvert á móti. Annars gat eg sára litla hugmynd gjört mér um það, hvernig það líf mundi vera, sem tæki hér við. Eg hafði aldrei heyrt neitt um það áður. Alt, sem eg gat hugsað í því efni, var: Eg er gift Mr. Morris og hefi óbifanlegt traust á honum. Nokkrar fleiri konur fluttust með í hópnum, og sumar af þeim komnar á aldur.

Á ferðinni vestur komu fyrir nýjungar, að minsta kosti fyrir okkur konurnar. Á breiðum, flatbotnuðum prömmum fórum við eftir Rauðánni norður til Winnipeg, sem þá var að eins lítið þorp, mest Indíána og kynblendinga bjálkakofar. Þá var Winnipeg gjarnast nefnt "Fort Garry". Þaðan og hingað vestur var búslóð vor flutt á vögnum og nokkrir nautgripir reknir, sem bændurnir keyptu þar, en hesta og vagna fluttu þeir frá Ontario.

Þetta var í októbermánuði 1878. Jörð var alauð og tíð inndæl. Þegar dagleið þótti vera full-löng, fórum við að undirbúa náttstaðinn. Tjöld voru reist og alt var eins og nýmóðins fyrir okkur konurnar. Viku tók það fyrir okkur, að komast frá Winnipeg og hingað vestur (um 130 mílur). Engin járnbraut var til í landinu, og að eins á stöku stað sáust mannabýli. Hér vorum við nú komin þar sem enginn vottur sást

fyrir að mannleg hönd hefði snert við að breyta frumnáttúru landsins. Eins langt og augað eygði var ýmist grassléttu-haf eða skógar.

Furðanlega ánægð var eg um veturinn í bjálkakofanum okkar. Næsta grannkona var að eins hálfa mílu í burtu; hún er þar enn.

Ákaflega var margt erfitt fyrir bændurna fyrstu árin. Allar nauðsynjar varð að sækja til Wininpeg, sem komu þangað með flutnings-prömmum eftir Rauðánni sunnan úr Bandaríkjum. Vörurnar voru dýrar, eins og þú getur nærri, svo lítið var hægt að kaupa.

Þegar maðurinn minn þurfti að fara í þessar ferðir, sem tóku tíu daga, var eg hjá grannkonu minni. Unnum við þá öll störf jafnt úti sem inni, þar sem báðir bændurnir voru í burtu. Eftir tvö ár kom hér upp sölubúð; alt var það samt ónóg, þangað til járnbrautin kom. Höfðum við þá verið hér fjögur ár.

En þau umskifti! Það var eins og við hefðum flutt í nýtt land, eða flutt Ontario-fylki hingað vestur til okkar. Nú gat maður fengið hvað sem vanhagaði um, enda uxu þarfirnar óðum. Bærinn Brandon reis upp með undra hraða og stórum byggingum. Á örstuttum tíma var hann orðinn eins og bæirnir í Ontario, nema hvað húsin voru færri að tölu, svo sem hótel, matsöluhús, sölubúðir af öllum tegundum, sömuleiðis járn- og trésmiðjur, knattborða-stofa, samkomuhús fyrir dans og allar tegundir af skemtunum og kirkjur.

Maðurinn minn fékk góða uppskeru um haustið; hafði hann lagt mikið kapp á að brjóta upp landið.

sem hann hafði valið mjög vel. — Þá fengu allir landnemar hálfa fermílu (hálfa "section") af landi.—Tvö stór hross flutti hann frá Ontario-fylki; svo var hann búinn að ala upp önnur tvö. — Þetta ár fékk hann dollar fyrir bushelið.

Það var fjarri lundarfari mannsins míns, að vilja útiloka sig frá öllu félagslífi og siðsömum skemtunum, en hann leit ætíð á það sem svo, að heimilisþarfir ættu að sitja í fyrirrúmi. Og þar sem var svo undur mikið verkefni fyrir hendi, var tími sá svo mjög takmarkaður, sem helga mátti skemtunum.

Hann vildi áfram. Hann vildi ekki einungis verða vel sjálfstæður, heldur líka verða ein af sterkari stoðum í uppbyggingu sveitarinnar. Aldrei hefir hann heldur hneigst að því að gjöra sig stóran af annara sveita. "Í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauðs neyta" er boðorðið, sem hann hefir alt af haldið. — Nokkrum sinnum fór eg með honum til Brandon, eftir að járnbraut kom þar. Höfðum við börnin okkar, sem þá voru tvö, Henry og Violet, með okkur. Gjarnast hafði hann stóra vagninn, og tók þá eitthvað af nauðsynjavöru með til baka. Þó man eg eftir, að við fórum einu sinni inn til bæjar, að eins skemtiferð. Fékk hann þá léttivagn lánaðan hjá nágranna okkar, því hann átti þá engan sjálfur. Ferðin varð hin skemtilegasta. Við vorum þar við góða skemtiskrá á samkomu og dansi, sem stóð til miðnættis.

Leið nú áfram tími okkar þannig, að maðurinn minn sótti vinnuna af kappi og sýndist ótrúlega miklu koma í verk, enda var fjárhagur auðsjáanlega að batna. Hafði það þau áhrif á mig, að eg var að smá-

ala á því við hann, að kaupa léttivagn handa okkur, svo við gætum þægilega komist til kirkju á sunnudögum, og líka ef okkur langaði til að skreppa inn í bæinn okkur til skemtunar, einstöku sinnum.

Þegar eg var að ala á þessu við hann, færðist hann jafnan undan og sagði þá vanalega: "Eg hefi svo miklu að svara út; þessir vagnar eru mjög dýri; mér þykir leiðinlegt að taka til láns."

Einhverju sinni fer eg með honum til Brandon á stóra vagninum. Hitti eg þá eina af konum þeim, sem komu með okkur frá Ontario; hafði eg ekki séð hana í langa tíð, því að talsvert langt var á millum býla okkar. — Meðal annars sagði hún mér, að maðurinn sinn hefði keypt léttivagn þá um sumarið, og hefði þau nú farið inn í bæinn að reyna hann. Lét hún mikið yfir, hve þægilegt væri að hafa svona vagn; það væri bara unun að sitja í honum.

Benti hún mér á, að konurnar úti á landi hefði eiginlega ekki mikið af þægilegu og skemtilegu lífi að segja. Nóg væri samt vinnan. Það væri öðru vísi líf, sem konurnar í bæjunum hefðu. Fanst henni ekki minna mætti vera, en að konurnar gætu skroppið inn í bæinn einstöku sinnum, og eins til kirkju á sunnudögum.

Í þetta sinn hafði Mr. Morris tekið talsvert af vörum, svo mér fanst tæpast nægilegt rúm fyrir mig og börnin á leiðinni heim. Má vera, að mér hafi fundist frekar til um þetta í það skiftið. Nokkuð var það, að eg talaði ekki meira en þurfti á leiðinni heim.

Þetta var í júlímánuði, á sama árstíma og við

Mr. Morris sátum fyrst saman í vagni. Voru nú liðin sex ár síðan.

Litlu eftir þetta ræð eg enn af að bera málið upp við manninn minn. Í þetta sinn lét eg samt meir stjórnast af tilfinningum en nokkru öðru. Þegar eg benti á, að þessi maður hefði keypt léttivagn, lét eg fylgja með: "Hann vill þó gjöra svo mikið fyrir konuna sína."

Mr. Morris svaraði: "Það má vel vera, að hann hafi keypt hann í orði, en hann er ekki búinn að borga hann enn þá."

Samtalið endaði svo í þetta sinn, að eg hafði aldrei áður fundið til eins mikillar geðshræringar. Samt beitti hann engum stóryrðum við mig.

Var eg nú alráðin í því "að sigla minn eigin sjó" og vera ekkert upp á hann kominn framar. Ritaði eg konu einni í Brandon, sem eg hafði kynst, og bað hana í gegn um mann sinn, að útvega mér léttikerru fyrir einn mann, sem ekki væri mjög dýr. Það gekk alt vel, svarið kom og kerran átti að kosta $25.00. — Gott.

Við höfðum fjórar kýr, sem mjólkuðu vel, svo eg hafði talsverða smjörgerð; var það eitt, sem eg lærði í skólanum í London. Áður hafði eg enga hugmynd um það. Gat eg þegar borgað nokkuð í kerrunni með smjöri og eggjum, og ætlaði þannig að borga hana að fullu. Litlu síðar var kerran komin heim til mín, og leizt mér hún eigulegt þing.

Næsta sunnudag bað eg bónda minn að leggja aktýgi á og setja Prince (nafn hests) fyrir kerruna. Eg ætlaði til kirkju.

Þar sem hesturinn stóð fyrir kerrunni fram undan kofa-dyrunum (enn þá var bjálkakofinn við lýði) og Mr. Morris hélt í taumana, segir hann í því eg ætlaði að stíga upp í kerruna: "Viltu ekki, að eg fylgi þér á leið að sjá hvernig þér gengur að keyra?" Jú, eg þáði það, því eg var hrædd um að það færi í ólagi hjá mér, þó að hesturinn væri tamur. Eg hafði aldrei tekið í tauma á hesti fyrri.

Alt gekk upp á það bezta. Hann lét mig bráðum taka við taumunum, og gaf mér ýmsar bendingar með taumhald og fleira, sem viðkom hestinum. Prince var líka mjög þæg skepna.

Svo leið fram sumarið og haustið, að ekkert deilu-efni kom fyrir millum okkar. Eg borgaði kerruna að fullu og mintist hann aldrei á það einu orði.

Sú skoðun var nú að ryðja sér til rúms hjá mér, að eg væri sjálfstæð persóna, ef mér sýndist svo. Áður hafði mér ekki dottið slíkt í hug. Fáa sunnu-daga var eg heima þetta haust; annað tveggja fór eg til kirkju eða til nágranna-kvenna minna. Alla aðra daga var eg samt heima og stundaði verk mín.

Einhverju sinni um haustið var það, að bóndi minn var ekki úti á akri. Bæði var það, að nýlega var af-staðin mikil rigning, svo jörð var helzt til of blaut til plægingar og líka hafði hann eitthvert nauðsynlegt verk að vinna heima við húsið.

Notaði eg nú tækifæri á virkum degi og fór til Brandon. Þegar eg kom þangað, var eg svo heppin —mér fanst það hepni þá—, að skemtisamkomu átti að halda síðdegis í samkomuhúsinu. — Vaknaði nú mikil þrá hjá mér, að geta notið þessarar skemtunar

en heim þurfti eg að fara um kvöldið vegna barnanna, hvað sem öðru leið.

Ekki var Mr. Morris samt einsamall, þar eð vinnumaður var hjá okkur, sem hann hafði ráðið um uppskerutímann.

Eg fór inn á samkomuna, sem reyndist hin skemtilegasta, en ætlaði samt ekki að vera mjög lengi. Þetta var í októbermánuði, og dagur því farinn mjög að styttast. Varð niðurstaðan sú, að eg mátti til að setjast að yfir nóttina. Þegar eg gáði að mér og ætlaði að leggja á stað heimleiðis, var sól runnin og þá var myrkur bráðlega skollið yfir. Fólkið réði mér frá að leggja á stað, og eg vissi, að eg mundi ekki rata rétta leið eftir að myrkt var orðið.

Börnin voru svo á legg komin, — Harry var á 6. ári en Violet á 4.—, að faðir þeirra gat sint þeim, svo að þau liðu ekkert. Að öllu þessu yfirveguðu, fanst mér, að eg hafa fundið gott tækifæri til að skemta mér, og þannig bæta upp marga liðna einverustund. Seinna um kvöldið var dans, sem stóð til miðnættis, og tók eg góðan þátt í honum. Næsta dag kom eg heim hér um bil klukkan 10 f.h. Var þá vinnumaður genginn til verka úti á akri, en Mr. Morris var heima hjá börnunum. Ekki fann eg ástæðu til að fara að biðja hann afsökunar, því satt að segja þóttist eg ekkert hafa brotið á móti honum — að minsta kosti ekki meira en altítt var af bændunum. En jafnframt duldist mér ekki, að eg var að gjöra honum, og um leið okkur báðum, skaða, þar sem hann þurfti nú að vera heima yfir börnunum um mesta annríkistíma ársins. Auk þess var það föst regla hans, að ganga árla til

verka. Reyndi eg því að vera eins mjúk í máli og eg gat, sagði honum alla söguna, nema dró undan dansinn. Fremur var hann þur í atlotum, en talaði fátt. Samt sagði hann með talsverðri alvöru, að hann heimtaði af mér að stunda mín verk, engu síður en hann stundaði sín.

## VII. KAPITPLI.

### "Enginn ræður sínum næturstað.

Það var komið fram um miðjan nóvembermánuð. Allar hinar mestu haustannir voru nú um garð gengnar. Jörð var frosin en snjólaus og tíðin góð. Skógurinn var afhjúpaður öllu sumarskrúðinu, en samt stóðu aspirnar hlið við hlið teinréttar, eins og þær hefðu svarist í fóstbræðralag að styðja hver aðra gagnvart hinum sterka og frostbitra norðvestanvind, sem nú var í vændum. Sömuleiðis voru grassléttunnar orðnar afar-fölar. En þar var bót í máli, að þær áttu von á ábreiðu til skjóls áður langir tímar liðu.

Nú kom að mér óþreyjukast; mér fanst ógjörningur að sleppa svona góðum degi fram hjá ónotuðum. Bráðum var veturinn kominn á með allri sinni frostbitru og snjóbyljum. Var þá svo sem úti fyrir mér að geta komist nokkuð—þó ekki væri nema til Brandon.

Það vildi líka svo vel til, að svo stóð á með tungl, að það var nálægt fyllingu; svo þó að eg yrði nokkuð naumt fyrir, var eg viss að rata í björtu tunglsljósi.

Eg segi því við bónda minn, að eg ætli til Brandon þenna dag, verði það víst í síðasta sinni um langan tíma, þar sem veturinn sé nú bráðlega genginn í garð.

Hann segir: "Þú manst eftir því, sem eg hefi við þig talað: Gættu skyldu þinnar."

Þegar eg var búin að klæða mig, stóð Prince fyrir kerrunni, bundinn þar skamt frá húsinu, en Mr. Morris sá eg ekki, þóttist samt vita, að hann væri í nánd. Eg kysti blessuð börnin mín og sagði þeim, að eg skyldi koma aftur um kvöldið með brjóstsykur og appelsínur. Þau höfðu ætíð fengið þessháttar, þegar eg kom frá Brandon, svo þau vildu gjarnan, að eg færi að sækja það.

Til Brandon kom eg hér um bil kl. 3 síðdegis. Í þetta sinn ætlaði eg ekki á skemtisamkomu eða neitt þessháttar, heldur að eins sjá nokkrar kunningjakonur mínar og kaupa ýmsa smámuni í búðum, sem eg vildi velja sjálf, þar sem eg bjóst ekki við að fara til Brandon aftur um langa hríð.

Alt sýndist nú líta ákjósanlega út: veðrið bjart og fagurt, svo alt útlit var til þess, að gott tunglskin yrði eftir að sól rynni. — Fékk eg nú eina kunningjakonuna með mér; gengum við búð úr búð og skoðuðum vöru þá, sem eg þarfnaðist; enda keypti eg fyrir alla þá peninga, sem eg hafði. Svo fór eg að finna fleiri kunningjakonur mínar, og mér datt ekki í hug að óttast það, þótt fram á kvöldið drægist; veðrið var svo undur fagurt, og eg var viss að rata í glaða tunglsskini.

Sól var runnin fyrir nokkru, en það dimdi ekkert, tunglið skein svo bjart. Eg settist að kveldverði hjá einni vinkonu minni. Berst þá í tal, að þau hjónin ætli á danssamkomu um kvöldið. — Ætíð hafði eg fundið til mjög sterkrar ástríðu að dansa. Tólf ára

gömul byrjaði eg að dansa og hélt því stöðugt áfram á meðan eg var í vistum. Lærði eg dansinn svo vel, að eg fékk mesta hrós fyrir.

Nú var freisting; já, voðaleg freisting. — Nei, eg mátti ekki dansa, þá kæmist eg ekki heim. Blessuð börnin mín! Eg varð að fara heim til þeirra. Og svo var Mr. Morris. Nei, eg mátti ekki gjöra það.

Þetta var alt af að brjótast í mér, meðan eg var að borða, svo að eg hafði litla matarlyst. Loksins segi eg: "Ef að heimili mitt væri nær, færi eg með ykkur á dansinn. Mér þykir alt af gaman að dansi. En—eg má til að fara heim í kvöld."

Vinkona mín, sem hét Emiliía Andrews, segir: "Ó, er það ekki bágt, að þú skulir ekki geta verið á dansinum; þú sem getur aldrei komið aftur í allan vetur?"

"Það verður nú samt svo að vera; eg má til að fara heim."

"Það getur ekki gjört neinn skaða, þó þú sért hjá okkur í nótt. Mr. Morris lítur eftir börnunum; þau eru orðin svo stálpuð."

"Já, en eg lofaði blessuðum börnunum mínum að koma heim í kvöld með brjóstsykur og appelsínur, svo þau vaka eftir mér. Líka veit eg, að Mr. Morris þykir það miður."

Í þessu gegnir Mr. Andrews fram í og segir: "Eg sé ráð við þessu, svo alt fari vel."

"Hvernig er það?" segir kona hans.

Hann segir: "Mrs. Morris getur dansað tvær kl.-stundir. Dansinn byrjar á slaginu kl. 8. Eg skal fylgja henni fram fyrir Thompson's löndin; það er

meira en helmingur af leiðinni. Úr því er landið skóglítið og engir skógarbuskar meðfram veginum. Treystir þú þér ekki vel til að rata úr því, Mrs. Morris?' segir hann enn fremur.

"Jú, því ætli eg geti ekki ratað, ef að tunglsskinið verður eins bjart og það er nú?"

"Það er engin hætta á öðru, því tunglið gengur ekki undir fyr en eftir miðnætti," segir Mr. Andrews.

Mrs. Morris segir: "Þetta var gott; þú getur auðvitað riðið "pónanum" þínum."

Klukkan 10 lögðum við Mr. Andrew á stað. Veðrið var kyrt og raunar gott; þó gat maður fundið, að talsvert frost var komið í loftið. Hér og þar sást eins og skýja samdráttur. Tunglsskin var á, þó ekki vel bjart, og leit út eins og móða væri fyrir tunglinu. Mr. Andrew þræddi götuna á "pónanum", en eg keyrði Prince á eftir. Fóru nú skýja samdrættir að sjást hér og þar og jafnvel dró fyrir tunglið með köflum. Þegar Andrew var kominn eins langt og hann hafði talað um, stöðvar hann hestinn og segir: "Nú vona eg að þér sé óhætt heim til þín?"

"Já, mér ætti að vera óhætt héðan af," segi eg. "Nú er eg komin yfir alt, sem varasamt er á leiðinni."

Svo kveðjumst við og hvort heldur sína leið.

Mér fanst, að eg mundi áreiðanlega rata heim, og það var tæp klukkustundar ferð. Gatan sást fram undan, og jafnvel þó að grasið væri sumstaðar svo mikið, að það næstum byrgði hana, þá var á öðrum stöðum hægt að greina hana frá hrímgaðri grassléttunni. Svo treysti eg á hestinn, að hann mundi ekki sleppa götunni.

Nú rennur ský fyrir tunglið, svo að birta þess hvarf. Ekki leið samt langt um, þar til fór að lýsa af því aftur; sá eg þá glögt, að eg var enn á götunni. Svo held eg áfram og vonaðist eftir að verða bráðum heima. Auðvitað fór eg ekki eins greitt eins og ef bjartur dagur hefði verið. Kannske leiðin finnist lengri þegar dimt er. — En brátt rekur að því, að þolinmæði mín er að þrotum komin. Fer eg nú ofan úr kerrunni að vita fyrir víst, hvort eg sé á götu, því að grasið var nú svo mikið, að eg sá hana óglögt.

Já, eg var á götu; stíg eg svo aftur upp í kerruna og keyri áfram. Nú hlaut eg að eiga skamt eftir ófarið, eftir tímanum að dæma. Það leið ekki á löngu, áður eg komst að því sanna, því nú er eg komin að runna miklum, og verð áskynja, að eg hefi vilzt á skógargötu.

Að fara til baka var þýðingarlaust; nú vissi eg alls ekki hvar eg var stödd. Hina réttu götu var mér ómögulegt að finna aftur. Þýðingarlaust að fara þaðan, sem eg var nú komin. Þarna varð eg að láta fyrirberast yfir nóttina. Losa eg nú hestinn frá kerrunni og bind hann við tré.

Ónotalegur kuldi fann eg að kominn var í mig. Fór eg því að ganga um og reyna að hreyfa mig sem mest. Eg var nokkurn veginn vel klædd, en þó alls ekki nógu vel til að mæta þessu. Svo hitnaði mér líka á dansinum. — Mr. Magnússon! Eg ætla ekki að lýsa fyrir þér sálarstríði mínu þessa nótt. Eg hefi eiginlega engin orð yfir það. Um morguninn, þegar fór að lýsa af degi, var eg þó enn með svo miklu þreki, að eg gat komið hestinum fyrir kerruna. Eg fann hvergi til

mikilla sárinda, en var dofin og magnþrota. Mér fanst næstum, að allur líkami minn vera tilfinningarlaus. Svo skreið eg upp í kerruna og lagaði taumana. Sneri svo út á götuna til baka, því það var eina leiðin til að komast á hina réttu götu. Ó, hvað mér var nú kalt! Þegar eg kom út úr skóginum, var mikill vindur á með frosti. Og mér fanst hann svo ógurlega kaldur. Upp á líf og dauða keyrði eg Prince nú áfram, enda var hann fús að hlaupa, því honum var líka kalt.

Ekki mun eg hafa keyrt yfir mílu vegar, þegar eg kom á götumótin. Fann eg nú fljótlega réttar áttir, og sneri á götu að heimili mínu. Eftir fáar mínútur var eg komin að húsinu okkar. Stóð Mr. Morris skamt þaðan.

Eg ætlaði að stíga ofan úr kerrunni, en var þá svo dofin að eg kom ekki fótum fyrir mig, heldur valt flöt ofan á jörðina. Í sama vetfangi var maðurinn minn kominn til mín og vegur mig upp í fang sér og ber mig inn í svefnherbergi okkar. Svo gengur hann út að hirða um hestinn.

Tók eg nú á öllu, sem eg átti til, að komast úr fötunum og byrgja mig niður í rúmfötunum hjá blessuðum börnunum mínum, sem sýndust sofa svo vært.

Fljótt mun eg hafa mist alla meðvitund og fallið í fastan svefn. Hvað lengi eg lá þannig, veit eg að eins að svo miklu leyti, sem hann sagði mér síðar. Kring um kl. 3 sýndist honum að eg vakna; talaði eg þá óráð svo mikið, að hann gat ekki ráðið í það. Að eins þóttist hann skilja, að eg mundi vera þyrst. Enda reyndist það svo, því eg hafði drukkið mjög mikið. En hann

var svo aðgætinn, að hafa það ekki kalt. Klukkan í kring um sex vaknaði eg algjörlega af svefni þessum. Var eg þá með fullu ráði og rænu, en ákaflega veik. Og höfuðið var svo þungt, og enn þá fanst mér það eins og dofið. Líkami minn var allur svo sár, og enn var eg þyrst, ákaflega þur og þyrst. Eftir að Mr. Morris hafði gefið mér haganlegan drykk og hlynt að mér eftir beztu þekkingu, lét hann ekki segja sér hvað næst væri, heldur stekkur í vetfangi til grannkonu okkar, Mrs. Edmunds, og kemur með hana til mín. Þessu næst tekur hann bezta hrossið sitt, setur fyrir kerruna og fer á stað til Brandon eftir lækni. Komu þeir aftur til baka um nóttina. Kannaði læknirinn mig alla og mældi hitann. Mjög var eg rænu sljóf, sárir verkjarstingir vöktu mig til meðvitundar.

Fjórum sinnum var læknisins vitjað frá þessum tíma til jóla; var eg þá orðin svo hress, að eg gat setið uppi í rekkjunni, og hefði getað klæðst, ef að læknirinn hefði ekki bannað það. Að vísu sagði hann, að eg mætti að eins klæðast, en alls ekkert vinna. Sagði hann við manninn minn, að mér batnaði ekki til fulls, fyr en eg væri orðin léttari. Enda reyndist það svo. Sextánda marz fæddist drengurinn þarna, hann Frank litli. Gekk fæðingin vel; mun svo oft reynast, þegar konur eru veikar áður.

Aldrei fanst mér maðurinn minn eins innilega hlýr til mín, eins og einmitt í þessum veikindum.

— — — —

Af þessu hér að framan sögðu, sérðu Mr. Magnússon, að eg er í stórri skuld við hann. Þegar mest lá við, var hann ekki að hugsa um það, hvort hann hefði pen-

inga til að borga lækninum. Nei, slíkt var sjálfsagt, hvað sem það kostaði.

Hann vildi ekki kaupa léttivagn, nema borga hann, eða að minsta kosti sjá, að hann þyrfti ekki lengi að standa í skuld fyrir hann. Hann hafði sett sér þá reglu, að taka ekki vörur að láni, nema nauðsyn krefði. Nú á maðurinn minn beztu tegund af léttivagni, sem við notum bæði sameiginlega."

Þegar Mrs. Morris hafði endað sögu sína, var orðið nokkuð áliðið kvöldið, svo eg bauð henni góða nótt, með þakklæti fyrir góðvild og hreinskilni sína. Gekk eg síðan til herbergis míns uppi á lofti

## VIII. KAPITULI.

### Nú sá hann það.

En í þetta sinn gat eg ekki sofnað. Sagan skildi eftir svo mikil áhrif í huga mínum, sem vörnuðu ró og værum svefni. Mér fanst koma svo göfugar einkunnir fram í henni, staðfesta og umburðarlyndi, er væri svo langt fram yfir það, sem alment viðgengst í lífinu. Og hvað þessar góðu einkunnir fengu æskilega viðurkenningu. Nú voru bæði sæl. Svo undur sæl!

En aftur á móti, ef ekkert umburðarlyndi hefði verið sýnt, og mótgjörðir teknar upp eftir strangasta mælikvarða. Hvernig hefði þá farið? Bæði ógæfusöm— lífið eyðilagt.

Hafi eg nokkurn tíma fundið til öfundar, þá var það í þetta sinn. Ekki var það samt **afbrýðissemi,** og því ekki rétt að kalla þá tilfinning **öfund,** sem hér kom fram, heldur **angur,** að hafa ekki gæfu til að lifa samkvæmt

göfugu eðlisfari. Oft hafði mér í huga komið í þessu landi, einkum undir ýmsum óskemtilegum og óþægilegum lífskjörum, ólán mitt. Alt af hætti mér við að skoða það sem ólán, sem eg hefði þó getað yfirstigið. Eg man eftir, að eg gekk svo langt í þessari ímyndun, að eg fór að rifja upp gömul ummæli, sem eg mundi frá barndómstíð minni.

Það var niðursetukerling í Holti hjá foreldrum mínum, sem Guðríður hét. Hafði hún flimtrað því í einhverju hjátrúarskyni, að eg mundi ekki gæfumaður verða. Ekki lét hún samt móður mína heyra það, heldur vinnukonur. Færði hún það til sönnunar, að 2. janúar væri ógæfudagur, og að sá mundi ekki gæfumaður verða, sem fæddur væri þann dag. Eg held samt, að enginn hafi lagt mikinn trúnað á þetta, sem heyrði, heldur skoðað það sem markleysu hjá gömlu Guðríði. En hvað sem því leið, höfðu mér stundum flogið þessi ummæli í hug í þessu landi.

Nú fanst mér eins og opnast fyrir mér nýr heimur, nýjar skoðanir, nýjar tilfinningar. Mér fanst, að eg geta skoðað frá alt öðrum hliðum, heldur en eg hafði áður gjört. Nú þóttist eg sjá, að eg hefði getað yfirstigið ólán mitt, ef eg hefði haft nógu ríkt í huga umburðarlyndið, eða þó heldur. ekki misskilið svo hrapar-lega manneðlið.

Eg gætti þess ekki, að Ingibjörg var að sumu leyti unglingur, þegar hún giftist. Hún hafði meira fræðst bóklega, heldur en verklega. En eg taldi víst, að hún væri fullnuma í öllum greinum. Skólaganga var svo stórt orð í huga mínum. Og þar sem eg sá og vissi, að

hún hafði skarpar skoðanir og vel sjálfstæðar, var eg sterkari í þesu áliti mínu.

Betur að eg, í staðinn fyrir að lýsa yfir óánægju minni og vonbrigðum þegar á fyrstu árum — þó aldrei hefði stór orð—, hefði haft vakandi í huganum, að kæla hana ekki, heldur þvert á móti glæða ást hennar, í sambandi við að hvetja hana til áhuga að gegna sinni stöðu. Það hefði orðið auðveldara, ef nógu mikilli lipurð hefði verið beitt.

Þetta varð mér svo greinilega ljóst, því að endurminningar um ýms orð og atvik, skýrðu það svo, að lifandi sannfæring vaknaði hjá mér um, að eg væri sjálfur valdur að böli mínu.

Böl og ólán fanst mér það vera frá öllum hliðum. Eg hafði bæði mikinn viljakraft og útlit til að verða styrkjandi sveitarfélagsins, sem eg var uppfóstraður í, og þar með leiðandi í einhverju nýtilegu fyrir það og landið, sem eg unni. Hér var eg útlendingur og einstaklingur, engu nýtur.

— — — —

Mr. Morris gekk með konu sinni í Methodista söfnuð, sem stofnaður var í Brandon. Vann hann að því ásamt sveitarfélögum sínum, að koma upp húsi þar í bygðinni, sem bæði er notað fyrir kirkju, fundarhús og fleira.

Yfirleitt eru Methodistar strangir á móti dansi. Má vera, að Morris hafi álitið nauðsynlegt að vinna að því að draga úr of miklum dansfundum, þegar fólki fjölgaði og lífsþægindi uxu.



# Fjórði kafli.

## IX. KAPITULI.

### Ættarsvipurinn.

Þetta hið næsta sumar fór eg ekki til Brandon, heldur var við húsasmíð hjá nágrönnum þeirra Morris-hjóna. Var efnahagur sumra þeirra svo aukinn, að þeir sáu sér fært að byggja íbúðarhús úr timbri, eins og Morris hafði gjört. Vildu þeir heldur fá mig til að smíða, heldur en leita inn til Brandon eftir smiðum, jafnvel þó það væru þeirra eigin landar. Húsbændur mínir báru þeim líka gott orð af mér.

Sjaldan kom eg til Brandon, þetta sumar, að eins stöku sinnum með bændum að velja byggingarefni. Þetta sama haust í októbermánuði, bar einhverju sinni svo undir, að eg fór til Brandon með bónda þeim, sem eg vann þá fyrir; hét hann McPherson. Vorum við staddir í sölubúð einni, þar sem hann var að kaupa nauðsynjar sínar, er tvær litlar stúlkur komu inn í búðina. Var önnur á að gizka 10—12 ára, en hin eins og 7—8 ára. Sú eldri víkur sér kunnuglega að búðarmanni og tilnefnir vöru þá, sem hún átti að sækja: aldini og fleira. Minni stúlkan bíður framar á gólfinu á meðan verið er að búa um vörurnar; því næst ganga þær báðar út aftur.

Eg gekk út í dyrnar að sjá hvert þær stefndu; þær gengu að hóteli, sem var þar all-skamt frá, og inn í það. Var það annað hótelið í bænum og sem bygt hafði verið í seinni tíð.

Mér fanst að þessi minni stúlka mundi vera af útlendri ætt. Svo var efnið í kjólnum hennar meira líkt útlendu; rauð-köflóttur dúkur, svo mjög líkur þeim, sem Íslendingar búa til á Fróni. Reyndar gat eg ekki trúað mínum eigin augum, að því leyti, að mér fanst að eg þekkja eins og ættarmót hjá þessari litlu stúlku.

Til þess að vita eitthvað meira um hana, vék eg mér að þessum búðarmanni og spurði hann um þessar ungu stúlkur. Sagði hann mér, að þær ættu heima í hótelinu, sem hann nefndi með nafni. Væri yngri stúlkan útlendingur, sem hefði komið þar fyrir stuttu síðan. Hann hélt hún væri af Norðurlanda kyni. Móðir hennar væri vinnukona þar á hótelinu.

Ekki grenslaðist eg meira um stúlku þessa í þetta sinn. Fórum við McPherson heimleiðis, þegar hann hafði lokið verzlunarerindum sínum.

Ekki gat eg varist því, svona stöku sinnum, að litla stúlkan kom inn í huga minn. Mér fanst hún hlyti að vera einhverstaðar úr ætt minni. Eg þóttist sjá ættarsvip, bæði móður minnar sálugu og sérstaklega Betu frændkonu minnar, þegar hún var ung.

En hvernig sem eg reyndi að leita í huga mínum, gat eg ekki fundið spor til þess, að nokkur nátengdur ættingi minn væri kominn hér til lands. Að vísu hafði eg ekki fengið bréf að heiman í fult ár, en mér var kunnugt um, að ekkert af mínu fólki var að hugsa um Ameríkuferðir. Jafnvel þó eg slægi þeirri hugsun frá mér, að þessi litla stúlka væri afsprengi ættar minnar, vildi eg samt komast fyrir hið sanna í því efni. Ef þessi kona væri skyld mér eða kunnug frá fyrri tíð, var mér kært að kynnast henni, og fá fréttir að heiman.

Legg eg því í annað sinn á stað til Brandon með Mr. Morris, sem átti erindi inn í bæinn. Ekki sagði eg honum samt frá konu þessari, sem eg ætlaði að grenslast um, því enn vissi eg ekki hvort hún var íslenzk. Fór eg nú á hótel þetta, sem mér var sagt að konan væri í vist á, og fékk mér miðdagsverð. Mætti þannig ske, að eg sæi hana, en það brást. Eg sá að eins tvær borðstofustúlkur, og hvorug þeirra var íslenzk.

Til þess að fara ekki erindisleysu, gaf eg mig á tal við mann, er vann þar á hótelinu. Ásamt fleiru færði eg talið að Íslendingum. Sagði eg honum þjóðerni mitt, enda fann hann það vel, að eg var af Norðurlanda ættum. Hann sagði mér, að tvær íslenzkar stúlkur væru þar á hótelinu, héti önnur Mrs. Christianson og hefði litla stúlku með sér, en hin héti Miss Johnson. Lét eg í ljós, að eg vildi gjarna tala við aðra hvora þessa stúlku. Fer hann inn í afturbygginguna, en kemur fljótlega aftur og segir: "Miss Johnson er ekki inni sem stendur, en hin afstakaði sig með annríki.

Sá eg nú, að eg varð að fara í þetta sinn, án þess að verða nokkurs vísari að öðru en því, að þarna voru íslenzkar stúlkur, og önnur hét Mrs. Christianson. Eg legg því á stað frá hótelinu og ætla að hitta kunningja minn, Jón Stefánsson. Skamt þaðan sé eg sömu litlu stúlkuna, er eg sá fyrri í búðinni, ásamt fleiri börnum; þau voru á leiðinni til skólans.

Jón var farinn til vinnu sinnar, en eg hitti Ingibjörgu konu hans heima, sem bauð mér inn í hús sitt. Tókum við nú tal saman um hitt og þetta. Eg var henni eins vel kunnugur og honum.

Eg leiddi talið að þessum ísl. konum á hótelinu.

Sagði hún mér, að þær hefðu stöku sinnum komið þar í húsið, en hún væri þeim samt ekki vel kunnug enn. Enn fremur sagði hún, að eldri konan væri ekkja og héti Ingibjörg Kristjánsdóttir, hefði hún dálitla stúlku, sem hún ætti, og héti hún Sigríður. Hin stúlkan væri ógift, og héti Guðrún Jónsdóttir. Ekki mundi hún hvaðan þær voru af Íslandi; einhvers staðar af Norðurlandi. Yngri stúlkan hefði komið fyrri og dvalið áður í Winnipeg, en ekkjan hefði komið frá Íslandi þetta hið sama sumar.

Ekkert hreyfði eg því við Ingibjörgu, að eg fengi grun um, að eg kannaðist við þessa konu, því mér fanst eg ekki geta skilið í, að hér væri um að ræða konu þá. sem eg hafði einu sinni átt.

Þegar eg kvaddi Ingibjörgu, segi eg við hana með uppgerðar brosi: "Kannske þú getir sagt mér næst, hvaðan þessar konur eru af Íslandi."

## X. KAPITULI.

### Blóðskyldan.

Eftir þessa ferð fann eg til meiri óróa og óánægju, heldur en eg hafði gert um langa hríð áður. — Ingibjörg Kristjánsdóttir, ekkja, og Sigríður dóttir hennar — stendur alveg heima. Og stúlkan á að vera 7 ára gömul. Það sýnist koma heima við aldur þessarar litlu stúlku, eftir stærð hennar að dæma. Mér fanst alt styðja að því, að þetta hlyti að vera barnið mitt — **nafnið, vöxtur** og **svipur.**

Hvernig gat staðið á því, ef Ingibjörg var komin til Ameríku. Skyldi Stefán vera dáinn? Jón bróðir

skrifaði mér síðast liðið ár, að altalað væri að þau ætluðu að giftast; og hún bað um skilnað til þess. Þessar hugsanir og margar fleiri voru á stöðugri hringferð í heila mínum.

Um fram alt vildi eg nú komast að hinu sanna, því ef að þetta væri barnið mitt, langaði mig svo undur mikið til að opinbera mig fyrir því, og helzt ná því á mitt vald. En svo þorði eg ekki að slá þessu föstu í huga mínum: því ef það reyndist annað, yrði eg sárari eftir.

Eg var að reyna að draga úr fagnaðar tilfinningunni, með því að finna ástæður á móti. En alt slíkt var að eins uppgerð. Vonar og fagnaðar tilfiningin varð alt af ofan á. En þó kveið eg svo mjög fyrir afleiðingunum, ef þetta reyndust alt vonbrigði.

Að eðlisfari hefi eg frekar verið þéttur og fastur í lundu, en nú fanst mér að tilfinningarnar ætla að fara með mig í ýmsar gönur. Mér fanst eg ekki hafa eirð að vera við vinnu mína. Vildi helzt fara til Brandon, að fá fulla vitneskju um þetta. Hvernig átti eg að komast að því sanna? Kannske Ingibjörg hefði frétt til mín, eða þá séð mig út um glugga á hótelinu, og forðaðist mig, af því hún óttaðist, eð eg tæki af sér barnið okkar? Svo skyldi hún taka upp á því, að fara burtu frá Brandon, t. d. til Winnipeg, til að komast undan með það?

Eg gat ekki staðist þetta. Eg hafði enga eirð að vera við verk mitt. Eg varð að fara til Brandon og vita hið sanna. Því, ef barnið mitt var þar, gat eg ekki þolað, að það væri tekið á burt. Eg hafði alt af lifað í þeirri von, að mér auðnaðist einhvern tíma að

ná því til mín. Jafnvel þó eg yrði að sækja það heim til Íslands. Nú fanst mér mesta ánægja, sem eg gat hugsað mér, að hafa þetta barn nálægt mér og vinna að farsæld þess.

Fer eg nú til Morris vinar míns, og fæ lánaðan hjá honum hest og kerru til Brandon. Á leiðinni er eg að hugsa um það, hvernig eg eigi að snúa mér í þessu efni. Mér fanst ekki heppilegt að byrja með því að fara í hótelið, og fá þessa konu til viðtals. Því, ef það væri kona sú, sem eg hafði einu sinni átt, var hugsanlegt að hún vildi forðast mig, af áður sögðum ástæðum. Og svo fanst mér líka ekki heppilegt, að við töluðum saman á almanna færi, því vel mætti fara svo, að einhver geðsbreyting sæist hjá öðruhvoru okkar, þó orðin ekki skildust. Við höfðum ekki sézt síðan við skildum á Mýrum, fyrir fjóru og hálfu ári síðan.

Þegar inn í bæinn kom, fer eg fyrst til Jóns vinar míns og segi honum erindi mitt. Kemur okkur saman um, að eg fari til konu hans og við leggjum ráð niður, hvernig öllu skuli haga til.

Þegar við Ingibjörg Sigurðardóttir fórum að tala saman, álitum við réttast að ná litlu stúlkunni og heyra hvað hún hefði að segja. Með því þetta var um skólatíma eftir hádegið, ætlaði Ingibjörg að reyna að ná henni þegar hún kæmi úr skólanum.

Þetta gekk alt vel , hún nær henni, með því að segja henni, að móðir hennar væri þar í húsinu og vildi finna hana. Stærri stúlkan af hótelinu kom með henni.

Þegar þær komu inn í húsið og sáu að þa- var

karlmaður, sem þær þektu ekki, í staðinn fyrir móður Sigríðar, sýndu þær á sér hræðslumerki. Segir þá húsfreyja þeim, að þær þurfi ekki að vera hræddar, þetta sé Íslendingur, sem vilji tala við Siggu litlu. Svo þær urðu rólegar.

Þegar eg hafði spurt barnið lítið eitt, varð eg sannfærður um, að hér var mitt eigið barn. Sagði hún mér að Stefán á Hólum hefði druknað í á þar nálægt, og að móðir sín hefði komið til Ameríku um sumarið. Ekkert vissi hún um föður sinn, hélt hann væri dáinn.

Ekki vildi eg opinbera mig fyrir henni að svo stöddu. Því næst lét Ingibjörg litlu stúlkuna fara yfir að hótelinu. Þegar þær voru farnar, tökum við húsfreyja tal saman. Sagði eg henni að eg vildi ekki fara úr bænum án þess að tala við Ingibjörgu Kristjánsdóttur. Bauðst húsfreyja til að fara yfir á hótelið eftir að dagsverki var lokið og fá hana til að koma hingað til viðtals við mig.

Þegar við Ingibjörg fórum að tala saman um kvöldið, lét hún mig fullkomlega skilja, að við værum skilin að lögum og værum því bæði laus og frjáls.

"Á mína hlið gat eg búist við því," sagði eg; "en mig nærri undrar á því, að þú skulir vera komin hingað undir þeim kringumstæðum. En hvað sem öllu öðru líður, finn eg mikla hugarfró í því að barnið mitt er komið. Og hér eftir mun eg hafa einhverja íhlutun með það."

"Eg á barnið eigi síður en þú," sagði hún, "og eg læt það ekki frá mér. En ekki vil eg aftra því að

það njóti föðurlegrar umhyggju og hlýleika frá þér."

"Þú getur haft það hjá þér næsta vetur, ef þú verður kyr í Brandon, en aftur ef þú ferð í burtu, tek eg það til mín," mælti eg.

"Þú hefir ekkert heimili handa henni," segir hún.

"Jú, eg get haft það, ef eg þarf á að halda," var svar mitt.

## XI. KAPITULI.

### Dýrseðlið í manninum.

Margvíslegt er það, sem mönnum ber á milli á lífsskeiði þeirra hér í heimi. Gengur það sundurlyndi stundum voðalega langt. Einn gjörir svo mikið á hluta náunga síns, að hinum finst að hann hafi fyrirgjört að vera nokkurn tíma tekinn í sátt. Mennirnir fórna velsæld náungans fyrir sín eigin ímynduðu lífsgæði, sem að eins vara þó skammvint áraskeið. Já, meira að segja, dýrseðlið verður svo taumlaust hjá sumum mönnum, að þeir fórna lífi einstaklinganna fyrir stundar-nautnir. Voðaleg er þessi villa og sjálfskapað böl mannanna.

Af öllum hinum smærri misgjörðum og ólagi í félagslífi manna, er eitt sem er alveg sérstaks eðlis, og það er misheppnuð ást milli karls og konu. Ef að ólagið hefir gengið svo langt, að ástar-bandið slitnaði í sundur, þá verður tilfinningin vanalega á þá leið, að persónurnar vilja ekki sjást. Langt er frá því, að hatur standi þar ætíð á bak við. Jafnvel þvert á móti geta góðar tilfinningar búið í beggja hjörtum.

En af því sambandið í fyrstunni var af öðru efni,

heldur en alment er á milli kunningja og vina, stjórnast ástandið, þegar persónurnar hafa fjarlægst hver aðra, af öðru lögmáli.

Augun þola ekki að mætast. Endurminningin er svo glögg frá þeim tímum, þegar Kúpídó sendi boðbera sína þar á milli.

Kúpídó með hitann og ljósið er horfinn á braut, og í hans stað er aftur kominn alvarlegur og í sumum tilfellum hluttakandi vandlætari. En flísin, sem einu sinni varð að bjálka, varir enn við í auganu.

Og þeir, sem einu sinni fundu mesta yndi að broshýru yfirbragði hvor annars, geta nú helzt ekki vitað af návist hins.

Ekki skal eg fullyrða, að allar þessar einkunnir hafi komið fram í tilfinningalífi mínu, en svo mikið vil eg þó segja, að eg fann breytingar voru að koma á hina rólegu og áhyggjulausu þanka mína.

Eins og eg hefi áður minst á, var eg fulkomlega meðvitandi þess, að eg var talsvert valdur að ógæfu okkar Ingibjargar. Ógæfu, sem við vorum bæði að meira og minna leyti völd að, en sáum ekki fyr en of seint.

Með fúsum vilja gaf eg henni eftir skilnaðinn, og bygði þá skoðun mína meira á hennar farsæld heldur en minni eigin.

Nú, þrátt fyrir þetta, var hún komin hér til lands, útlendingur, einmana og vinalaus. Og nú varð eg að bæta því ofan á, að taka af henni barnið mitt. Því ómögulega gat eg leyft henni að fara með það í burtu, kannske á fjarlægan stað—sem eg gat búist við að hún mundi helzt kjósa, sjálfrar sín vegna.

Nei, sú hugsun var mér óþolandi. Í barninu mínu var s á l, sem eg fann eg gat elskað. Það var sál, sem eg vildi lifa fyrir til að gjöra eins farsæla og kostur var á.

## Sálarstríð.

Þetta sama kvöld, sem Sigurður Magnússon og Ingibjörg Kristjánsdóttir höfðu átt samtal um daginn í annað sinn, í húsi Jóns Stefánssonar, og alls ekki orðið á eitt sátt um málið, var hún komin upp á herbergi sitt og bjóst við að fara að hátta. Sigga litla sefur svo undur vært í rekkjunni. Hafði rún kastað ábreiðunni til hálfs ofan af sér. Hún lá á bakið. Hálshnappinn í náttskyrtunni hafði hún ekki hnept, þegar hún lagðist til svefns. Var því lítil rifa, svo vel sást hóstið og lítil hluti af brjóstholinu, sem nú bærðist upp og niður eftir reglulegum andardrætti. Sigga litla hafði verið á skóla um daginn, en eftir skólatímann höfðu þær stallsysturnar, dóttir hjónanna er hét Bertha, fjórum árum eldri, og Sigga haft leiki nokkra með sér, sem þær að eins höfðu sín á milli.

Bezt kunni Sigga við sig, þegar hún var ein með Berthu. Henni fanst sér ofaukið, ef hún lenti inn í stórri leikþvögu á leiktímum við skólann. Hélt hún sig því gjarnast meira utan við. Stundum sagði hún við móður sína: "Eg læri bezt enskuna af henni Berthu" (Betu). — "Getur þú ekki eins vel lært af hinum börnunum?" sagði móðir hennar. — "Nei, þau rugla mig stundum". — Sigga litla lá með sitt gulbjarta hár, sem hún hafði verið svo hirðusöm að binda í bönd, svo það ekki flæktist framan í henni, á hinum mjúka svæfli, sem móðir hennar hafði flutt frá Íslandi ásamt

öðrum rekkju-voðum. Mátti vel sjá af háralit, hálsinum og brjóst holinu merki þess, að hún var af norrænum kynstofni.

Ingibjörg stígur upp í rekkjuna og fer að laga Siggu litlu til, svo hún sjálf geti fengið nægilegt rúm að leggjast til hvíldar. Nú var hún mjög þreytt. — "Það er gott, elsku barnið mitt, að þú veizt ekki hvað fyrir þér liggur," segir hún. "Nú getur þú sofið vært og rólega. Guð veit hvernig næsta nóttin verður. Nú ert þú sjö ára gömul. Á þeim tíma hefir ekki ein einasta nótt liðið svo, að við höfum ekki lagt vanga við vanga, brjóst við brjóst og hönd við hönd.

"Ó, hvílík hörmung að hugsa til þess, ef eg missi þig, elsku-barnið mitt. Þá yrði mér lífið einskis virði. Fyrir þig hefi eg lifað í sjö ár, og fyrir þig ætla eg að lifa í — Nei, eg get ekki hugsað til þess.

"Ó, hve það er satt: 'Sælar eru óbyrjur og þau brjóst, sem aldrei hafa börn mylkt'. Aldrei hefði eg farið frá Winnipeg hingað til Brandon, hefði eg haft nokkra hugmynd um, að h a n n væri hér í námunda. Nei! Nei! Þessi landi þarna á þvottahúsinu—hvað var hann kallaður? Mundi Johnson, jú hann var kallaður Mundi; eg hélt það væri fyrir Guðmund, en hann var þó ekki kallaður Gvendur—, hann sagði, að þessi Siggi Macson, eða Magnússon, hefði farið eitthvað út í Norðvesturlandið, langt í burtu frá Winnipeg. Og hún Gunna skrifaði mér, að þar væri enginn Siggi Macson eða Magnússon í Brandon. Eg var svoddan flón að trúa þessu. Nú sé eg það, að betra hefði verið fyrir mig að vera kyr í Winnipeg — þar var hægra að fela sig fyrir h o n u m, ef hann hefði komið. — Nei, það er

ómögulegt hér í Brandon. Hann Jón mundi segja honum til mín. Þeir kváðu vera mestu vinir.

,,Ó! Ó! H a n n kemur kannske á morgun og tekur h a n a. — Hann má eins vel skjóta mig. H a n n hefir eyðilagt alt mitt líf. — Nei, nei, — eg get ekki þolað það! — Eg vil heldur deyja! — Er enginn vegur, að eg komist aftur til Winnipeg? — Enginn landi hér? — Jón Stefánsson? Nei, bezt hann vissi ekkert um það. Mrs. Collin — hún mundi ekki sleppa mér, fyr en mánuðurinn er útrunninn. Nei, það dugar ekki, eg þarf að fara á morgun. — Kannske h a n n komi á morgun eða næsta dag. — Hann sagðist vera 8 mílur frá Brandon. Alt enskt þar. — Ef h a n n nær h e n n i, þá sé eg hana aldrei framar, já aldrei. — Ó, guð minn góður! Alt enskt þar. Eg get ekki farið til enskra. — Gunna, þó hún kunni meira í enskunni en eg — hvað getur hún gjört? Þó eg biðji hana að tala við Mrs. Collin— hún myndi ekki ansa því. Hvað ætti Gunna að segja henni? Að eg vildi fara; já, strax á morgun. Nei, það er ónýtt. — Að segja henni alt?—Eg gift kona— vilji ekki sjá manninn minn! — Búin að segja frúnni, að maðurinn minn hafi dáið á Íslandi. Ef eg sjálf gæti talað enskuna, þá skyldi eg segja frúnni alt. Já, alt frá byrjun.

"Hvað er mikið eftir af mánuðinum? Jú, næsta laugardag—búin að vera þrjár vikur, og svo þessir tveir dagar, og nú er fimtudagur. Já, dagurinn á morgun. Eg þarf að segja Gunnu alt, strax og við komum á fætur. Frúin má til að gjöra það. Verst að fá enga stúlku strax í staðinn minn.

"Hvenær fer 'trainið' til Winnipeg? Eftir "dinn-

erinn" klukkan hálf-fjögur. Gunna segir alt af "half passed three". Eg skil aldrei enskuna. — Já, svona skulum við hafa það: Gunna segir frúnni, að eg vilji fara með lestinni á morgun og vilji sleppa öllu kaupinu, nema fá bara nóg til að borga fyrir "ticketið" til Winnipeg. — Já, eg man það, það kostaði $8.00 fyrir okkur Siggu í sumar."



Þennan næsta morgun, þegar Guðrún vinnukona kemur ofan í eldhúsið, sér hún strax að Ingibjörg hefir ekki komið þar. Stóin var köld og alt í eldhúsinu bar merki þess, að ekki hefði verið hreyft við neinu frá kvöldinu áður. Gunna lítur á klukkuna og sér að hún er 12 mínútur gengin til sex. Ingibjörg var venjulegast komin ofan í eldhúsið klukkan fimm. Skyldi hún vera veik? segir Gunna við sjálfa sig.

Í mesta flýti kveikir Gunna upp í stónni, lætur nauðsynlegustu ílátin á hana og gengur svo upp á loft að herbergishurð Ingibjargar, sem er aflokuð. Guðrún kallar inn og spyr hvort Ingibjörg vaki.

"Já, Gunna mín," er svarað. "Mér finst eg svo veik, að eg komst ekki ofan í eldhúsið. Eg skal samt ljúka upp fyrir þér."

Þegar Gunna er komin inn, segir Ingibjörg: "Mér er eitthvað mjög ilt. Eg get ekki lýst því. Mig dreymdi mjög illa í nótt. Hafði einhvern óttalega slæman hjartslátt, og gat lítið sofið. Svo er mér ilt í höfðinu. Ef eg reyni að fara ofan, léttir mér kannske yfir höfðinu."

Þegar Ingibjörg kom ofan í eldhúsið og ætlaði að fara að vinna við stóna, snarast hún út í horn, þar sem skolpkeraldið stóð, og í því sama dembist fram úr

henni buna með miklu afli. Kemur því næst fram úr henni hver gusan á eftir annari, hvar með að fylgja miklir krampadrættir. Þegar uppsölunni léttir, segir hún: "Geturðu hjálpað mér upp í rúmið, Gunna mín?" — Þegar Guðrún hafði komið Ingibjörgu upp í rúmið sitt, fer hún að hitta húsmóður þeirra, að láta hana vita hvernig komið er.

Er nú strax sent eftir lækni, sem þar var á næstu grösum. Þegar hann hafði skoðað sjúklinginn skrifar hann lyfja-ávísun og réttir Mrs. Collin. "Er konan mjög veik?" segir hún. "Já, hún er talsvert veik," svarar læknirinn. "Hjartað er veiklað. Svo er hitaveikin að magnast í henni; hana þarf að stilla."

Líða nú þrír dagar svo, að Ingibjörg er mjög veik. Vitjar læknirinn hennar daglega, jafnvel tvisvar á dag. Á fjórða degi fer hitaveikin talsvert að réna. En talsverðrar óhægðar finnur hún enn til fyrir hjartanu.

Þennan sama dag, sem Ingibjörgu fór heldur að létta, kom Sigurður Magnússon til Brandon, jafnvel helzt í þeim erindum að taka Siggu með sér til Morris-hjónanna. Hafði hann skýrt þeim frá öllum kringumstæðum. Var um samið, að hann mætti koma með stúlkuna þangað og mætti hún vera þar eins lengi og hann væri þar að vinnu.

Hittir Sigurður Magnússon vin sinn Jón Stefánsson fyrstan manna, eins og venja hans var þegar hann kom til Brandon. Fréttir hann þar, hvernig högum er farið með Ingibjörgu. Að vísu sagði hann hjónunum frá erindi sínu og fyrirætlan, sem þau höfðu þó nokkurn grun um áður. En jafnframt tekur hann það fram, eft-

ir nokkra íhugun, að hann eigi ekkert við það mál í þetta sinn.

— — — —

"Heima hjá Morris næstu nótt, fór eg að íhuga mál mitt. Fanst mér það líta nú öðru vísi út en áður, þegar við Ingibjörg áttum síðast tal um það. — Veiktist ákaflega mikið. Er eg orsök í því? Þannig spurði eg sjálfan mig. — Hún sagði um daginn, að eg hefði "eyðilagt líf sitt." Eru það ekki hörð orð?—Vel vissi eg, að hún leit alt af svo á það á Mýrum. Og nú finn eg glögt, að hún hefir alt af borið þessa hugsun með sér. Og hún sagði um daginn: "Eg fann það strax á Mýrum, að þú sórst þig í ættina—þann gamla hugsunarhátt, að meta einskis r é t t konunnar. Hún væri skyldug til þess að h l ý ð a, h l ý ð a, h l ý ð a. Nei, eg hefi aldrei þolað að hugsa til að lifa undir því lögmáli." Og hún sagði: "Þú mátt eins vel skjóta mig, eins og að rífa barnið mitt frá mér." — Eg reyndi að benda henni á, að eg hefði líka tilfinningu fyrir eina barninu mínu, og hún sýndi með þessum orðum sínum, að hún liti mjög einhliða á þetta mál. "Þú segir, að við heimtum h l ý ð n i, en hvað er það sem þú heimtar? Já, einmitt það, að eg afsali mér öllum föðurrétti til barnsins míns. Eina barnsins—barnsins, sem ber nafn þeirrar manneskju, sem mér auðnaðist að elska til síðustu stundar. Einu sinni hélt, eg að eg mundi elska—elska—þig—kannske til síðustu stundar." — — Nú er komin breyting á. Er hún mér að kenna? Er eg valdur að veikindum hennar? Hjartað bilaði. Of miklar geðshræringar—of æstar tilfinningar. — Ó, guð minn góður! Gefðu, að þessi veikindi leiði

hana til að mýkja skap sitt og slaka eitthvað til. Eg vil slaka til, alt sem eg get, nema—nema að missa barnið mitt— nafnið, sem eg elskaði, og eg vil alt af mega elska. — Þannig talaði eg við sjálfan mig langa hríð um nóttina.

"Næstu daga er eg að hugsa um að fara í þriðja sinni á fund Ingibjargar, og vita enn hvort skap hennar hefði ekkert mýkst við veikindi þessi. Samt vildi eg ekki flaustra að því, heldur vildi eg gefa henni tíma til að hressast vel og íhuga mál þetta. Næst þegar eg kom til Brandon í téðum erindum, hagaði eg öðru vísi til heldur en eg hafði áður gjört. Í þetta sinn fæ eg Ingibjörgu, konu Jóns Stefánssonar, til að fara með mér yfir að hótelinu, og hún fái nöfnu sína til samtals við mig í einni stofunni þar í byggingunni.

Þegar Ingibjörg Kristjánsdóttir gengur inn í stofuna, sé eg fljótt að hún er talsvert breytt í útliti. Í staðinn fyrir uppgerðar **hörkusvip og þóttalegt sjálfbirgis látbragð,** virtist mér hún nú sýna **hæverska kyrð** í innra lífi sínu, og eins og **lamaða meðvitund.** Þar sem eg þóttist skilja þessi merki, reyndi eg af ýtrasta megni að laga mig eftir þeim.

Eftir að við höfðum heilsast og hún fengið sér sæti, þögðum við um stund. Það var eins og hvorugt gæti byrjað á umræðuefninu. Hér var að eins eitt umræðuefni. Hvorugt okkar mun hafa fundið nauðsynlegt að byrja með því að tala um veðrið og spá í eyðurnar hvernig veðrið yrði næsta dag. Nei, við vorum ekki að hugsa um nokkra tízku.

Á endanum rauf eg þögnina og segi: "Ingibjörg, eg er enn kominn hingað til Brandon til að ná samtali

við þig um þetta mál, sem okkur bæði varðar svo mjög. Má vel vera, að þér finnist að tilfinningar þínar séu meiddar með þessum árásum, sem þér kannske finst að vera frá minni hálfu. En jafnframt get eg sagt, þótt þú máske trúir því ekki, að eg hefi aldrei haft löngun til að níðast á réttindum þínum. — Eg verð að benda þér á, að eg hefi líka s á l, og get því ekki lifað sem tilfinningarlaus skepna, hvað snertir réttindi og blóðskyldu.—

"Hún segir: 'Eg veit að þú elskar barnið, eins og eg; og er hér því úr vöndu að ráða. Það sýnist, sem að bæði þurfi að slaka til. Eg var að hugsa um það í nótt. Eg hefi ekki sofið allar nætur að undanförnu. Eg var að hugsa um það í nótt, segi eg, að í ríki Salómons konungs og spekingsins, voru tvær konur, sem voru að deila um barn. Báðar þessar konur þóttust eiga það, vera blóðskyldar mæður þess. Þegar hvorug vildi gefa eftir eða sleppa sínu tilkalli til barnsins, var konungurinn sóttur til að dæma á milli þeirra. Eftir að konungur hafði heyrt um málavöxtu og að hvorug vildi slaka til, kveður hann upp dóm, sem var á þessa leið: Þar sem ómögulegt er að fá sönnun fyrir, hver sé hin blóðskylda móðir, kveð eg upp þann dóm, að barninu sé skift í sundur og fái hvor sinn hluta. Þegar átti að fara að fullnægja þessum dómi, hrópar önnur konan upp og segir: 'Eg vil heldur sleppa mínum hluta, heldur en barnið mitt sé deytt.' Þá segir konungur: 'Þú ert sú sanna móðir, þú skalt hafa alt barnið.'

"Hér hagar öðru vísi til, heldur en í frásögunni. Hér er ekki um tvær konur að ræða. Getur því blóð-

skylda verið á báðar hliðar. Sá munur er samt með málspörtum, að annar þeirra hefir borið þetta afkvæmi sitt undir brjóstum sér bæði útvortis og innvortis. Og afkvæmi þetta hefir nærst og dafnað af blóðdropum móðurinnar."

"Ingibjörg þagnar, og helzt sú þögn um nokkra stund. Loksins rauf eg þögnina og segi: "Eg hefi hugsað mér að koma með upástungu þannig, að bjóða þér að byggja hér í Brandon lítið hús (Cottage) handa þér að búa í með barnið okkar. Getur þú þá unnið að eins það sem þér sýnist sjálfri gott. Undir þessum kringumstæðum, sem þú hefir verið hér í Brandon, hefir þú þurft að leggja á þig erfiða vinnu til að framfæra þig og barnið mitt. Barnið, sem eg vil gjöra alt fyrir. Þó eg hröklaðist snauður af landi burt—fé Siggu litlu er þar enn á vöxtum—, hefir mér auðnast að draga svo saman fé hér í landi, að eg get þetta, og þó meira væri.

"Með þessu móti veit eg fyrst, hvar barnið mitt er; í öðru lagi get eg veitt þér og því það sem þið þurfið til að lifa af góðu lífi; og í þriðja lagi gæti eg séð barnið mitt endur og sinnum, og það fengið nokkura þekkingu á honum föður sínum."

Eftir nokkra þögn segir Ingibjörg: "Ekkert ákveðið læt eg uppi um það, hvort eg tek þessu boði eða ekki."

## Draumsjónin.

Eftir frásögn Ingibjargar, sem er á þessa leið:

"Um kvöldið, þetta hið næsta, sit eg í mjúkum hægindastóli í litla herberginu, sem eg hafði á loftinu

yfir eldhúsinu. Býst eg nú til að fara að hátta ofan í rúmið hjá Siggu litlu, sem svaf svo undur vært. Jafnvel þó eg hefði ekkert unnið um daginn—frúin áleit mig ekki færa til þess—, fanst mér þreytu- eða magnleysis seyðingsverkir um allan líkama minn. Þar sem eg sat nú í þessum mjúka hægindastól, var eins og svefnmók sigi á mig. Augun luktust aftur. — Sá eg þá fóstra minn koma inn í herbergið, eða í nánd við mig. Ekki var eg viss um, hvort hann var í herberginu eða annars staðar, man það ekki. Stöku sinnum áður hafði mig dreymt fóstra minn, en samt ekki í seinni tíð, það eg mundi til. Ekki yrti hann á mig, en mér sýndist af tilliti hans, eða það flaug í huga minn, að hann væri áhyggjufullur yfir einhverju. Hann horfir á mig nokkuð alvarlegur. Svo bregður fyrir eins og rólegum ánægjusvip, sem eg mundi svo vel eftir, þegar hann var að gjöra eitthvað fyrir mig heima á Grund á uppvaxtarárum mínum. Þessu næst heyri eg ofur lága rödd, sem segir: **"Við erum öll að hugsa um þig."** Í því bili snýr hann sér við, og fjarlægist mig. Þykist eg þá sjá baksvipi á fleira fólki. hvar á meðal eg þykist kannast við baksvip móður minnar sál. — Svo vakna eg af móki þessu og opna augun. — Fer eg nú að tína af mér fötin og stíg upp í rekkjuna. Þegar eg legst niður, finst mér eins og allur svefn sé horfinn frá mér, og eg verð glaðvakandi.

"Við erum öll að hugsa um þig." Hvernig komust þessi orð inn í meðvitund mína? Voru þetta orð töluð til mín? og ef svo var, hver talaði þau? — Eg sá ekki að varir fóstra míns bærðust. Röddin var svo lág, að eg gat heldur ekki kannast við málróm hans.

—Eg hlýt að hafa sofnað og þetta, sem fyrir augun bar, verið draumur.

"Hvernig komu orðin inn til mín? Vanalega finst manni í draumum, að draumveran tali við mann eða til manns líkt og í vöku væri. — "Við erum öll að hugsa um þig." Hver öll? Það var eg að reyna að ráða. Eg sá nokkra baksvipi, og mér fanst eg kannast við baksvipinn hennar móður minnar sálugu.

Ef að hinir framliðnu ástvinir vorir hafa einhver r á ð að vera okkur til liðs handan úr lífinu órannsakaða, er enginn efi á, að þeir gjöra það. — Elskan getur ekki dáið, hún tilheyrir sálinni.—Hvað er eg að segja? Elskan getur ekki dáið! Oft virðist þó svo, að h e i t elska hafi dáið á meðal vor mannanna. Hví skyldi hún þá ekki geta dáið með hinum sýnilega dauða, þar sem hún reynist að vera dauðleg hér í lífi voru á jörðinni? Sálin er oft undir **harðstjórn** — harðstjórn holdsins. — **Dýrseðlið** í manninum, það er **harðstjórn** ástríðna, sem ímynduð gæði þessa lífs framleiða. — Það er viðurkent, að móðurelskan sé sú eina elska, sem standist eldraunir ástríðanna frá dýrseðlinu í manninum.—"Ef eg hefði dáið um daginn, þegar þetta hastarlega kast greip mig, finst mér að elska mín til barnsins míns hefði ekki dáið. Mér finst ætíð, að Sigga mín taki æðsta sætið í sál minni, jafnvel stundum fylli hana upp. Gleymi þá öllu öðru.

— — — —

"Og—h a n n elskar h a n a líka. En okkar elska. Ó, hún var svo veik — hún dó—getum við þá bæði elskað barnið okkar? Já, andstæður koma samt fram, sem deyfa sælu elskunnar. Ó, hvað við hefðum get-

að verið sæl. Ef—ef—við hefðum íhugað afleiðingarnar. — Já, fóstri minn — p a b b i minn, þú elskar mig enn. **"Við erum öll að hugsa um þig."**

— — — —

"O, elsku barnið mitt, er elskan einhlít? Nei, oft hefir elskan leitt til ófarsældar. Er eg ekki að leiða þig til ófarsældar með þverúð minni?

"H e f n d—h e f n d, það var sem eg heimtaði. Var eg ekki of hörð? Mér fanst h a n n hafa eyðilagt alt mitt líf. Var það alt h o n u m að kenna? — Hefði eg dáið um daginn, hvernig hefðum við þá bæði getað elskað barnið okkar? Hann hefði getað elskað það því meir. Sýnt því því meiri elsku. Veitt því alla þá sælu, sem það gat á móti tekið og heimurinn getur veitt. — Gat eg líka elskað barnið okkar, þar sem það var með h o n u m, og í örmum h a n s? — Mundi eg ekki hafa fráfælst að koma nálægt—nálægt h o n u m? Ef elskan fylgir okkur yfir—hvernig er þá með hatrið? Æ, æ! Eg gat ekk hugsað til þess. Ó, Ó, guð minn góður! Eg hefi aldrei h a t a ð — eg hefi enga manneskju hatað. Eg hefi aldrei h a t a ð **hann!"**

## Afturhvarfið.

Næsta morgun fór eg yfir til nöfnu minnar. Þegar við höfum talað saman um stund, segi eg: 'Fór Sigurður heim í gær?' 'Já,' segir nafna mín; 'en hann var að ráðgera að koma kannske bráðlega aftur.' 'Sagði hann ykkur frá samtali okkar, eður kostum þeim, sem hann bauð mér?' — 'Nei, eg held hann hafi ekki sagt Jóni mínum neitt um það,' svaraði nafna mín; 'að eins hafði hann sagt eitthvað á þá leið, að hann hefði

boðið þér þau kjör, sem hann gæti lengst gengið í tilslökun. En, þar sem þú hefðir ekki sagt þá neitt um það hvort þú tækir þeim eða ekki, ætlaði hann ekki að bíða lengi eftir því svari."

Ingibjörg Kristjánsdóttir situr á kassa þar í eldhúsinu og virtist nöfnu hennar sem hún muni búa yfir einhverjum þungum hugsunum. Hún steinþegir og starir í gagnstæða átt frá nöfnu sinni. Loksins segir Ingibjörg Sigurðardóttir: "Get eg nokkuð gjört fyrir þig?"

"Já," segir hin, þó eftir nokkurt andartak. "Sigurður bauð mér kosti, eða helzt einn kost í gær, og eg ætla að segja þér hver hann var. Hann bauð mér að byggja lítið hús handa okkur Siggu hér í Brandon, svo við gætum búið þar að minsta kosti þegar eg fyndi mig ekki færa um að vinna við matreiðslustörfin á hótelinu eða á matsöluhúsum, þar sem bezt er borgað fyrir vinnuna, og eg get alt af haft Siggu mína þar með mér."

"Hin segir: 'Þú ættir að þiggja það. Er það ekki munur að eiga sitt eigið heimili, og geta hvílt sig, þegar manni finst þörf á hvíldinni. Svo mun Sigurður leggja eitthvað meira til en húsið, svo sem á borð með Siggu litlu. Hann getur það vel. Hann kvað vera orðinn talsvert efnaður, segir Jón minn. — Jón minn getur kannske komið orðum til hans eða bréfseðli, svo lítið beri á. Jafnvel látið orð liggja svo að hann sjálfur þurfi að finna Sigurð. Eg skal nefna þetta við hann í kvöld."

"Jæja, góða mín. Eg vona að þetta fari ekki fleiri á milli. Eru ekki Íslendingar hér í nánd?"

"Nei, enginn Íslendingur er hér mjög nálægt. Það

eru að eins tvær fjölskyldur aðrar en við í Brandon."

Ingibjörg Kristjánsdóttir segir: "Það er gott, að þið hjónin eruð að eins þeir einu hér í Brandon, sem vita hvernig ástatt er millum okkar Sigurðar. Hún Gunna mín veit dálítið um það. Eg hefi beðið hana að segja engum manni frá því."

— — — —

Um nokkurn tíma hafði Jón Stefánsson unnið að smíðum svo langt frá húsi sínu, að hann kom ekki heim til miðdagsverðar. Þetta sama kvöld, þegar hann hafði neytt kvöldverðar, segir húsfreyja:

"Hafði Sigurður nokkur orð um það við þig síðast hvort hann kæmi bráðlega aftur inn í bæinn?"

Jón segir: "Svo mikið sagði hann, að hann tæki Siggu litlu umsvifalaust, ef h ú n ekki gengi að þeim kostum, sem hann bauð henni, þegar í stað. Það meinar, að hún hugsar sér að laumast burtu frá Brandon."

Húsfreyja segir: "Nafna mín kom hingað í morgun. Og áttum við dálítið tal saman. Mér fanst hún vera mjög þungt hugsandi. Virtist mér sem hún væri að grenslast eftir því, hvort Sigurður kæmi bráðlega inn í bæinn; að minsta kosti talaði hún á þá leið."

Jón segir: "Nú þykist eg sjá, að annað tveggja er, að hún ætlar að laumast í burtu með barnið, og vill því hafa njósnir um, ef Sigurður kemur inn í bæinn, eða hún hefir afráðið að þiggja boð hans, og vill láta hann vita það sem fyrst."

Ingibjörg segir: "Eg held það síðara verði ofan á, því hún sagðist þurfa að láta Sigurð vita sem fyrst, hvað hún afréði með tilboð hans."

Jón svarar: "Af þessum orðum getur maður séð, að hún er ekki að hugsa um að laumast í burtu."

Eftir litla þögn segir Jón enn fremur: "Eg veit að Sigurði þykir stórum betur, ef Ingibjörg þiggur þetta boð hans. Honum er svo farið, að hann vill ekki þurfa að beita hörku við h a n a, ef annars er kostur. Eg ætla að fá "pónann" hjá Billa, og fara út til Sigurðar á morgun."

— — — —

Þegar Ingibjörg Kristjánsdóttir gengur inn í litlu borðstofuna í húsi Jóns Stefánssonar, stanzar hún á gólfinu og með niðurlútu höfði segir: "Komdu sæll, Sigurður." Hann sat á stól við matborðið, andspænis dyrunum.

Sigurður anzar og segir: "Komdu líka sæl, Ingibjörg. Það gleður mig að hitta þig hér í dag, og vona, að fleira til ánægju á eftir fari." — Eftir nokkur andartök segir hann enn fremur: "Viltu ekki fá þér sæti? Hér er stóll við borðið." Og hann bendir henni að taka sér heldur sæti þar, en á öðrum stólum, sem fjær honum voru.

Ingibjörg hafði ekki hreyft sig úr þeim sporum, þar sem hún tók stöðuna fyrst, og drepur nú höfði öllu meir niður. — Sér nú Sigurður, að hér er breyting, já, stór breyting komin á. — Hvorugt þeirra mælir orð svo algjörð þögn ríkti í stofunni. Loksins brýtur Sigurður þögnina og segir: "Geturðu ekki komið hingað nær mér?"

"Nei," svarar hún undur lágt.

Sigurður stendur upp, víkur að hlið hennar og grípur um hönd hennar, sem honum finst titra mjög.

Sveiflar hann þá armi sínum utan um hana og leiðir hana að stól þeim, sem hann hafði setið á. Þar sezt hann niður og setur hana á kné sér. Í því brauzt fram djúpur grátekki, með megnum titringi, líkast og sjóðandi vatnsgufa væri að brjótast upp úr keri með feldu loki yfir. Eftir nokkra stund linast gráts- og ekka umbrotin, sem hún hafði svo mjög reynt til að halda niðri. Sigurður, sem nú hafði þagað um hríð, segir: "Eg vil sýna þér alla vægð og meðaumkvun, sem framast eg megna, ef þú að eins vilt þiggja það."

"Æ, æ!" Þetta hljóð brauzt fram með háum og löngum grátstaf, og um leið létti umbrotunum, sem inni fyrir ólguðu. Eftir nokkra stund var komin nokkur kyrð og grátekkinn hjaðnaður. Þá segir Ingibjörg:

**"Getur þú fyrirgefið mér, Sigurður?"**

## XII. KAPITULI.

### "Samgleðjist mér, því eg hefi fundið drökmuna, sem eg týndi."

Morguninn 24. desember 1882 hafði húsfrú Anna Morris talsverðan starfa með höndum að útbúa börn sín til ferðarinnar. Til Brandon var ferðinni heitið. Veðrið var hreint og kyrt, en loft þó skýrunnið með köflum. Sá oftar til sólar um daginn. Talsvert frost var í loftinu, svo fólk hafði fulla þörf fyrir hlýjan vetrarklæðnað til að skýla sér í opnum sleðakössum. Ekki varð annað notað, jafnvel þó að snjór væri helzt of lítill til þess að gott sleðafæri teldist. Frosthrímið hékk á hverjum kvisti, jafnt á greinum hárra runna og á viðinum og þistlum, sem lægra stóðu.

Klukkan 10 árdegis lögðu þrír sleðar á stað frá heimili þeirra Morris-hjóna. Fyrst fóru Morris-hjónin með börn sín, þar næst voru Edmunds-hjónin og eg, og í þriðja sleðanum McPhersons-hjónin. Ekki bar mikið á, að hestunum veitti um megn að draga sleðana, þó að sumsstaðar væri meira héla heldur en snjór. Þeir voru hraustir og vanir við drátt. — Þegar inn í bæinn kom, keyrðum við að húsi Jóns Stefánssonar; fengu konur og börn þar gott húsaskjól, en karlmenn fóru að koma hestum sínum fyrir í ferðamannafjósum.

Klukkan 2 síðdegis var gangan hafin frá húsi Jóns vinar míns að kirkjunni. Flestir voru enskumælandi í þeim hópi, sem raunar var ekki stór. Presturinn var af Methodista kirkjuflokki, sem ætlaði að gefa saman hjón um daginn.

Að afstaðinni hjónavígslunni var lagt á stað út að heimili þeirra Morris-hjóna. Hafði nú einum sleða með tveimur hestum fyrir verið bætt við. Þau Stefánssons-hjónin voru í sleða með Edmunds, en eg var í þessum. Þegar við vorum á leiðini út var sól runnin og talsvert nöpur vindgola, svo við þurftum að fletta loðskinnskrögunum upp til að skýla eyrum, vöngum og brjóstum.

Einhverju sinni á leiðinni segi eg við sessunaut minn: "Nú er 24. desember; geislar hinnar lífgandi sólar hafa skinið dapurt í dag. Náttúran liggur í dái og nöpur kæla leikur um lífið. 24. júní fyrir 8 árum síðan var sólbjartur dagur. Þá sýndist lífsins sól skína í heiði. En — mér finst að hlýir sólargeislar séu að verma mig. Eg vona, að dragi ekki fyrir þá geisla aftur."

Sessunautur svarar: "Mennirnir eru svo skammsýnir, að þeir kæla hið andlega loft og reka allan yl úr sálu sinni."

Ekki voru margir gestir vorir, sem sátu að snæðingi um kvöldið hjá Morris-hjónunum, en það voru fölskvalausir vinir vorir. Eg hafði verið svo heppinn, að kynnast þarna góðum mönnum, sem báru hlýjan hug til mín. Þeim var orðið ljóst, um æfintýri mitt og samfögnuðu mér, að hafa fundið mína týndu perlu aftur.

Um kvöldið segir Mr. Morris: Það veitir mér mikla ánægju, að geta nú samfagnað vini mínum. Fyrir hinn liðna samverutíma hefir hann verðskuldað vináttu vora. Við þeta tækifæri minnist eg frásögunnar um hinn týnda son. Sú saga á ekki að öðru leyti skylt hér við en það, hvað fögnuðinn snertir. Föðurnum hafði þótt jafn-vænt um báða sonu sína. Annar var alt af hjá honum, og innileiki þeirra í milli hélzt æ hinn sami. En fögnuður yfir hinum, sem var týndur og aftur heimtur, varð svo mikill, að hann jafnvel skygði á hinn bróðurinn."

## XIII. KAPITULI.

### Saga Ingibjargar Kristjánsdóttur.

Þar sem þú ferð þess á leit við mig, að eg skýri þér frá nokkrum atriðum úr æfisögu okkar, og þar sem maðurinn minn hefir skýrt þér frá sinni hlið, vil eg því heldur verða við tilmælum þínum. Með því líka, að eg lít svo á, að þú og aðrir, sem þetta mættu sjá, geti betur skýrt fyrir sér sambandið á milli orsaka og af-

leiðinga. — Enn fremur vildi eg gjarnan að mín víti, minn miskilningur, gæti orðið öðrum til aðvörunar.

Þér er nú þegar kunnugt um tilefni og kringumstæður að hjónabandslífi okkar. Af því eg hefi nú í seinni tíð haft meira vald yfir tilfinningum mínum, hefi eg getað skoðað það frá fleiri hliðum.. Áður réðu tilfinningar og misskilningur.

Þegar eg var komin í húsmóðurstöðuna á Mýrum og hafði unnið í þeim verkahring um nokkurn tíma, fór eg að verða þess áskynja, að maðurinn minn leit svo á, að eg uppfylti ekki vonir hans að óskum. Þar sem hann hafði ákaflega mikinn viljakraft til framkvæmda og var jafnframt mikilvirkur, var raunar eðlilegt, að hann gerði háar kröfur til mín í mínum eigin verkahring. Og eg fann líka til þess, að eg gat ekki jafnast við hann í því tilliti. Hann var það sem kallað er stórhuga maður. Hann vildi láta heimili sitt bera af annara heimilum, ekki í einu, heldur í öllu. Vinnuna sótti hann af miklu kappi og heimtaði það af öðrum.

Eg var mjög hneigð til bókfræði, og þráði að auðga anda minn af þeim sjóði. Hér voru tvö gagnstæð öfl, sem toguðu í mig: Skyldu-aflið á aðra hlið, en eðlis-aflið á hina. Skyldu-aflinu þurfti eg að sinna, en samt var það þvingandi, að þurfa að helga því alt lífið. Eg, sem var svo ung. Svo þegar þar við bættist, að þrátt fyrir viðleitni mína gat eg ekki fullnægt kröfum þeim, sem jafnvel þegjandi voru gerðar til mín.

Eg fann að það var að koma fram, sem eg hafði litið á fyrst. Eg var of ung til að giftast og bindast móðurskyldunni og húsmóðurstörfum.

Eg fann, að eg hefði verið svo mikið farsælli, að

vera nokkur ár enn óháð og nota þann tíma mér til uppbyggingar. Eg var óundirbúin fyrir húsmóðurstöðu á stóru bóndabýli. Eg var að vísu tvo vetur á skólanum, en þá var eg svo ung og notaði tímann mest til bókfræðslu, sem var svo eðlileg.

Eg fór jafnvel að harma forlög mín; mér fanst lífið mundi verða mér að byrði, áður langt um liði.

Og vera þó enn svo ung.

Jafnframt og eg fann það, að eg gat ekki uppfylt vonir þær, sem maðurinn minn hafði gjört sér um mig áður en við giftumst, fann eg um leið mjög vel, að hann var valdur að böli mínu.

Þetta varð að sterkri sannfæringu hjá mér, og eg þóttist sjá, að lífið yrði að eins óánægja og erfiði. Að þvinga sál sína við stöðugar búsumhyggjur, en vera þó alt af óánægð, var óþolandi líf.

Eg var búin að eignast eitt barn, og eg elskaði það eins og móðurinni er eðlilegt. Ef að guð lofaði mér að halda þessu barni hjá mér, fyndi eg gleði og ánægju í því. Tilfinningarnar leiddu mig svo langt, að eg þráði nú helzt að vera við fámenni með blessað barnið mitt. Laus við alla bús-umhyggju.

Þegar hann fann þessa skoðun hjá mér, fór hann að reyna að mýkja skap mitt og þar með koma mér til að hætta við þetta áform mitt. Af því hann vissi, að mér var geðfelt að geta tekið stund til að líta í bók og líka til að hafa hægra með bústsörfin, bauð hann mér að eg mætti taka stúlku til að hafa inni í húsinu hjá mér, og hann skyldi ekkert takmarka mig í því tilliti.

Þetta tók eg á þá leið, að hann sæi sér fjárhagslegt tap við burtför mína. Eg vildi ekki treysta því, að

hann tæki ekki ráðin í þessu sem öðru til sín, þegar honum sýndist svo. En þess vil eg geta, að eg hafði full ráð á að fara með efni okkar eins og eg ætti þau sjálf. En kröfurnar með vinnu og stjórnsemi fundust mér um megn.

Eg hafði gengið út í hjónabandið án þess að hiti ástarinnar væri þar sterkasta aflið. Eg hafði, eins og allir í sveitinni, mikið álit á honum sem efnilegum manni, og áleit því að eg væri vel gift. — En í staðinn fyrir að sambúðin hefði átt að framleiða meiri hita, kom hið gagnstæða fram.

Af því eg leit nú svo á, að maðurinn minn væri valdur að þeirri ágæfu, sem mér fanst að hefði fallið yfir mig, fann eg tilhneigingu til hefndar í móti. Og h e f n din var, að fara í burtu.

## XIV. KAPITULI.

### Móðirin á banabeði.

Það var í febrúarmánuði 1879, fyrsta árið, sem eg var í Hólum, að Marja kona Stefáns tók mjög fljótlega megna veiki. Alt fólkið á Hólum var: Hjónin og tvö börn þeirra, einn unglings piltur og við Sigga mín; hún var þá á fjórða ári. Að eins einn læknir var í sýslunni, og frá Hólum til hans var stíf dagganga aðra leið. Þar sem við sjáum, að veiki þessi muni vera hættuleg —megn hiti strax, ritaði eg fljótlega lýsingu [illegible] byrjun veikinnar. Fer Stefán með hana samstundis til manns, sem hann treysti þar í nágrenninu. Var hann hinn mesti göngumaður og keppinn eftir því. Enda var

hann fljótur í ferð þessari. Þetta var um kvöldtíma. Konan veiktist síðdegis.

Þess gátum við til síðar, að Jón á Barði hefði risið upp árla næsta morgun, því um kvöldið kemur hann aftur með meðölin. Var þó snjór talsverður og auðvitað engar slóðir. Sóttin var nú orðin ákaflega megn í konunni. Hitinn kominn á hæsta stig. Seinni part dagsins og um kvöldið var hún lengst af með óráði.

Blönduna við hitasóttinni brúkuðum við stöðugt alla nóttina. Næsta morgun hafði hún fengið fult ráð og hafði það allan þann dag. Aftur næstu nótt kom óráð yfir hana með köflum. Liðu nú fimm dagar svo að engin umskifti sáust á veikinni. Á sjötta degi fór henni heldur að þyngja. Óhægð fyrir brjósti, innvortis, sem hún gat varla lýst, og magnleysi meir en áður í öllum líkamanum. Alt af vorum við til skiftis yfir henni, Stefán og eg.

Þennan dag var það eina stund, er eg sat hjá henni og hafði hlynt eitthvað að henni með drykk og fleiru, að hún segir: "Heldurðu ekki, góða min, að eg deyi?"

Eg vildi eyða allri hræðslu frá henni og segi: Nei, ekki held eg það; eg vona, að við eigum eftir að vera saman eitthvað enn þá."

"Ó, eg held eg deyi, mér finst eg vera svo ósköp veik. — Blessuð börnin! Eg væri nú ánægð að deyja, ef ekki væru börnin."

"Ó!—þau eru svo ung enn þá! æ, æ, æ!" — Í þessu fékk hún óttalega harða verkjarhviðu.

Þetta kvöld og næstu nótt var hún lengst af með óráði. Blandaðist oft þar inn í börnin og maðurinn.

Alla nóttina vorum við yfir henni og höfðum bakstra við höfuðið og eins þar sem verkir voru sárastir. Blandan og mest af meðölunum var þrotið. Undir morgun fékk hún ráðið aftur. Féll hún því næst í svefn og svaf lengst af fram á miðjan dag.

Þennan dag var hún magnminni en nokkuru sinni áður, en kvartaði þó ekki yfir sárum kvalaverkjum. Eina stund, er eg sat hjá henni, var eins og svefnmók hvíldi yfir henni. Við og við opnaði hún augun, sem þó jafnharðan lukust saman aftur. Þannig leið talsvert langur tími. Loksins lýkur hún augunum alveg upp. Er þá eins og svefnmóks-blærinn hverfi frá og hún segir: "Æ, eg er svo þyrst!"

Eftir að eg hafði gefið henni drykkinn, sem hún gat nú naumast dregið að sér, hagrætt henni á koddanum og strokið um andlit og höfuð með vatnsvotum dúki, var eins og hún lifnaði ofur lítið í augunum. Litlu síðar segir hún: "Ingibjörg mín, eg held eg eigi nú ekki langt eftir; mér finst það. Ó, að eg gæti nú beðið fyrir mér — eg er svo dofin. — Eg get ei hugsað — guð hjálpi mér! Eg treysti á Jesúm". — Svo leið nokkur stund. Hún sýndist mjög þjáð. Svitadropar spruttu í andlitinu. Hún segir: "Hvar er Stefán?"

"Hann kemur víst bráðum inn", segi eg, og bað Gísla litla að fara og kalla á föður sinn. En drengurinn mætir honum, hann er þá að koma inn.

Þegar hann er kominn að rekkjunni, verður hún fyrri til máls og segir: "Elskan mín, við erum að skilja. Ó, blessuð börnin."

Stefán elskaði konu sína og var eins og steini lost-

inn. Auðvitað sá hann hvað var að koma fram. Loksins segir hann: "Elskan mín, fel þig Jesú Kristi. — Eg skal gjöra alt fyrir börnin, sem eg get."

"Eg veit það, en—" nú varð þögn. Litlu síðar segir hún: "Ingibjörg." Eg hafði vikið mér dálítið frá, þegar Stefán kom að rekkjunni, en þó ekki lengra en svo, að eg heyrði og færði mig því nær.

Þá segir hún: "Góða mín, okkur hefir ávalt verið vel saman, — blessuð börnin mín svo ung. Ó, má eg ekki biðja þig að vera hjá börnunum, eg trúi þér fyrir þeim. Það er svo bágt fyrir hann einan". — Nú þagnaði hún.

Satt að segja fanst mér að eg vera þarna í vanda stödd. Mér var vel við Marju; vildi eg ekki draga hana lengi á svari og segi: "Góða vina mín! Eg skal gjöra alt fyrir börnin þín, sem eg get."

"Þá dey eg róleg. Eg treysti á Jesúm Krist."

Þetta sama kvöld hér um bil klukkan 10, skildi sál hennar við sína jarðnesku íbúð.

## XV. KAPITULI.

### Heitið.

Eg varð nú að skoða það sem skyldu mína, að annast um börnin. Gísli var á fimta ári, en Þórdís á þriðja. Og jafnframt að hafa umsjón á innanhúss-störfum. Fékk Stefán að vinnukonu, því eg vildi ekki vera ein. Blessuð börnin hændust nú að mér, eins og eg væri móðir þeirra; öll þrjú voru eins og systkini, sem kom undur vel saman.

Liðu nú fram tvö ár, án þess nokkur frekari breyt-

ing kæmi fyrir. Stefán var frekar fátækur maður, en hann rækti vel skyldur sínar og gerði sitt ítrasta til að uppfylla þarfir heimilisins.

— — — —

Það var einu sinni síðla vetar 1884, harða veturinn mikla, þegar hinar voðalegu harðindasögur voru að streyma inn í meðvitund fólksins, með hinum mjög svo ónógu fréttafærum á þeim tímum. Aðal-pósturinn var langt á eftir ferða-áætlun þann vetur, og svo lágu blöð og bréf hér og þar. Umferð var sáralítil, snjóþyngsli ódæma mikil og frostgrimdir meiri, heldur en nokkrir menn mundu. Það var nokkuð líkt kuldanum hér í landi. Enda kom sá voðalegi kuldi víða hart niður á Íslendingum, svo sem með hinn óttalega barnadauða.

Ungbörnin dóu unnvörpum þann vetur, af þeirri orsök, að þau urðu að draga að sér frost- og saggaloft í þessum óupphituðu baðstofu húsum. Þau máttu frekar heita frost-hús, en nokkuð annað, sumstaðar þann vetur.

Jafnvel þó að baðtsofan á Hólum væri alls ekki með þeim köldustu — margar hinar fallegustu baðstofur voru kaldastar—, taldi eg mig sæla, að hafa ekki ungt barn þann vetur.

Börnin fengu kíghósta; allstaðar var hósti í börnum á öllum aldri. Sumstaðar bráðdóu þau úr heiftugri lungnabólgu. — Var það eitt sinn á góunni, að svo bar undir, að við Stefán erum tvö ein heima ásamt börnunum. Notar hann nú tækifærið að vekja máls á því, sem hann hafði áður borið upp. Hann segir:

"Þar sem þú hefir fengið fullnægjandi svar frá Sig-

urði, sýnist liggja næst fyrir þig að senda það til sýslumanns. Mun hann þá skrifa þér aftur og ákveða hvenær löglegur skilnaður getur fram farið."

"Já, eg býst við því, að það stefni að mér; en jafnframt er það nokkuð, sem mér finst þungt að hugsa til."

"Það gengur svona stundum á lífsleið vorri. Við notum oft á líkingarmáli l e i ð, f e r i l eða b r a u t. Hafi maðurinn í þeim skilningi lagt út á þá braut, sem hann einhverra hluta vegna gat ekki haldið áfram á, getur hann ekki snúið til baka og byrjað á nýrri braut, heldur yfirgefur hann þessa braut og verður þá að taka þá næstu, sem fyrir honum verður.

"Eg veit, að þú gengur ekki ánægð út í þetta. En eg hefi lofað þér bæði að bera þig ekki ofurliði í neinu og eins að rækja skyldur mínar gagnvart þér og börnunum í öllu sem eg má orka."

"Eg er ekkert hrædd um það, Stefán. Eg ætlaði mér ekki að giftast í annað sinn. Eg finn vel, að giftingin skemdi mig í vissu tilliti. — Héðan af get eg ekkert elskað nema börn.

Marja sáluga var vinkona mín, og eg gat ekki annað en uppfylt hennar heitustu og sterkustu ósk, að svo miklu leyti sem mér var hægt, og eg hefi til þessa getað það. En svo er eðlilega alt saman hangandi keðja, þú og börnin. Við getum ekki búið svona saman áfram. Alt er á móti því. Þetta sýnist því vera eina brautin, sem eg get séð fram undan.

# XVI. KAPITULI.

## Forlögin taka fram í.

Þetta hið sama haust, litlu eftir réttirnar, segir Stefán við mig einn morgun: "Eg ætla að fara yfir í Dal í dag, að finna Þorbjörn bróður minn; eða er ekki sjálfsagt, að fara að undirbúa alt?" — Eg samsinti því.

Stefán ætlaði nú yfir að Dal að finna bróður sinn og ráðfæra sig við hann um tilhögun á ýmsu viðvíkjandi giftingu okkar, sem okkur hafði komið saman um að láta fara fram þá um haustið, áður vetur settist að. Samt kom okkur saman um það, að hafa fáment gestaboð í þetta sinn.

"Eg kem heim aftur í kvöld," sagði hann þegar hann reið úr hlaði. — Talsvert mikið hafði rignt daginn áður og nóttina, svo að mjög var vatn á jörðu. Þennan dag var að vísu ekki mikil rigning, en loft var þykt allan daginn, svo ekki sá til sólar. Dimdi því fljótt um kvöldið.

Leið nú af kvöldið svo að Stefán kemur ekki heim; taldi eg þá víst, að hann hefði sezt að í Dal hjá bróður sínum, hann hefði kannske ekki verið heima. En aftur mátt lítinn tíma missa, þar sem vegir voru blautir og dagar stuttir. Varð eg því ekki hrædd um kvöldið.

En aftur kom yfir mig því meiri hræðsla daginn eftir, þegar vinnumaðurinn kemur inn til mín og segir: "Dreyri er kominn."

Eg man það, að eg hrökk saman, svo bylt varð mér við. Samt náði eg mér fljótt og spurði, hvort hann væri með hnakknum. Nei, en með beizlið var hann. Var hann kominn til hrossanna niður í hagann. Leið

Stefáns lá yfir Tunguá, sem rann þar allskamt frá Hólum. Var vað á ánni nokkru fjær.

Bið eg nú vinnupilt að taka tvo hesta og fara yfir að Barði og fá Jón með sér. Skyldu þeir fyrst ríða til vaðsins og vita hvort þeir yrðu nokkurs varir. Að öðrum kosti skyldu þeir fara yfir um ána og safna fleiri mönnum.

Reyndin varð sú, að líkið fanst rekið upp að eyraroddа talsvert langt niður frá vaðinu. Þóttust nú allir, sem kunnugir voru, vita, hvað dregið hefði til aldurtila.

Nokkurir steinar voru í ánni fyrir neðan vaðið. Af því dimt var orðið, mundi Stefán ekki hafa hitt á að fara rétt út á það og orðið of neðarlega. Hesturinn hefði hnotið um stein, kannske fallið á kné, og um leið er kastið kom á manninn, hafi móttak eða gjörðin brostið, og hnakkurinn með manninum orðið laus við og fallið í ána. Hnakkurinn sást hvergi.



Tekur nú Þorbjörn bróðir Stefáns sáluga að sér öll umráð yfir dánarbúinu. Fyrst útförinni og svo allri ráðstöfun á búinu. Verður það að ráði, að búið standi á Hólum yfir veturinn, nema hvað skepnum skyldi talsvert fækkað, bæði til þess að borga áfallandi kostnað og líka til þess að hæfilegt væri fyrir vinnupiltinn að hirða yfir veturinn.

## XVII. KAPITULI.

### Heitið verður að rjúfa.

Sá eg nú glögt, að næsta vor var eg vegalaus, hafði hvergi höfði mínu að að halla með Siggu mína. Ekki

gat eg verið þarna áfram og eins hitt, að h e i t það, sem eg hafði gefið Marju sál., hlaut nú að verða rofið. Fanst mér það ákaflega þungt, að hugsa til þess. Blessuð börnin voru öll eins og systkini og mér fanst mér taka jafn-sárt til þeirra allra. Eg þráði svo mjög, að geta uppfylt heit mitt við hina dánu vinu mína.

Það var ómögulegt, eins og nú var komið. Það er skylda mannsins, meðan hann finnur eitthvert hreyfiafl og styrk hjá sér, að taka sem mestan þátt í sinni eigin lífstilveru, og því hvorki að láta berast áfram eins og verkast vill, eða að sletta sér að öllu leyti á aðra, eins og skynlaus skepna væri.

Jafnvel þó eg hefði nokkur efni áhalds og gæti búist við að komast af án hjálpar með Siggu mína, þá var mér nú eiginlega enginn staður kær, frekar einn en annar. Svo á endanum kemst eg að þeirri niðurstöðu, að vilja helzt fara til Ameríku.

Um líf mitt hér í landi er ekki mikið að segja, frekar en þú hefir áður heyrt. Eg var tvo mánuði fyrst í Winnipeg. Þar næst fór eg til Brandon, sem kom til af því, að stúlka var þar niðurkomin, sem alist hafði upp í sveitinni minni heima. Við náðum saman bréfaskriftum, sem leiddu til þess að eg flutti þangað.



Nú eru 18 ár liðin, síðan við giftum okkur í annað sinn. Sigríður dóttir mín er nú gift kona hér í bygðinni og búin að eignast tvö börn. Gísli Stefánsson er líka giftur og býr skamt héðan, og sömuleiðis er Þórdís systir hans nýgift og býr hér í nágrenni.

Eftir að eg hafði verið þrjú ár hér í landi, fékk eg þau vestur um haf. Var það aðallega að þakka Jóni

bróður mannsins míns. Fyrir mín orð bað hann bróður sinn að ganga í það að koma börnunum vestur um haf. Mér fanst eg þrá eins mikið að ná þeim til mín, eins og mín eigin börn hefðu verið. Enda reyndist Þorbjörn þeim alls ekki góður frændi. Hafði hann Gísla með sér og notaði viðvik hans eins vel og kostur var á, en aftur lagði minni alúð við að gjöra úr honum það sem hér er kallað m a n n. Þórdísi fékk hann stað hjá vandalausu fólki, og af því hann þóttist þurfa að spara fé þeirra til meðlags. valdi hann helzt þann staðinn, sem hann bezt gat þokað niður meðlaginu, enda var hann miðlungi góður.

Með herkjum gat Jón náð út í farareyri handa þeim hingað vestur; vissu þó allir. að meira var óeytt af fé þeirra. Þau hafa ætíð reynst mér, eins og móðir þeirra væri. Eg á sanna vini, þar.

Dísa og Sigga mín gengu til skiftis dálítið í skóla (Collegiate) í Brandon. eftir að barnaskólanámi var lokið. svo þær eru allvel mentaðar sem alþýðumannakonur.

— — — —

## Eftirmáli.

Ykkur hjónum. fornu sveitungum mínum og vinum. kann eg miklar þakkir fyrir að hafa nú skýrt mér svo hreinskilnislega frá æfintýri ykkar, sem er talsvert einkennilegt í ýmsu tilliti. Með samúð gleðst eg yfir að sjá þann ánægjulega og rólega blæ, sem skín út úr ykkar aldurhnigna yfirbragði.

En sálin eldist aldrei. vinir mínir; hún er alt af jafnung. Elskan. sem er líf hennar. er æ jafnung.

En nú vil eg með eigin augum sjá alla þá fjármuna-

legu blessun, sem guð hefir veitt ykkur í þessu landi.

Ingibjörg segir: "Eg ætla fyrst að sýna þér, það sem ætíð stendur okkur næst, sem sé börnin. Þarna eigum við þrjár stúlkur," og hún bendir mér á þær í stofunni; og tvo drengi, sem líka voru þar. "Þetta er yngsta barnið mitt, hann heitir Jón og er 8 ára gamall. Hinn heitir Þórður; þessi elzta dóttir mín, sem heitir Anna og er fædd hér í landi, gengur nú á Collegiate í Brandon; nú eru frídagar hennar. Hinar tvær heita Guðrún og Ingibjörg."

## Búgarðurinn.

Sigurður segir: "Nú skulum við öll fara út á akra, og vil eg sýna þér land mitt og kvikfénað."

Þegar eg hafði talsvert mikið gengið í kring um hina breiðu hveitiakra, þar sem að hálf-bliknuð hveiti-stöngin gékk í kvikum bylgjum fyrir hinum þýða suð-vestan ágúst-blæ, nam eg staðar og segi: "Hvað fær þú uppskeru af mörgum ekrum í haust?"

Hann segir: "Eg á fimm fermílu-fjórðunga eða 800 ekur af landi; þar af eru 600 undir kornyrkju, en 200 ekrur eru beitiland og smá-runnar.

Vanalega fæ eg hveitiuppskeru af 400 ekrum, hafra og bygg uppskeru af hundrað ekrum og hvíli um hundrað ekrur. Þessi landeign er ekki nema aðeins meðaltal hér í bygð."

"Hvað færðu mikla uppskeru í meðalári af þessu landi þínu?" spurði eg.

"Eg hefi sjaldan fengið undir 20 bushelum af ekru, en aftur um 30 bush. af nýju og hvíldu landi; 22½ bushel mundi verða nálægt meðaltali í öllum árum.

Verður þá uppskeran af 400 ekrum 8,000 bushel. En af höfrum og byggi má telja 50 bushel af ekru—af hundrað ekrum 5,000 bushel.

"Svo hefi eg átta hross stór og tvö hross minni. Sömuleiðis svín, hænsi og um um 20 nautgripi, og þess utan mikið af verkfærum og vélum."

Þegar eg lýsti ánægju minni yfir velgengni vinar míns, segir Ingibjörg: "Eg er guði mínum þakklát fyrir þá blessun, sem eg hefi notið hér í þessu landi. Að vísu hefir það kostað okkur talsvert erfiði, sem eðlilegt er. En þó er eg honum mest þakklát fyrir þann sálarfrið, sem eg hefi svo oft notið innan um alt mitt erfiði.

"Sá veit fleira sem fleira reynir," segir gamalt máltæki.

Menn heyra tíðum sagt, þegar hjón eru gefin saman: **Að þau eigi og ætli að bera byrðina hvort með öðru** o.s.frv. Þessi orð eru stundum töluð eins mikið fyrir siðvenju eins og af sannri tilfinningu fyrir því, að þau næðu rótfestu í hjartanu og sama er um þá, sem eiga á móti að taka. Orðin komast að eyranu og þar deyja þau út kraftlaus.

Svo þegar kemur að því, að bera byrðina; svo þegar kemur að því að ganga undir okið, eða beitast fyrir ækið, fer stundum samvinnan á þá leið, að annað tveggja nást ekki **samtök,** eða aflið verður **tvístrað.** Verður dráttur þá drjúgum þyngri, og það sem verst er, óánægjan rís upp.

Þeir sem hafa heitbundið það, að lifa og vinna saman, þurfa að gjöra það, ekki í einu, heldur í öllu.

Hver parturinn, sem er kærulaus í því, og gjörir

hinn partinn ófarsælan, bakar sjálfum sér ófarsæld um leið.

Eg og maðurinn minn höfum reynt þetta hvort í sínu lagi.

"Hver sem eyru hefir að heyra hann heyri."

ENDIR.

